# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BREF OG GJÖRNÍNGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

ANNAÐ BINDI

1253—1350.

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS (MÖLLER & THOMSEN)

1893.

# Formáli.

Eins og kunnugt er, var útgáfa íslenzks Fornbréfasafns hafin litlu eptir miðbik þessarar aldar og vann að því Jón Sigurðsson. Kom fyrsta hepti þess út 1857, annað hepti 1859 og þriðja hepti 1862; varð þá nokkurt hlé á og kom nú fjórða heptið ekki út fyrri en 1876; var þarmeð fyrsta bindi lokið. En þá var líka starfsþol Jóns Sigurðssonar þrotið og hans iðjurika æfi komin að lotum, og andaðist hann 7. Dec. 1879. Eptir það lá útgáfa safnsins í dái um hríð þar til 1886, að eg fór þess á leit, að fá fé til þess að halda útgáfunni áfram, og studdu það ýmsir góðir menn og þar á meðal Bókmentafélagið, sem bauðst til að taka að sér prentkostnaðinn; réðst þá og svo, að Kenslumálastjórnin danska veitti helming fjárins (600 kr.) árlega, en stjórnarráð Íslands og alþingi hinn helminginn Eg hefi að vísu séð það síðan, að fé það, er eg bað um, er oflítið, en það er samt betra en ekki, og fyrir það hefir þó safninu miðað það fram, sem orðið er.

Þó að Jón Sigurðsson entist ekki til að gefa meira út af safni þessu, liggja þó eptir hann mikil drög til framhalds því, og eru þau nú geymd í safni hans í Reykjavík Nr. 363—374. 4to og 484. 4to. Það var auðvitað eitt af því fyrsta að fá þetta safn Jóns léð og rannsaka það. Því er nú svo varið, að það er hvergi fullgert, en safnað er þar einhverju nær frá öllum tímum niður til 1800. Langfylst er safnið fyrir árin 1263—1300, en úr því fer að strjálast. Af afskriptum er mart í safni þessu, sem nota mætti við útgáfu og gætu flýtt mikið fyrir, ef maðr hefði leyfi Landsbókasafnsins til að láta þær fara í prentsmiðjuna og þar með spara sér að skrifa upp sömu skjölin aptr. En þessu hefir nú ekki verið farið fram, og eru það því einkum athugasemdir Jóns, sem hafa komið mér að haldi og gefið mér margar bendingar. Það getr verið, að eg

hafi í upphafi, á meðan eg var ekki orðinn nógu kunnugr efninu, trúað þeim nógu vel og ályktað fullmikið út frá þeim, af því að hann hefir nær hvergi geingið frá neinu til fulls, svo að skoðun hans gat við frekari rannsókn hafa breyzt nokkuð, en getið er þess hvervetna þar sem eg hefi bygt á ætlan hans einni. Mart af afskriptum hans er og svo lagað, að ekki eru þær hentar til prentunar, og kemr það af því, að hann hefir opt ritað eptir lélegum handritum, jafnvel þótt betri handrit eða enda frumritin sjálf lægi við hliðina á honum. Er þetta ekki sagt, til þess að gera lítið úr því, sem hann hefir gert, heldr má það sýna, að hann hefir ætlað að halda því fram, sem hann hafði upptekið, að prenta hvert skjal í öllum þeim afskriptum, sem væri til af því, og stóð þá vitanlega á sama, hvaða handrit fyrst var afskrifað. Aðferð þessi er og rétt í sjálfu sér þar, sem frumritin eða afskiptir, sem eru ígildi þeirra, eru ekki til, en hafi menn frumritin, er það þýðingarlaust og jafnvel skaðlegt að vera að prenta misjafnar afskriptir jafnframt. Fram til 1400 hefir Jón skrifað upp flest þau frumbréf, sem til eru í Árna safni, en úr því ekki nema einstaka. Þó er vert að geta afskriptar hans af bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar, sem reyndar hefði mátt og átt að láta prenta eptir, þótt eg sé nú sjálfr búinn að afskrifa bókina aptr. En einna mest kveðr að afskriptum Jóns af bréfabók Ögmundar biskups og Gizurar biskups. Að öðru leyti er óþarfi að lýsa fornbréfasafni hans frekara hér, því það verðr geymt sem ævinlegr vottr um iðjusemi þessa ógleymanlega manns.

Þingið tók það þegar fram 1887, að útgáfa safnsins ætti framvegis að vera textútgáfa, og hefi eg nú sem framast mátti hagað mér eptir því, og ætla eg, að eingum manni, sem vit hefir á, þyki vera gerðar athugasemdir ófyrirsynju, og þarf eg ekki framar að afsaka það, að eg vona.

Bindi þetta er nú orðið nokkuru stærra en búizt var við í upphafi. Maðr varaði sig ekki á því að registrið mundi verða svo langt, sem reynd er á orðin. Reyndar er það ekki svo langt, að bindið geti ekki fullvel borið sig. En um registr þetta get eg sagt hið sama og sagt er um registrið við I. bindi, »að til þess hefir verið varið milli fyrirhöfn, að gera það sem fylst og greinilegast«, og þýðir lítið að tjá sig framar um það. því að sá einn skynjar sem reynir, hvaða elju það krefr. Það hefir reynzt mér fult ársverk og hljóp þó um tíma undir bagga

með mér að safna til þess, einkum úr biskupastatútunum og ýmsu fleira, cand. philos. Ólafr Davíðsson, og er það hverjum óvöldum manni ofraun að ætla sér að jafnast við hann að þoli og fljótvirkni, þegar hann tekr á því, sem hann á til.

Um registrið við III. bindi skal þess getið, að séð mun verða um að það komi áðr mjög langt um líðr.

Af því að það hefir nú verið rekið hingað til svo eptir útgáfu safnsins, hefir ekki verið hægt að gjörtæma svo það, sem til er af bréfum frá þeim tímum, sem bindi þetta nær yfir, að ekkert yrði eptir. Enda mætti leingi bíða þangað til víst sé, að alt sé tæmt. Útgáfa I. bindis stóð yfir í tuttugu ár og varð að koma þar með viðbæti af bréfum, sem eptir höfðu orðið. Þetta gerir og í sjálfu sér ekkert til, því að það sem eptir verðr, getr komið fremst í næsta bindi koll af kolli.

Ef eg ætlaði að fara að telja þá alla upp, sem hafa greitt fyrir mér á ýmsan hátt við það, sem þegar er gefið út af safni þessu, yrði langr uppi. En geta verð eg nokkurra manna, og er þar þá fyrst að greina forstöðumenn safnanna bæði í Kaupmannahöfn og á Íslandi, sem eru þeir jústizráð dr. Chr. Bruun yfirbókavörðr Konungsbókhlöðunnar miklu, S. Birket-Smith, yfirbókavörðr háskólans og Haldór yfirkennari Friðriksson, formaðr Landsbókasafnsnefndarinnar, sem ásamt nefndinni í heild sinni hefir sýnt mér ena mestu velvild og mannúð á allan hátt í láni handrita, er eg þurfti á að halda. Þá verð eg og að geta nefndar Árna Magnússonar safnsins, sem á þann heiðr skilinn, að hún hefir gert mér aðganginn að fornbréfum þeim, sem undir hennar umsjón eru, svo auðveldan, sem framast má verða, og er það henni mjög að þakka, hve safni þessu þó hefir miðað fram síðan eg tók við því. Í sambandi við þetta fæ eg ekki leitt hjá mér að geta nú eins manns, sem eg hefði reyndar opt mátt minnazt fyrri, þótt fátt hafi orðið um það hingað til, en það er dr. Kristján Kålund, handritavörðr við safn Árna Magnússonar. Þeim manni hefi eg þessi tíu ár, sem eg hefi dvalið hér, gert meira ónæði en nokkrum öðrum, og alúð hans jafnan verið söm. Kunningjum mínum tveim í Reykjavík cand. mag. Pálma Pálssyni og cand. theol. og ritstjóra Hannesi Þorsteinssyni á eg að þakka margar afskriptir bæði úr Biskupsskjalasafninu og öðrum söfnum í Reykjavík. Geta verð eg enn

eins manns að lyktum, sem nú er dáinn, en það er Guðbrandr Vigfússon. Ástríki þess manns við mig á eg að þakka marga leiðbeiningu í öndverðu, þegar eg tók fyrst að mér þetta safn, og mundu þær þó hafa orðið enn fleiri, ef hans hefði leingr að notið og ef vík sú, er var okkar í milli, hefði verið nokkuru mjórri.

Kaupmannahöfn 11. Janúar 1893.

*Jón Þorkelsson.*

# Röð og efni bréfanna.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

## 1. í Júní 1253. á alþingi.

Alþingissamþykt um það, hvort ráða skuli guðs lög eða lands lög þar er þau greinir á.

Þetta samþyktarágrip er tekið upp í Kristinrétt Arna biskups (kap. 9. Thorkelínsútg. bls. 54—56). Hér er prentað eptir hinni ágætu skinnbók Brynjólfs biskups, Gl. kgl. s. Nr. 3270. 4to bls. 12 (skr. um 1320) og borið saman við aðra góða skinnbók í sama safni Nr. 3269 A 4to bls. 180 (skr. um 1360). Hafa þær báðar ártalið eins og hér er sett og ber það heim við Flateyjarannál og Árna biskups sögu kap. 29 (Bps. I, 720) og mun það því rétt vera. Annars telja sum handrit að samþyktin sé frá 1243 (IBfél. 215 A 4to fol. 48 b), 1244 (AM. 152. 4to), 1252 (AM. 153. 4to) eða 1256 (AM. 161 4to). Sumstaðar finst þessi klausa í skjalabókum frá 17. öld sem sérstök grein (t. a. m. í IBfél. 315. 4to A og B.)

Guds løg og lands løg Anno 1253[1]).

Þat var lôgliga jatað ok fullkomliga staðfest á jslandi at þar sem á greindi Guðs lôg ok landz laug þa skulu Guðs lôg raða. þa er liðit var fra hingat burð várs herra jeshu christi þushundrat vetra ok. cc. l. ok iij. vetr.

## 2. [1263].

Skrá um landamerki Hafralækjar, Garðs, Skriðu og ýmsra fleiri jarða í Þingeyjarsýslu.

Þessi skrá er rituð með krappri og ekki vel greinilegri hendi frá 15. öld á fremri hlið skinnblaðs eins í AMagn. Nr. 276. 4to;

[1]) skrifað á spássíu í 3269 A með hendi frá 17. öld.

á hinni hliðinni byrjar rekaskrá Hólastaðar frá 1374 (frumrit). Afskript þaraf er meðal afskripta Árna V, 23 Nr. 1. Afskript finst og í Svartskinnu (MSteph. 27. 4to bls. 457—61) með hendi Benedikts lögmanns þorsteinssonar eptir afskript frá 1705 af Ólafsmáldaga; kallast skráin hér: «Mäldage og Landamerkia Bref fyrer Garde j Adaldal» Aptan við stendr: «þetta framann og ofannskrifad var samann lesed vid mäldaga bök Hr Ölafs og er henne samhlioda til merkefs Hoolum i Hialltadal d. 18. Maij Anno 1705.

Jon Einarfson. Gudmundur Eirekfson».

Jón Sigurðsson hefir viljað heimfæra þessa skrá til «c. 1270» En sjálf skráin segir til þess að landamerkin væri «tjáð Ásgrími þorsteinssyni þá er hann bjó á Grenjaðarstöðum eptir þverárfund.» þverárfundr varð 19. Júlí 1255 og féll þar Eyjólfr ofsi bróðir Ásgríms fyrir þeim þorvarði þórarinssyni, þorgilsi skarða og Sturlu þórðarsyni. Hrukku þeir þá vestr á sveitir og til Vestfjarða Rafn Oddsson og Ásgrímr, því að þá var ríki þeirra þrotið nyrðra. Ásgrímr átti bú í Hvammi í Vatnsdal og mun hafa setið þar eptir að sætt komst á með þorgilsi þá er hann eigi var með Rafni, og hefir hann því ekki á þessu tímabili haft bú á Grenjaðarstöðum. 1261 fer hann utan og geingr suðr til Róma, en kemr út aptr 1262 og hefir þá bréf Einars erkibiskups fyrir Grenjaðarstöðum, að honum væri skipaðr staðrinn, og fór hann að búa þar um vorið 1263 (Sturl. Oxf. II, 259—260). Skráin er því ekki eldri en frá því ári. 1280 hefir Ásgrímr sýslur á Suðrlandi og er þá auðsjáanlega búinn að vera þar um hríð (svo sem fimm eða sex ár), og hefir hálfgert flæmst suðr og verið þar fyrst á snærum Árna biskups. Skráin er því ekki yngri en c. 1275. Mér þykir líklegast að hún sé einmitt frá sumrinu eða haustinu 1263, því að það er harla líklegt að Ásgrímr strax er hann var seztr að á Grenjaðarstað hafi gert gangskör að því að fá skýlaus landamerki þar i dalnum og að fá rétt og refjalaust að vita réttindi og ítök staðarins. það virðist reyndar vera tekið nokkuð undarlega til orða þar sem í skránni stendr eptir þverárfund, því að af því skyldi maðr halda, að þetta hefði verið rétt að segja strax eptir fundinu, en 1263 eru liðin 8 ár frá því hann varð. Manni gæti því dottið í hug að hér væri átt við þann þverárfund, ef þverárfund skyldi kalla, er Ásgrímr reið við tíunda mann til þverár í Laxárdal haustið eða öndverðan vetr 1254 og handhjó Jón son Eyjólfs prests Svalberðings (Sturl. Oxf. II, 186—87), en það mun þó ekki eiga svo að skilja, því Ásgrímr settist ekki á Grenjaðarstað, eptir þann fund, heldr fór hann til Eyjafjarðar og var með Rafni og Eyjólfi, ýmist á Grund eða Möðruvöllum. þessi skrá, sem hér fer á eptir virðist einungis vera partr úr þeirri alsherjar landamerkjaskrá fyrir Laxárdal, er Ásgrími var tjáð. Seinustu grein skrárinnar er seinna viðbætt (svo sem 1270—1280 eða þar um bil).

Þesse [eru][1]) landa mork[2]) millum gardz oc hafra lækiar.

gardr sa er geingur vpp j[3]) gnupin j þann hinn micla gard er geingur ofan eppter heidi oc fram æ stein hinn mikla oc fra steininum þeim er vestan stendr vnnder gnupínum liggr gardr fram æ hraunit sva sem gerda[4]) ma þa eru nidur lagder ij steinar æ einn hamar klett oc enn ij j audrum stad sionhending þadan þa er enn gardr fram j sikit er Raunit þrytur.

Þetta eru landa mercki millum gardz oc skridu

fra gardi hinum mýkla oc fram j ægisidu sik[5]) Rædur þa lækur ofan til Ruðuholms[6]) oc þadan ofan til gardzenda þess er fram liggur at flioti Rædur þa gardrin medan hann vínzt en sionhending þadan vpp j vordu er stendur æ sandinum oc Rædur þa arnar grof er hun tekur til firi austan hakletta vpp med arnar stig þar til er kemr j helli[7]) gautu af vordu holi sionhending vpp j uitnis klett þar er Reistur vpp steinn vestan under klettinvm oc borit under griot ath ei skuli siga j landnordr a þeim hinum meira klett er lagdr ein[u] steirn litill er sionhending þadan austur j eingiklett þa Rædur gardr sa er liggr firi austan eingiar heim at tungardi er þadan tungardr allt til gerdis tiarnar manna[8]) þadan sami gardr austur at dal gotu Raða þa gotur med vordum sudr til motz vid hafra læk þar sem furr var til marcks sakt.

Ellifu eru vordr firi ofan arnar grof[en. v. firi nedan[9]) oc er hrisvarda fýrst.

Þesse er[u] jarda mork millum gardz oc hellu.

sa gardr er liggr firi vestan eingiar vpp med gotum allt at tiarnargardi hier æ gardr firi vestan en tiorn fyrer austan. þo at þat se sumt tungardr [nu er vatnagardr[10]) afaustur[11]) tungardi oc gengur[12]) fram j hafra læk en fra lækinum stefner vppj nup oc skulu tiarnar menn hurder fa juatzhlid jafn fram gardzmonnum þuiat þeir þurfa ei sidr vatna en gardz menn æ eingiar sinar gardz menn skulu Raða vpptekt[13]) vatnanna

aungua eiga tiarnar menn beit [sudur [firi][14]) gard þann er geingur af dalgotum

---

[1]) sl. 276, V 23; b. v. 27. [2]) merke, 27. [3]) a, 27. [4]) girda, 27. [5]) syke, 27. [6]) Rauduholms, 27. [7]) hellu, 27. [8]) nã mä(!) 27. [9]) [sl. 27. [10]) [sl. 27. [11]) þannig, skbl. [12]) liggur, 27. [13]) upptekin, 27. [14]) [vidur þar j. 27.

sambeit er millum gardz oc hafralækiar vpp ā dalín

gardz menn eiga lamba ʀegstur a huams heidi at attatigum[1]) edr meir ef þarf

gardr a .iij. tolf fedminga skurd j botar[2]) land oc fae sa skip til flutnings lombum oc torfinu er j bot byr

gardz menn eiga oc torfskurd j bruar land oc gelldfiar ʀextur i kalfagrufur[3]) j vikur sem þarf

þesse eru jtok j gardz land

hrishogg vr kinn til nichulas kirkiu j stadarhollt

tiarnar menn eiga viij vikna verk vpp ā vollu ef alslægt er marck tak þeirra oc aungua jord under

ecki skulu tiarnar menn leingra sudr uinna en dælld þa er kaullut er flautu[4]) ker

gardz menn skulu hallda vatna gard huorum tueggia megin lækiarins en tiarnar menn oc gardz menn merkigardinum fra tiarnar gardi svo langt sem gengr ofan at kerinu[5])

tiarnar menn skulu hallda garda[6]) j millum gnups valla oc eingia sinna.

gardr ā gnups wollu. alla

eingi klettur skal ʀada eingia marcki oc varda su sem stendr vppi æ gnupi oc sa klet[t]ur er þar stendr at sionhendingu millum hornteigs [oc kletta teigs oc hagslægiur[7]) oc steckiar mo eiga gardz menn

tiarnar menn eiga at byrgia vallar hlid oc hafa giort garda vollu at fardogum oc grafa j sínu eingi torf til.

þetta eiga tiarnar menn fyrst at uinna af eingium sinum utan heima tun furʀ.[8])

oheilagt skal heẏ þat er ei er slegit at fiorum vikum oc hurd [j hlidum[9]) firi fe gardz manna. eru gardz menn skyllder at veria eingiar ef sva er giort en ei elligar.

Þesse landa merki voru tiad asgrimi þorsteinssyni[10]) þa er hann bío a grennadar[11]) stodum eppter þuerár fund oc aull aunnr j dalnum

---

[1]) attatyu, 27. [2]) = Árbótar. [3])kalfa | g˜F² sýnist vera svo í skb. og svo les afskript Árna: MSt. 27 les: Kálfagrafer. [4]) flauta, 27. [5]) k'iu skb., k⁰m, afskr. Árna; kierenu, 27. [6]) upp garde 27. [7]) [og kietateigs(!) og hardslægiu, 27. [8]) fyrst, 27. [9]) [sl. 27. [10]) herra Ásgrímr þorsteinsson d. 1285. [11]) þannig, skb., Greniadar, 27.

lôngu sidar kærdi ofeigr[1]) [á berg gudriksson[2]) oc lagdi stefnu til a merkigardinum hia eingi klett oc vard sekr firi tilkallit firi þa fornu skra er eyiulfur prestur[3]) las.

---

## 3. i Júni 1265. á alþingi.

Alþingissamþykt um hnífaburð, félausa óskilamenn, konur, sem ósæmdar eru af lausum mönnum og ýmislegt fleira.

Þessi samþykt kemr optast í handritunum fram eins og hún er hér prentuð sem A. En stundum er hún líka bútuð í sundr í smáklausur, og þá opt ýmsu bætt við, sem ekki finst í A, ellegar henni er sleingt saman við alþingissamþykt um ljóstolla frá sama ári og sem kemr næst hér á eptir. Eg gæti ímyndað mér að upphaflega hafi báðar þessar samþyktir og allar þær klausur, sem þeim til heyra, staðið á einni skrá og verið sem ein alsherjar samþykt frá lögréttunni á því ári; en seinna hafi lögfræðingar og lagasafnarar bútað hana og kubbað í sundr eptir því, sem þeim þótti hentast fyrir safn sitt og því fáist hún nú ekki öðruvísi en svona sundrkurluð. Á þetta bendir texti sá, sem er í Heynesbók og hér verðr prentaðr næst á undan ljóstolla samþyktinni, þar sem báðar samþyktirnar eru gerðar að einni skrá og hin sérstöku fyrirmæli skoðuð sem greinar í skránni. Þetta gæti ennfremur styrkst við það, að ákvæðin um hverjir megi vinna eiða eru ýmist sett við þessa samþykt eða ljóstollasamþyktina. En á hinn bóginn getr þeim og verið ranglega ruglað saman, og af því hér er ekki hægt úr að skera er hér fylgt því sem flestar afskriptir hafa. En hvernig svo sem þessu kann að hafa verið varið, þá er hitt víst að báðar samþyktirnar eru nú svo margvíslega blandaðar og brenglaðar í handritunum, að ekki verðr hjá því komist að prenta hér hina helstu mismunandi texta sérstaka. Á spássín í exemplari sínu af Espólíns Árbókum hefir Finnur Magnússon heimfært þessa samþykt til 1321, svo að Hákon kórónaði yrði þá Hákon háleggr, en Jón Sigurðsson heldr það muni «varla rétt vera,» og þá mundi því síðr vera rétt að heimfæra hana til Hákonar yngra eða til 1382. Eg fylgi hér því,

---

[1]) Óvíst hver Ófeigr muni vera. [2]) [sig Guðmundβon(!), 27; Bergr mun vera sonur Guðríks á Helgastöðum, sem 1262 er einn af þeim úr Þingeyjarþingi, sem vinur Hákoni konungi eið að skattgjaldi á alþingi, og hefir því verið í heldri röð (Sbr. Sturl. Oxf. II, 280). [3]) Eyjólfr prestr er án efa sá hinn sami, sem í Sturlungu (Sturl. Oxf. II, 187) er nefndr árið 1254, þar sem talað er um ófrið Ásgríms á Þverá í Laxárdal, og er kallaðr Eyjólfr svalberðingr.

að heimfæra samþyktina til Hákonar gamla, enda sýnist hún vera eldri enn Landslög Magnúsar lagbætis. Því að í Mannh. XIV er kveðið svo að orði:. «Þat er flestum mönnum kunnigt, at ritningar eru fyrir boðnir at bera,» en í Frostuþingslögum Hákonar gamla vantar ákvæðin um hnífaburð, og ættu því þau að liggja á milli þessara laga. Í Jónsbók, Landslögum nýju og alþingis samþyktinni eru sektirnar ákveðnar til þriggja aura en til sex aura í Járnsíðu (Mannh. XXXXI.), en þar fyrir þarf samþyktin ekki að vera yngri en Járnsíða.

---

**A.**

Prentað hér eptir skinnb. AM. 458. 12mo bls. 70 c. 1570; en borið saman við AM. 55. 4to bls. 59—60 skb. c. 1590; Thott 2100. 4to bls. 136. skb. c. 1580; Stockh. C 8 bl. 231—132 skb. 1608 (1548?); AM. 151. 4to bls. 278 (að eins § 3) skb. c. 1490; Uldals safn Nr. 320. 4to pappírsb. skr. af Birni Grímssyni málara 1603; Gl. kgl. saml. 3274 A 4to bl. C 73 b pappírsb. c. 1620 (lögbók Gísla lögm. Hákonarsonar); IBfél. 122. 8vo skr. c. 1650—60 (lögbók Björns sýslumanns Tómassonar); IBfél. 125 A 4to bl. 66 a—b pappírsb. skr. c. 1670 (Melsteðsbók); IBfél. 214. 4to bl. 18 b pappírsb. skr. c. 1680—90; AM. 60. 8vo pappírskver skr. c. 1690 bl. 102 b. Eins og samþyktin er hér er hún prentuð aptan við útgáfurnar af Jónsbók 1578, 1580, 1582, 1707, 1709 og 1858, og á dönsku er hún prentuð aptan við dönsku Jónsbók 1763 bls. 378.

Sattmal. logmanna og allrar logriettvna[r] a alþingi.[1])

Þetta var samtekit j logriet[t]u a alþinge oc dæmtt af logRiet[t]u monnum [a audru ari epter frafall virdvlegs herra.[2]) hakonar kongs.[3]) [noregs kongs[4]) ens koronada.

1. At eingen skule[5]) bera upp bunden hníf[6]) þan[n] at[7]) skockr edr hiollt[8]) væri at[9]) skapti en ef boren er[10]) suare iij[11]) aura sektt. oc knifuren vpptækr [12]) oc at alþingis manna domrofe sekr iiij. morkum.

2.[13]) Jtem þeir fielavser menn [sem][14]) oskil giora. sem

---

[1]) Þannig 55; j log tekinn sattmale oc af logmonnum(!) 458; eingin fyrirsögn 2100, 3274. Domur aa alþinge dæmdur vm knifa burd. og vm oskilamenn sem kaupa fie manna eñ hafa eigi til borgunar C 8; Samþyckt 125; Alþynges samþyckt 214. [2]) herra b. v. 125. [3]) sl. 55, 2100. [4]) [sl. C 8, 3274, 125; j Norege 214. [5]) skal 2100, C 8. [6]) knif 55, C 8, 3274. [7]) eð, 2100. [8]) hialt C 8; hiolltu 214. [9]) aa C 8. [10]) uære C 8. [11]) þriggia 55, 214. [12]) wpp næmur, 2100. [13]) osk[ila menn], á spássíu í C 8 með rauðu letri. [14]) sem sl. 458; b. v. 55, C 8, 3274, 125, 214: er. b. v. 2100.

kaupa at monnum Goz manna[1]) edr gripe tace. aptur huor vid sinv þo[2]) eigi hafe sier aptur skilt[3]) suo framtt.[4]) þeir fa vitne til at þeir attv þat[5]) þeir selldv.

3.[6]) Jtem þær konur er[7]) osæmdar erv af [lausum[8]) monnum.[9]) skulu eigi gefa[10]) peninga til frelses þeim er. osæmde.[11]) [sier til osæmdar og sinum aurfum.[12])

---

## B.

MSteph. 62. 4to fol. 30 b. Dómab. rituð í tíð þorláks biskups. «Eyrspennla» eða «Esphæla». Komin frá Jóni sýslumanni Jakobssyni.

Alþingis samþycktt vm knijfa og konur.

Var þetta samþycktt j logriettu a alþingi. og dæmdt af Logmonnum. epter frafall Hakonar kongz.

1. ad Einginn skal bera vppbundinn knyf. þann er skockur edur hiollt er ad skapti. Enn ef borinn er svarj .iiijra. marka seckt. og hnyfurinn vpptækur. og iiij. merkur j domrof.

2. Jtem þær konur sem osæmdar eru af Lausa monnum skulu ey gefa peninga til frelsis þeim sem þær osæmdu. til osæmdar ørfum.

3. Yngri madur skal ei eid vinna en xvj vetra. ān frænda radz. Einginn hvzfreya vtann ordlofz Bonda sijnz.

4. Vist sinni skulu rada. karlmadur xvj vetra edur elldri. Enn mær tujtug.

---

## C.

IBfél. 125 B. 4to (nr. 116), skr. c. 1670 mjög fúið (Melsteðsbók); IBfél. 60. 8vo, Jónsbók á pappír skr. 1595—1604 af Guðmundi Illugasyni frá Múla. Hér er fyrsta og önnur grein skeytt beint aptan við réttarbót Magnús konungs um forkaupsrétt konungs.

---

1) sl. 125 2) þott 55, C 8, 3274. 3) skilit 55, skilid C 8. 4) ad, b. v. 2100. 5) er, b. v. 2100, C 8, 3274. 6) osæm[dar konur] leys[i eigi þa] sem þ[ær osæmdu], á spássíu í C 8 með rauðu letri. 7) sem C 8, 151. 8) lausa C 8, 3274. 9) [monnum lausum 55. 10) fie ne b. v. 151. 11) osæmdu 55, 2100, 3274; þær osæmdu C 8, 214; osæmdu þær 125; þær osæmdi 151. 12) [til osęmdar sinvm avrfvm 151.

§ 3 er í 151 sem niðrlag Gamla sattmála (sbr. Dipl. Isl. I, 579) af því afskrifarinn mun af ógáti ekki hafa gáð þess að vantað hefir í þá bók, sem hann ritaði eptir.

Nockrar Lôgteknar greiner.

1. [J fyrstu vm fyelausa[1]) menn sem oskil giora og[2]) kaupa ad monnum fye[3]) manna edur grijpe take aptur huor við sijnu þo sier hafi ey aptur skilt [4]) so framt sem þeir fa vitni til ad þeir attu allt[5]) þad sem sellt var.

2. Jtem þær konur sem osæmdar eru af [lausamonnum[6]) skulu ei giefa peninga til frelsis þeim er þær[7]) osæmdu [ôrfum til osæmdar.[8])

3. Jngre madur enn xiiij vetra skal eci eid vinna utan frænda rade.

Eingin husfreyia utan ordlofs bonda sijnz

Einginn lærdur madur utan formadur hans lofi

Ei skal eidur tekinn vera j suijvirdiligum stodum og ei sveriast hraparliga edur med ordkrokum.

Enn ef suarner eru ranger edur ologleger eidar sekest eins og fyrir einfaldan bordom.

---

## D.

AMagn. Nr. 238. 4to fol. 142. pappírsb. c. 1569—79 (Bessastaðab.)

[Var þetta laugte]kit j laugriettu æ alþingi og dæmtt af laug [riettumonnum] æ avdrv ari eptir frafall virduligs herra Hakonar kongs hins koronada.

ad einginn skal bera upp bundinn hnif [þann ed] skockr edr hiollt uæri æ skapti, en ef borinn er svari þriggia avra sekt og hnifrinn vpp tækr og ad alþingis manna domrofi [sekr]. .iiij. môrkum.

---

## E.

MSteph. 61. 4to bls. 170 pappírshandrit (»Bláкápa»), þetta skr. c. 1680—90; Ny kgl.s. 1945. 4to bók Hannesar Gunnlaugssonar skr. 1666 bl. 371b.

Alþingis samþyckt[9]).

[10])Þeir fielauser menn sem oskil giora og kaupa ad monnum

---

[1]) Jtem þeir fielauser 60. [2]) sem 60. [3]) gosz 60. [4]) skilit 60. [5]) sl. 60. [6]) [lausum monnum 60. [7]) sl. 60. [8]) [sier til osæmdar og sinum ôrfum 60, og vantar það, sem hér fer á eptir. [9])Þetta er gamallt. samþickt og domur ä Alþijnge. [10]) Item b. v. 1945. Framar í sömu bókinni steudr þetta um óskilamenn:

Alþingis samþykt.

Gosz manna eda gripe takj aptur huer vid sijnu, þott ey haffue sier afftur skilid. so framt sem þeir fa vitnj til ad þeir attu þad er[1]) þeir selldu

Jtem þær konur sem osæmdar [eru][2]) aff lausamonnum skulu ei giefa peninga til frelsis þeim. er þær osæmdu [til osæmdar ðrfum.[3])

---

## F.

IBfél. Nr. 114. 8vo nr. CXCIX frá 18. öld; Maurersbók í 4to nr. CDLXXII frá 18. öld.

Kaup óskilamanna[4])

[Alþingis samþykt[5]) á öðru ári eptir fráfall Hákonar Noregs kongs.

at þeir félausir menn sem óskil gera ok kaupa at mönnum góss manna eðr gripi. taki aptr hverr við sínu. þott ei hafi sér aptr skilið. svo framt þeir fá vitnisburð at þeir áttu þat þeir seldu.

---

## G.

IBfél. 113. 8vo pappírsbók bls. 214. skr. á 17. öld; IBfél. 114. 8vo nr. CCV skr. á 18. öld; Bók Dr. Konráðs Maurers frá 18 öld, í 4to nr. CDL XXXVIII (afskr. Jóns Sigurðssonar); Surtla MSteph. Nr. 59. 4to bls 130 pappírsb. frá 18. öld. Greinin er hér prentuð eptir 113. 8vo.

[Jnntak Alþijnges doms vmm konur og stulkur sem borga sekt sinna fijlgiu manna[6])

---

Um þa menn sem oskil giera og ei vilia doma hallda. takist þeir og halldist undir retta rannsokn þar til þeir lnka eptir lognm peninga edr fai refsing.

Gamlir domar hallda. at sa sem sekr væri giðrdr og befdi ei fe til at bæta. þa skuln domendr dæma at hann fai keyrishögg fyrir hveria mork sem hann vantar a. þar til xiij merkr eru. en ei sknln fleiri dæmast þo at sök se meiri. Seinni greinin finst víða í hdrr. svo sem í IBfél. 60. 8vo skr. 1604.

[1]) h. v. 1945. [3]) v. i 61. [2]) [sier til osæmdar 1945. [4]) Eingin fyrirs ögn í 114, en á spássíu stendur: Óskilamanna kaup gangi aptr. [5]) frá [Samþickt ä alþijnge, Maurersb. [6]) [(að b. v. 59) konur leysi ei fylgjumenn sína (með peningum b. v. 114) 59, 114.

[Dæmdist ā alþijnge af lōgmonnum bādum og allre lōgriettu ā ōdru ārj epter frafall Hakonar konungs[1]) umm[2]) konur sem osæmdar ero af lausum monnum [ad þær[3]) skule[4]) eci giefa peninga til frelsis þeim[5]) [er][6]) þær osæmdu til osæmdar sier og sijnvmm ørfumm.

---

## II.

AM. 147. 4to bls. 200 skb. c. 1600 (Heynessbók). Það er eptirtektavert við þenna texta, að hér er steypt saman við þessa samþykt alþingis samþyktinni um ljóstoll, sem hér kemr næst á eptir.

Nockrar samþycktir islendinga æ alþijngi logteknar af logmonnum og allri logriettu æri eftir fræfall hækonar kongs hins koronada svo sem hier stendur.

1. Ad eijnginn skall bera vppbvn̄din̄ knijf þann sem skokvr eðvr hioltt sie æ skafti æ alþijn̄gi En̄ ef borinn uerðvr svare iij aura segt og knijfvrinn vpptækvr alþijngiss monnvm og sekvr iiij morkum̄ i domrof.

2. Item þeir fielausir menn sem oskil giora ad kavpa ad monnum goss edur gripi taki aftur hvor sitt þo eie hafi sier aftvr skilid wr þvij hann kunni ei ad betala so frammt þeir fæ uitni til ad þeir ættv þad þeir selldv.

3. eirninn þær konvr sem osæmdar erv af lavsumm monnum skulv ei peninnga giefa til frelsiss þeim er þær osæmmdi til afuirdinngar orfvmm.

4. item sæ sie sekvr vj avrvm er ei likur tiostoll fostvdaginn langa eie profastvr hælfa segtina enn hælfa kijrkiv bonnde.

5. So og af eidi iordvmm edur þeim sem oreigi bijr æ gialldist einginn liostollvr sæ oreigi sem ei æ liostoll at giallda.

6. Item þar sem madur helldvr omaga eyrer med laga vmbodi livkist þar liostollvr i þeirre kijrkiv sokn sem hann sitvr i huorre kijrkiu sem omaginn tekvr gvds lijkama.

7. huort sem anndast bonndi edur hwsfreya eftir fardaga

---

[1]) [Á öðrn ári eptir frálall Hakonar kongs dæmt á alþingi 114, Manrersbók, sem heftr á spássíu ártalið «Anno 1264»; dæmt a alþingi a odru ari eptir frafall Hákonar kongs 59. [2]) að þær 114, 59, Manr.; [3]) [sl. 114, 59, Manr.; [4]) skuli, 59, Manr; skuln 114. [5]) Hér þrýtr klansan í 59; [6]) þannig 114, Manr.: v. i 113.

og stenndvr bwnadvr frammveijgiss lwkist ein tijvnndar giord og eirn liostollvr þo arfar verdi fleire Enn ef svnndvr er brvgdit bwi þæ taki huor sitt hlvtskifti og luki hvor sinn liostoll ad pæskvm.

9. Oliænar kavp sie xviij ælnir og lwkist i tijvnndar eindaga Enn hvor sem ei likvr þat sekur vj aurvm. sami eindagi er æ legkavpi og lijksaonngs[1]) eyrir og sama segt æ hvor sem ei likvr þad.

9. Einngin husfreia skal eid uinna utan leyfi bonda sijns Enn hver er suer rangann eijd edvr ologligann suari sem fyrir anan einfalldann hordom[2]).

---

## 4. í Júní 1265 á alþingi.

Alþingissamþykt um ljóstolla, legkaup, líksöngseyri og eiða.

Þessi samþykt er svo margvíslega brjáluð í þeim afskriptum, sem nú eru til af henni, að ómögulegt er að gera út einn nokkurn veginn áreiðanlegan og viðunandi texta, og verður því ekki hjá því komist að prenta hér hinar helztu afskriptir í heilu líki eins og þær liggja fyrir. Það gæti verið vafi um hvort ætti að árfæra samþyktina frekar til ársins 1265 heldr en 1321 eða 1382 eins og Konráð Maurer gerir þar sem hann ritar um Kirkjurétt Jóns Pétrssonar (athgr. 541). En bæði er það, að Jón Sigurðsson hefir viljað árfæra samþyktina eins og hér er gert, og frá því er ekki vert að víkja, nema eitthvað beri til, og annað það, að ákvæði um ljóstoll vanta í kristinrétt Þorláks og Ketils, en í Kristinrétti Árna biskups frá 1275 (Thork. 103—100) er komin grein um hann, þá er líklegt að einhver nýmæli um ljóstoll liggi þar á milli, og er ekki ósennilegt, að það sé þessi samþykt. Að eingin ákvæði um ljóstoll hafi verið komin inn í Kristinrétt hinn forna um 1250—1270 sést á því, að þeir sem hafa skrifað Konungsbók og Staðarhólsbók af Grágás hafa ekki þekt neitt slíkt. Þau ákvæði, sem standa í Staðarfellsbók (c. 1320) og Belgsdalsbók (c. 1370) um ljóstoll eru líklega komin inn eptir að Kristinréttr Árna biskups var lögtekinn fyrir Skálholtsbiskupsdæmi, því hinn gilti nyrðra langt fram á 14. öld, og hafa Hólamenn líklega tekið það upp, er þeir sáu að þau ákvæði vorn í þeim Kristinrétti sem gilti syðra, en vantaði í þann forna. Ýmsar greinir

---

[1]) þannig hdr. [2]) Þetta er dregið út í endanum: item þar logtekid eftir þvi magnnvsar kongs riettarbot hliodar s͡ã sem giorir manni fiarskada til halfrar merkvr etc. — Fyrsta orðið (item) með rauðu letri og ekki dregið út.

úr þessari samþykt ern á ýmsan hátt einangraður eða ruglaðar saman við aðrar lagagreinir í handritunum, og er til lítils að elta það frekar en hér er gert. Pétr biskup Nikulásson á Hólum endrnýjaði þessa samþykt hérum bil 1391 og jók hana að nokkru, og á alþingi 1555 var hún aptr endrnýjuð með nokkrum breyting nm. Samkvæmt sumum pappírshandritum (t. a. m. Ny kgl. s. 1847. 4to) virðist Gyrðr biskup að hafa endrnýjað hana og sú endrnýjun að hafa verið staðfest og aukin á Bessastöðum («Samþykt á Bessastöðum») 1505 eða 1510, ef annað hvort ártalið er rétt, því ekkert slíkt er í hinni alkunnu «Bessastaðasamþykt» 1555. Klausan um eiða finst enda árfærð til 1501, sem þó mun vera rangt, nema hún hefði þá verið ítrekuð.

---

## A.

IBfél. 58. 4to pappírsbók skr. c. 1750. Þessi texti virðist vera einna hreinastr af þeim, sem hafa samþyktina nokkurn veginn heila.

### Gömul alþingissamþykt um ljóstoll.

Þetta var samþykt í lögréttu á alþingi ok dæmt af lögréttumönnum á öðru ári eptir fráfall herra Hákonar konungs.

1. Frjádaginn langa sekr hver xij [1]) aurum, er ei lýkr ljóstoll. Eigi hálft prófastr, en hálft kyrkjubóndi.

2. Af eyðijörðum ok þeirri jörð, sem öreigi býr á, sá er eigi á ljóstoll at lúka, lúkist einginn ljóstollr.

3. Þar sem maðr heldr ómaga eyri með laga umboði, lúkist þar ljóstollr í þeirri sókn, sem hann sitr í, í hverri kyrkjusókn, sem ómaginn etr guðs líkama at páskum.

4. Hvort sem andast bóndi eðr húsfreyja eptir fardaga ok stendr búnaðr saman framvegis, lúkist ein tíundargjörð ok einn ljóstollr, þó arfar verði fleiri. Ef sundr er brugðit búi þá taki hver sitt hlutskipti, lúki hverr ok sinn ljóstoll at páskum. En ef hjón eiga x [2]) aura eða c minna ok sé hvorutveggja vinnufært lúkist einn ljóstollr. En ef þau eiga [jc meira jc[3]), eða hvort þeirra sem á, lúki ij[4]) ljóstolla.

5. Oleunarkaup sé xviij álnir ok lúkist í tíundar eindaga, en hverr sem ei lýkr sekr vj aurum.

6. Sami eindagi er á legkaupum sem á líksaungsaurum ok liggr iij marka sekt við [fyrir] hvern er ei lýkr.

---

[1]) 12, hdr. [2]) 10, hdr. [3]) [þannig, handr. [4]) 2, hdr.

7. Yngri maðr en xjv[1]) vetra skal ei eið vinna utan með frænda ráði,
eingin húsfreyja utan lof bónda síns,
einginn lærðr maðr utan formaðr hans lofi,
einginn nema fastandi,
eigi í svívirðilegum stöðum,
eigi hraparlega eðr með orðkrókum,
eigi frá níuvikna föstu og fram um geisladag,
ei á ymbrudögum
ei á gagndögum,
en ef sverr rangan eið eðr ólöglegan svari sem fyrir einfaldan hórdóm.[2])

---

**B.**

IBfél. 315. 4to bls. 70. skr. c. 1680—90. Dómabók og bréfa frá Pétri Sæmundsen.

Alþingisdomur oc samþyckt vm liostoll.

Var þessu jatad oc samþycktt a almennjligu auxar âr þijngi oc dæmt af logmonnum og logriettumonnum a audru aarj epter frafall virduglegz herra Hakonar konungz.

1. ad a friadaginn langa ſkal gialldaſt liostollur sijdaſt sekur xij. aurum huer þa hefr ej golldit. Eigi þad halft profaſtur enn halft kyrkiubondi.

2. Af eydijordum edur þeim jordum sem oreige byr a, sa er ej a liostoll ad giallda lukest einginn liostollr.

3. Þar sem madur helldur omaga eyri med laga vmbodi lvkiſt þar liostollr j þeirre kyrkiu ſokn sem hann sitr.

4. Item hvar ſem andaſt bondi edur husfreÿa epter fardaga oc ſtendur bvſkapur saman framveigiz lvkiſt ein tijundar giord oc einn liostollr þo arfar verdi fleirj eñ ſie j fundur brugdid bve þa taki huor ſitt hlutſkipti oc lvki huor sinn lios-

---

[1]) 14, hdr. [2]) Hér aptan við setr handritið þessa klausu:

»Orðrétta og sambljóða skipan gerði Pétr byskup á Hólum um ljóstolla, legkaup og líksaungreyri, að því einasta viðauknu, ef maðr sækir ekki kyrkju eðr lætr sækja í iij sunnudaga samfleytt sekr sex aurum við byskup.« (Sbr. F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 223—224). Statúta Pétrs biskups frá hér um bil 1391 verðr síðar tekin upp í þetta safn. Alla 7. greinina um eiðana vantar i statútu Pétrs biskups.

toll ad pafkum. Enn ef hion eiga x. aura edur hundradi minna, lvkift einn liostollr, Enn ef þaug eiga hundrad edur hundradj meira edur huort þeirra sem a luki 2 liostolla.

5. Oliunar kaup sie 18 alner oc tacift j tijundar Eindaga, Enn huor oc eij lykr sekr vj aurum.

6. Sami Eindagi er a legkaupi oc lijkfaungseyri oc iiija aura sekt huor sem eij lykr.

---

## C.

MSteph. Nr. 65. 4to bls. 125 skr. c. 1660; Maurersbók í 4to nr. CXXVIII og DLij; IBfél. 144. 8vo nr. LVI og CCXXXXVIII.

Eindagi á ljóstolli ok líksaungseyri.[1])

[Alþingis samþykt[2]) á öðru ári eptir fráfall Hákonar konungs ens kórónaða.

1. [Eindagi á ljóstolli frjádagrinn langi;[3]) sekr xij aurum hver [ei lykr.[4])

2. Eindagi á legkaupi ok líksaungseyri er fimtudagr í fjórðu viku sumars, svo sem tíundar eindagi, ok liggr þriggja aura sekt við hvert legkaup ok líksaungseyri, sem ei er lukt.[5])

---

## D.

Maurersbók i 4to nr. DCCLIV; ÍBfél. 114. 8vo nr. CCCXL; MSteph. Nr. 59. 4to bls. 131 (Surtla Jóns Jakobssonar skr. á 18. öld).

Af ómaga fé gjaldist ljóstollur.[6])

Á öðru ári eptir fráfall Hákonar konungs var ályktað í lögréttu at þar sem maðr [heldr ómaga eyri[7]) með laga umboði lúkist þar ljóstollr í þeirri kirkjusókn, sem hann sitr.

---

[1]) Fyrirsögn eingin í 65; Legkaups og líksaungseyris eindagi 114 nr. CCXXXVIII; á spássíu í 114 og í Maur. standa þessar fyrirsagnir við greinarnar: ljóstolls hald (114); ljóstolls hald og eindagi (Maur.); legkaups og líksaungseyris hald (114 og Maur.); [2]) [Dæmt á alþingi 114 nr. LVI og Maur.; Ályktaðist á alþingi 114 nr. CCXXXVIII; [3]) [ad eindægi a ljostolli sie friadaginn langa 65; [4]) [hann lykur ei 65. [5]) Greinin er svo í 114 nr. CCXXXVII: að eindagi á legkaupum og líksaungsaurum sé í tíundar eindaga, það er fimtudagr í fjórðu viku sumars, og liggr iij aura sekt við hvort sem ekki er lukt. [6]) þannig 114 á spássíu; ómaga fé gjaldist ljóstollur af, Maur. (sem fyrirsögn); um ómaga eyrir 59; ljóstollr hvar gjaldast á, Maur. á spássíu. [7]) [á ómaga eirer að halda, Maur.

## E.

IBfél. 315B. 4to bls. 70 (næst á undan samþyktinni um ljóstoll) frá c. 1680—90; ÍBfél. 114. 8vo nr. XLIX; Maurersbók i 4to nr. CXXI (eptir afskript Jóns Sigurðssonar); Ny kgl. s. 1945. 4to fol. 152b—153a (bók Hannesar Gunnlaugssonar skrifuð 1666 og þar eptir); næst á eptir í þessu handriti er alþingissamþyktin um melrakkaveiðar; það er einkennilegt að þessi klausa er hér kölluð alþingis samþykt frá 1501, sem ekki getr verið rétt að öðru leyti enn því, að samþyktin hefði þá verið ítrekuð. Í skinnkverinu AM. 458. 8vo bls. 79—80 (c. 1570). og í pappírshandritinu í Thotts safni 2106. 4to bls. 270—71 (c. 1750) er sagt þetta sé réttarbót Hákonar konungs, en í kveri í AM. 62. 8vo bls. 27—28 skr. c. 1650 stendr þessi klausa meðal réttarbóta Eiríks konungs, án þess þó að vera köllnð réttarbót.

Hverjir ei meiga eiða vinna[1]).

Samþykt á alþingi [á öðru ári] eptir fráfall herra Hákonar konungs ens kóronaða yfir Noregs konungs ríki[2]).

Yngri[3]) maðr en xvj[4]) vetra skal ei eið vinna án frænda ráðs.

Eingin húsfreyja án[5]) leyfis bónda síns.

Einginn lærðr maðr, nema formaðr hans leyfi.

Einginn nema fastandi [ok[6]) eigi[7]) í svívirðilegum stöðum.

[Ei hraparlega[8]) né með orðkrókum.

Ei frá níuviknaföstu[9]) ok fram um páska.

Ei frá jólaföstu ok fram um geisladag.

Ei[10]) á ymbrudögum.

Ei á gagndögum.

En ef sver [rangan eið eðr ólöglegan[11]) svari [sem fyrir[12]) einfaldan hórdóm.

---

## F.

AMagn. 137. 4to skinnb. frá hérumbil 1400 bls. 200—201.

---

[1]) Eiða hverjir ei meiga vinna 114; »Alþijngs samþycktt umm eida 1501», 1945; [2]) fyrstu klausurnar vantar í 315, 1945; [3]) að, b. v. 114 og Maur.; [4]) 16, 315 »1 3», 1945: [5]) fyrir utun 315, uema með, 1945. [6]) sl. 315 1945; ok: [7]) [eður 315, [8]) [eður hraparlegum 114 og Maur.; [9]) ix vikna föstu 315; [10]) eður 114; [11]) [rangau eður ológlegau eið 315: rangau eið 1945: [12]) [fyrir sem 114: so sem fyri, 1945.

þessi texti virðist vera nokkurn veginn hrein útgáfa af samþyktinni frá 1265, þó þess sé ekki getið að þetta sé hún.

Þetta er eindagi æ liostollum.

1. friadag langa . sekr xij aurum ef þæ er eigi golldinn ok æ halft profastur enn halft sæ er kirkiv heldr.

2. þar sem maðr helldr omaga eyri með laga wmboði lykiz þar liostollr j kirkiu sokn sem hann situr . j huerri kirkiu sokn sem omagi tekur guðz likama ath paskum.

3. huort sem anndazt bondi eða husfreya epter fardaga og stanndi bunaður samt framuegis lukizt ein tíund og einn liostollr þoo arfar verði fleiri.

4. Nu ef sundur er brugðit bui þæ hafi huer sitt hlutskipti og luki huerr sinn liostoll ath paskum.

5. ef hion eiga x aura . eða hundrað minna og suo huortueggia uinnufært liuki einn liostoll . enn ef þau eiga . c. eða meira huort þeirra sem æ luki .ij. liostolla.

6. Oliunar köp se atian alnar og lykizt j tívndar eindaga . enn hverr er eigi lyckr . sekizt vi . aurum.

7. Sami eindagi er æ legkaupum ok liksongs aurum og liggr . iij marka sekt wit huerr er eigi lykur.

---

G.

Ny kgl.s. 1847. 4to A fol. 129 skr. 1669. Bók séra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði; AMagn. Nr. 181. 4to pappírshandr. frá 17. öld (1669). Á undan þessari klausu ern ýmsar greinir um ljóstoll, sumt úr Kristinrétti Árna biskups og sumt yngra. En þetta er samþyktin frá 1265. Hér er prentað eptir Vatnsfjarðarbókinni í Kongsbók hlöðu, en báðar eru bækurnar ættaðar frá Vatnsfirði.

Eijndægie a liöstollumm.

1. Friädagienn länga. sekur huor xij aurum sem ey lijkur. eijgi hälfft pröfastur, enn hälfft kirkiubönde.

2. Af eijdijördumm þeim edur þeijrre jørdu sem øreijgi bijr ä takist eijnginn liostollur.

3. Þar sem madur helldur omaga eijrer med lago vmmbode. lükist þar liöstollur j þeirre kirkio sökn. sem hann situr j huerre þeijrre kirkiusökn sem ömage tekur Guds lijkama ad päskumm.

4. Huort sem andast bönde edur hüsfreija effter fardaga

og stendur bünadur saman frammveijgiss. lükist eijn tijundargiord og eijrn liostollur. þõ arffuar verdi fleijre. enn ef sundur er brugdid büe þã take huer sitt hlutskiffte og lüke huor sinn liõstoll ad paskum.

5. Ef hiõn eijga x. aura edur hundrade minna. og sie huortueggia vinnufært[1]). luke eijrn liostoll. Enn eff þau eijga hundrad. edur hundrade meijra. edur huert sem ã luke ij liostolla.

6. Legkaup eru 18 alner. og lukest j tijundar eijndaga. Enn huor sem eij lijkur sekur vj aurum.

7, Same eijndægie er ã legkaupumm og lijksøngs aurum. og liggur. 3. marka sekt vid huer eige likur.

---

## H.

AMagn. Nr. 138. 4to bls. 361 skinnb. frá hér um bil 1500, MSteph. Nr. 59 4to bls. 125, Surtla Jóns Jakobssonnar skr. á 18. öld. Hér er að eins § 3 og kallast »alþyngifs samþikt«. Þetta er að efni og orðfæri til samþyktin frá 1265, þó niðnrskipnn sé dálítið frábrugðin.

1. [A]f Eyde iaurdum. eda þeirre iordu sem aureigi byr æ. sa er eigi a liostoll ad giallda. lukizt eingi liostollur.

2. Þar sem madur helldur omaga eyri med laga um bode. lukizt liostollur j þeirre kirkiu sokn. sem hann situr. huar sem hann tekur Gudz likama ad paskvm.

3. Huort sem andazt bonde eda husfreyia epter fardaga. og stendur bunadur frammuegis. lukizt ein tiundar giaurd og einn liostollur. þo arfar sie fle[i]ri. Enn ef sundur er brugdit bue. þa [hafe huer[2]) sitt og luke huer[3]) sinn liostoll ad paskum.

4. Ef hion eigu .x. aura eda hundrade minna og sie huørtueggia uinnu fært luke einn liostoll.

5. Enn ef þau eiga .c. eda hundrade meira[4]) eda huort sem æ. luke .ij. liostolla.

Eindage æ liostollum er friadag langa. sekur .xij. aurum. huer er eigi lykur. eigi halft profastur. enn halft kirkiu bonde.

---

[1]) á spássíu í 1847: vanfært. [2]) [tekur huor, Surtla. [3]) huor, Surtla. [4]) fyrst hefur verið skrifað minna, en síðan settir deplar undir.

## I.

IBfél. 125B 4to nr. 95 frá c. 1680—1700 Melsteðsbók. Þessi klausa heyrir til samþyktinni frá 1265, þó sektirnar sé hér 18 álnir fyrir 12 aura ef eigi er goldinn ljóstollr í eindaga.

Vm liostoll logtekiñ grein.

1. Huor ſem ei hefur lokid liostoll a foſtudæmn langa sa er ſekur xviii alnum þeim liostollinn a ad taka.

2. Af eyde jordum og þeim jordum er oreige byr a ſkal einginn liostollur lukaſt.

3. Þar sem madur heldur omaga eyrer med laga vmbode lukeſt þar laga liostollur j þeirre kirkiu ſokn ſem hann ſitie j og hann tekur gudz lijkama a paskum.

4. Same gialldcæge er a legkaupe og lijksaungs Eyrer sem a tijundum iij merkur a tijundar hallde.

## K.

Uldals safn Nr. 320. 4to, pappírshandrit af Jónsbók snildarlega skrifað 1603 af Birni Grímssyni málara fyrir Höllu Grímsdóttur systur hans í Skógum undir Eyjafjöllum, og er það einkennilegt hér við Jónsbókartextann, að hleypt er úr öllum Farmannalögum. Ljóstollasamþyktin er hér næst á eptir samþyktinni um hnífaburð, en á eptir er klausa um skiptitíund.

Vm Liostolla.

1. Ejndægi a liostollum faustudægin langa sekur xij aurum huer er ei lijkur.

2. Þar sem Madur helldur omaga Eyrer med laga umbodi lukist þar liostollur sem hann situr j huerri kirckiusoknn sem omaginn tekur Gudz lijkama ad paskum.

3. Enn huer[1]) sem andast bondi edur husfreyia eptter fardaga og standi bunadur saman framueigiz lukist ein tijiundargiord og eirnn liostollur þo ad arfar uerdi fleijri, enn ef sundur er brugdit Bue þa tijundi huer sitt hlutskijptti og luki huer sinn liostoll ad paskum.

4. Ef hion eiga x aura edur hundrade minna og sie huorttueggia vinnufærtt luki eirnn liostoll. Enn ef þau eiga hundrat edur hundradi meyra eda huort þeirra sem ꝺ̃ luki ij liostolla.

[1]) þannig, hdr.

5. Same eindægi er æ legkaupum og lijksaungsaurum og liggur iiij marka secktt uid.

6. Ef madur á eitt Bu og er heymilisfastur j audrum stad lukist þar tijunder sem Bued stendur.

L.

AMagn. 42A 8vo bls. 180 skinnbók; þessi kafli skrifaður um 1480. Þessi grein er að efni til samþyktin frá 1265. Seinasta klausan sýnist vera yngri (en 1281), en óvíst hve miklu, og er hún látin fylgja hér eins og í skinnbókinni.

1. Hvort sem andast bondi edr husfreyia efter fardaga. oc stendr bunadr saman framuegis. lukist ein tiundar giord oc einn liostollur þo ath arfar verdi fleire. Enn ef sundur er brugdit þwi. þa æ huer ad suara firi sitt hlutskifti. oc lüki huer sinn liostoll ad paskum.

2. Enn ef hion eiga .xx. aura. edr hundradi minna oc sie huorttueggia vinnu fęrt. luki einn liostoll. enn ef þau eiga hundrat edr hundradi meira. edr huort þeirra sem æ gialldi tuo lysitolla.

3. Oleunar kaup sie xviij .alnar. oc lukist j tiundar eindaga. enn huer sem ei vill luka .sekur. vj aurum. oc liksaungseyri ath avki.

4. Same eindagi er æ legkaupum. þat er .xij. alner oc liggur þriggia marka sekt vid hver ed eigi vill luka.

5. (J)afnt skylldazt at luka tiund oc lysitolla bulauser menn oc bændr. suo konur sem kallar. enn ef þeir peningar erv j hreppnum sem þar æ eigi tiund af ad gialldazt. sem eru lauser peningar. edr vtan hreppa leigo peningar. edr vmbodz peningar. þa skal æ þessa peninga manneldi skipa. suo sem laugbok vottar oc gioriz ræd firi. epter þui sem hreppstiornar menn verda æ sætter.

5. **16. August 1267.** **Niðarósi.**

Hákon erkibiskup gefur kirkju hins heilaga Andrésar á Haugi með öllum hennar eignum kórsbræðrum í Niðarósi »til kommunsborðs«.

Frumbréfið á latínu er prentað í Dipl. Norv. I, 50, Nr. 61 eptir skinnskrá í þrándheims stiptskistu og AM. Dipl. Norv. Fasc. V, 4. En á íslenzku (norsku) er það prentað í Dip. Norv. III, 11—12, Nr. 10 eptir AM. Dipl. Norv. Fasc. IV, 6. Sömuleðis er bréfið prentað í Dipl. Arnamagn. II, 57. Bréfið snertir Ísland að svo miklu leyti, sem íslenzkir menn eru í því nefndir. P. A. Munch heldur (Det norske Folks Historie II, 15) að þorleifr sá, sem hér er talinn einn af kórsbræðrum sé sá, sem Jón erkibiskup kaus til biskups í Skálholti 1269 þann 4. Marts. þorleifr dó sama ár í Marts. Hér er að eins prentaður útdráttur.

---

**A.**

Uniuersis Christi fidelibus litteras uisuris uel audituris. H[aquinus] dei gracia Nidrosiensis ecclesie archiepiscopus, salutem in domino Jesu Christo. Vniuersitate uestre presenti pagina declaramus, quod . . . . . . . . predictis canonicis nostris ad communem mensam ecclesiam beati Andree de Haug cum omnibus pertinenciis habitis et habendis concedimus in perpetuum libere possidendam . . . . . Facta autem est hec nostra donacio hijs fratribus in ecclesia Nidrosiensi tunc existentibus et consentientibus, domino Erlendo, domino Stephano, domino Vegardo, domino Thorlawo, domino Sigwaldo, domino Roaro, domino Johanne, domino Eiriko, domino Siguardo, domino Thorbergho, domino Siguato, hiis testibus presentibus, domino Therico, Skialldulpho, Gerlagho canonicis Asloensibus et Brynulpho clerico. Datum Nidrosie. Anno domini millesimo cc⁰ lx⁰ vij⁰ vxij. Kal. Septembris. Pontificatus nostri anno primo.

---

**B.**

Allum gudz vinum ok sinum þeim sem þetta bref sia æða hæyra sænðr Hakon mæð guðs miskun ærkibiskup i Niðarose q[ueðiu] g[uðs] ok sina. Ver gerom yðr kunnigt vm þetta bref at ver . . . . . . . . . . faam ver ok gæfom æiliflæga fyrsagðum korsbræðrom varom til communs borðz þeira. kirkiu hins hælga Andresar a Haugi . . . . . . . Var þæssor giof ok skipan gor þæssom korsbræðrom þa verande i Niðaros kirkiu ok samþyckiande þæsso mæð oss. sira Erlenðe, sira Stephane, sira Vegarðe, sira Thorleifi, sira Sigvallda, sira Roa, sira Jone, sira Eiriki, sira Sigurði, sira Thorberge, sira Sigvate, ok þæssom vitnum

nerverandom. sira Thore, Skialldulfi ok Geirlauge korsbræðrom j Oslo ok Bryniulfi clerk. Var þetta bref gort i Niðrose. þa er liðnir varo fra burð vars herra m°. vættra, cc°. lx vættra ok vij vætr. xvij kalendas Septembris manaðar a fyrsta are vars ærkibiskups dæmes.

---

6. 24. Júni 1268. i Viterbo.

Clemens páfi IV. staðfestir kosningu Jóns rauða til erkibiskups í Niðarósi og mælir með honum í bréfum til kapítulans, klerkdómsins, lýðbiskupanna og allrar alþýðu manna í erkibiskupsdæmi hans.

Dipl. Norv. VI, 31—32 Nr. 34, og er þar prentað eptir frumritinu í páfagarði (Bullar. Clem. IV. T. III. fol. 228 vs. an. IV. ep. 38.). Bréfið kemr Íslandi að því leyti við, sem Skálholts og Hóla biskupi og alþýðu manna á Íslandi hafa verið send samhljóða bréf.

a) Clemens episcopus seruus seruorum dei venerabili fratri Johanni archiepiscopo Nidrosiensi salutem et apostolicam benedictionem.

Exequentes pastorale officium nobis licet insufficientibus meritis domino disponente commissum, studia nostra prout superna ministrat gratia conuertimus, ut quid ad salubrem curam gregis, quem suscepimus gubernandum, quemque regere feliciter et dirigere querimus, agi expediat perspicaciter intuentes, circa prosperum statum eius, partes intente sollicitudinis impendamus. Specialiter autem ad ecclesias uniuersas tam proximas quam locorum positione distantes, ad quarum regimen et custodiam sumus specialiter deputati, pium respectum habentes, ipsarum utilitatibus uigilanter intendimus, ac solerter in eo potissime insistentes et opportune operationis dexteram extendentes, ut ab illis quas proprijs contingit uacare pastoribus uiduitates incommodum excludatur, et eorum status sponsorum ministerio utilium, ne ipse prolixioris uacationis dispendijs subiaceant, celeri prouidentia reparetur. Sane Nidrosiensis ecclesia pastoris solacio destituta, dilecti filii, capitulum eiusdem ecclesie ad consulendum sibi de futuri substitutione prelati, ut est

syni. Það handrit sem A er hér prentað eptir og sem er elzt allra þeirra handrita, er hafa réttarbótina i fullri mynd, eignar hana Magnúsi lagabæti, auk annara handrita; sum handrit nefna eigi konungsnafnið, en kalla þetta þó réttarbót; eitt handrit frá c. 1570 —80 (AM. 55. 8vo) eignar hana «H[ákoni] konungi», en óvíst hverjum, þó líklega Hákoni hálegg. Björn Grímsson málari, bróðir Höllu í Skógum og faðir séra Þorsteins á Útskálum, segir að þetta sé alþingisdómr (Jónsbók í Uldal. Nr. 320. 4to skr. 1603). Ein góð skinnbók hnýtir klausunni um forkaupsrett konungs aptan við réttarbót Hákonar háleggs frá 25. Nóv. 1315 um bréfabrot, og er sú klausa prentuð hér sem B. Heynessbók (AM. 147. 4to, þetta yngra en 1598) hnýtir réttarbótinni aptan við alþingissamþyktina um hnífaburð frá 1265. Réttarbótin er varla frá tímum Magnúsar smeks; hann hefir gefið út tvær réttarbætr aðrar um forkaupsrétt konungs 19. Júní 1355 (NgL. III, 174) og 5. Febr. 1360 (NgL. III, 179) og mætti þar með vera nóg komið um það frá hans hendi; þó gaf Hákon ungi út réttarbót um það 15. Febr. 1373 (NgL. III, 192). Hinsvegar er líklegt að hún sé frá Magnúsi lagbæti, því að inn í Landslög hin nýju er komin klausa (Kaup. k. 9, NgL. II, 155) sem er mjög svipuð þessari réttarbót, en stendr þó ekki nema í sumum handritum. Í Járnsíðu hef eg ekkert fundið um forkaupsrétt, og á réttarbótin líklega við hana að því, sem til Íslands tekr. Að því leyti, sem hana er að heimfæra til Jónsbókar, má geta þess, að Magnús Þorkelsson í Skriðu, sýslumaðr i Vaðlaþingi um 1500 eða Jón Magnússon sonr hans á Svalbarði (enn á lifi 1563) hafa viljað láta hana eiga við þegnskyldu kap. 3, og hafa skrifað réttarbótina þar á spássíu í lögbók sinni, sem enn er til í Árnasafni Nr. 343. Fol., forn og merkileg (frá c. 1330).

---

A.

Hér er eingöngu prentað eptir skb. AM. 350. Fol. bls. 16, Skarðsbók skr. 1363, og þótti ekki brýn nauðsyn á að taka orðamun, þó borið hafi verið saman við ein 16 handrit önnur til varúðar. Auk áðr nefndra handrita finst réttarbótin i þessari mynd að minsta kosti i þessum handritum: AMagn. 135. 4to bls. 7 skb. þetta frá c. 1500; AM. 138. 4to bls. 213 skb. c. 1500; AM. 157B. 4to bls. 57 skb. c. 1460; AM. 158B. 4to bls. 154 skb. c. 1430; AM. 161. 4to bls. 267—69 skb. 1561—65; AM. 45. 8vo bls. 93 —94 skb. c. 1570; AM. 458. 12mo bls. 67—68 skb. c. 1570; AM. 60. 8vo bls. 88—89 papp. c. 1690; AM. 200. 4to bl. 9b papp. c. 1700; MSteph. 48. 4to bl. 24a papp. skr. 1669; Ny kgl. s. Nr. 1911. 4to bls 211—12 c. 1760 (Paus); Ny kgl. s. 341. 8vo skb. 1656—58; Thott. 2099. 4to skb. 1581; Thott. 2101. 4to skb. þetta á pappír aptan við skr. c. 1600; Thott. 2100. 4to skb. c. 1580; Uldal. 322. 4to skb. c. 1570; IBfél. Nr. 60. 8vo Jónsb. á pappír skr. 1595—1604 af Guðmundi Illugasyni; IBfél. 122. 8vo

papp. c. 1660; IBfél. 314. 4to papp. c. 1690—1700; IBfél. 315A. 4to papp. c. 1680; IBfél. 531. 8vo bls. 144—45 (bók Hálfdánar á Reykjum skr. um 1706). Réttarbótin er prentuð með öllum útgáfum Jónsbókar Hól. 1578, 1580, 1582, 1707, 1709, Akureyri 1858, og á dönsku með dönsku Jónsbók Kh. 1763.

Rettarbætr Magnus konungs Hakonarsonar.

Sua er skipat ok staðfest. at konungr ok hans vmboðsmaðr æ furstur kaup æ ǫllum uarningi eðr þarfindum. huart sem falt hafa innlendzkir eðr utlendzkir. þa skal honum furst selia. fur slikt uerð sem aðrir uilia kaupa ok vm allt þat er hann þickiz kaups við þurfa. ok falt er. þa skal hans umboðs monnum furst selia. þeim sem hann gerir til.

Jtem sæ sem manni gerir fear skaða til halfrar Merkr. með ǫfund ok heipt. bæti sæ fullretti eptir domi er gerði. ok fear skaðann. sem .vi. skynsamir menn meta. ef vitni ero til ella syni settar eiði. ef æigi ero uitni til. enn ðfundar bot fur minna fear skaða. eptir atuikum. eðr syni lyrittar eiði[1]).

Datum etcetera.

---

**B.**

Gl. kgl. s. Nr. 3269B. 4to bls. 126, skinnbók frá c. 1340—50 áfast aptan við réttarbót Hákonar kgs um bréfabrot 25. Nóv. 1315, og er hér óárfærð; endar: «uęla sokn við hann ger», og þar eptir kemur þessi klausa í endanum.

Konungr eða hans umboðsmaðr æ fyst kaup æ ollum uarninghi eða þarfindum. huart sem fallt hafa utlenzkir menn eða inlennzkir þa skal fyst selia fyrir slikt uerð sem að[r]er kaupa. ok vm allt þat sem hann þikkiz kaups þurfa ok fælt er þa skal hans umboðs manne fyst selia. þeim sem hann gerir til.

---

73. 1280.

Hollustueiðr Íslendinga við Magnús konung lagabæti, Eirík konung Magnússon og Hákon hertoga.

Þessi eiðstafr, sem er ekki alveg *in forma*, er tekinn eptir Árna biskups sögu (Bps. I, 717), og er prentaðr eptir Stockh. Nr.

[1]) ualete in christo amen, b. v. 157.

12. 4to bl. 23b (skb. c. 1640) og samanborinn við Stockh. 8. 4to bls. 951 á pappír (c. 1640). Sáttmáli við Eirík konung er nú enginn til.

Þeir lęgdu til þess hend ā bok og þui skutu þeir til gudz ad þeir skylldu holler og truer leineliga og opinnberliga og huęrge vera j mote konungz vmbodzmanne þar sem hann talade lǫg og Riettinde.

---

## 74. [um 1280].

Máldagi Þórðar Sturlusonar fyrir rekum Helgafellsklaustrs fyrir sunnan heiði.

AMagn. 263. Fol. bls. 104 papp. skr. 1598: Landb. 268. 4to 478 skr. 1601. Hér er prentað eptir 263.

gamall maldage.

Reki stadarins ad Helgafelli er þa firi svnnan heidi fra rafnshelli og vt þar til er saman liggur divpsker oc landsker. þa er madur stendur a mel vppe hia steinum þeim er sionhending taka j vedra forss: nv vissv menn ad þordvr stvrlvson atte gardalavnd enn sydre: enn Baudvar keypti son hans keypti[1]) gardaland hit ytra: ad kara karasyni: oc þorv modur hans ormsdottur: og gaf vid Bardastadi oc vatzholltt: oc tok af hvorv tueggiu rekann. Enn sydan selldi hann ytri garda Liote Biarnasyne og tok þar af allan reka. Blafelld keypti hann ad þeim manni er Bassi het enn holland tok hann j erfd: oc selldi sydann odde hranasyne[2]): enn kirkiv hval selldi hann þoroddi Starkadar syne: oc tok af hvarutueggia allann reka. nv eignadizt hann þessa kostar ad frialsv allan reka fra þessum londum ollvm sem nu voru vptalid oc skylldi[3]) so fyrer: ad hann skylldi eiga alla þa hlute er af sio kynni ad koma: med flutningvm oc renningum: oc suo þeim er deyddir yrdi a þessi reka strondv: oc suo þo ad brim eda ofvidre kasti alltt a gras vpp: med suo frekum skildaga: ad aller eigendur oc byggendur þessara bolstada skylldv af vera ollv tilkalli.

---

[1]) þannig 263; [2]) hn̄a syne 263; herasyne 268; [3]) þannig 263; r: skildi.

75. [um 1280].

Skrá um landamerki Þrándarstaða og Ingjaldshóls undir Jökli.

AMagn. 264. 4to bls. 16—17. papp. skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 19 - 21 skr. c. 1660. Þetta mun vera það bréf, sem vitnað er um í Keflavíkurreka c. 1350, þó ekki sé það með öllu víst; AM. 430. 4to bls. 16—17, séra Jón í Hítardal c. 1720; AM. dipl. afskr. Nr. 1659 («ex charta quadam»).

Jngialldzhols landamerke [1]).

Landamerkie þesse eru j millum þrandarstada oc Jngialldz huolz: saugdu þeir sýgurdur Eýolfsson oc halldor prestur Oddason. Liotur Biarnarson. þa er Baudvar þordarson [2]) galltt Jngialldz huol Baudvare þorarinssýne fýrer þat ran er hann ræntе hann j Langadal.

Vr æsutiaurnn jnn j leitizskarde fellur lækur. enn pýttar iij eru j læknum. enn ur hinum sidasta pýttinum er sionhending j lurkans læk:

Enn þa rædur lurkans lækur ofann [3]) Alamýrar. þadan j holmkielsæ. enn sijdann j sia:

Hraunskardzmenn eiga slattur [4]) æ alamýre:

Lækur fellur ur laugum. enn vid lækienn standa fuglstapar þrijr miaug suo j sudur: sionhending ur audrum j annann:

sionhending er ur fuglstapanum [5]) j Gardrustar enda [6]). enn sa gardur rædur upp æ mo:

Enn Reka og Renninga oc flutningar af sæ eigu þesse laund saman Jngialldzhuoll. kialvegur [5]). þrandarstader. so micid [huer þeirra [7]) sem fie liggur j [8]) ad fornum skildaga. Enn þad er forntt lag ad Jngialldzhuoll var [9]) firi xx^c^. kialvegur x^c^: þrandarstader xij^c^.

Jafnsannlega [10]) eiga þrandarstader land j Riffe sem Jngialldzhuoll. med aullum þeim gaugnum og giædum ad fiordunge. oc þui meir sem þrandarstader hafa verid fýrr xij^c^. enn [hin bæde xxx hundrada t[v]au samann [11]).

---

[1]) 252; Jngialldshols og þrandastada maldage 430; [2]) Biarnarson, 252; [3]) til b. v. 252; [4]) slatt, 252; [5]) og b. v. 252; [6]) endann 252; [7]) [sl, 252; [8]) jordu, b. v. 252; [9]) er 252; [10]) Jaffnsannarlega 252; [11]) [enn hinar adrar firer xxx^c^, 252.

Æsa en audga hiet kona er bio ad holmlatri. hun atte þrandarstade. oc gaf sidan stadnum ad Helgafelle.

Þrandarstaudum fylgier selfaur j Burfellzdal. oc beit til fiallz. enn votn j dal oc lyngrif um hraun oc hrijsrif. oc[1]) umm stapa. huertt sem þeir eru j sele edur ei[g]i.

Hellumenn eiga stackskurd j[2]) folafall tuitugann.

[J hinu nedra folafalle eigu[3]) kieflvijkingar undir eina skipshaufnn Torfskurd:

Eige eigu leingra þrandarstadamenn[4]) slatt ofan med lurkans læk enn sionhending j dy þad er j er fyrer nedann folafall.

---

## 76. [um 1280].

Bréf Gríms prests Hólmsteinssonar til Runólfs ábóta Sigmundarsonar í Þykkvabæ í Veri með sögu Jóns skírara, er ábóti hafði beðið hann að setja á íslenzku.

AMagn. 233A. Fol. bl. 1b skb. c. 1350, og er þar viðfest afskript gerð fyrir Árna Magnússon; önnur afskript með hendi Árna sjálfs er í AM. 233B. Fol. Bréfið er prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 584—85 með latínskri þýðingu, og í Postolasögum Ungers Kristjaníu 1874 bls. 849—50 framan við sögu séra Gríms.

Bref Grims prests.

Virðuligum herra Runolfi abbota i ueri sender Grimr prestr Q[ueðiu]. G[uðs] ok sina sanna vinattu.

þes truir ek yðr minniga uera. at þer baðut mik saman lesa or likama heilagra guðspialla lif hins sæla iohannis baptiste. ok setia þar yfer tilheyriligar glosur. lesnar af undirdiupi omeliarum hins mikla Gregorij. augustini. ambrosij ok aHaRa kenni feðra. Hu þvi at huarki mælti fur mer gnott klerkligra luta. eðr natturu giöf hiartaligra uitzmuna. ne lofligr uitnisburðr fur faranda lifs. ok aðrer voro stormarger miklu betr til þessa starfs fallnir. sá ek ôngva sôk til þers er þer bundut þat mer a hendi. aðra enn þa. at þer vnnut mer þers oðrum framaR. sem þer sáð mik oðrum framaR þurfanda. enn þat er af-

---

[1]) sl. 252; [2]) hid nedra, b. v. 252; [3]) [þangad eiga og kiefflüijkijngar, 252; [4]) 252 hefir alstaðar þrandastaðir.

lausn andmarka. ef almattigum Guði ok hans haleita fur Rennara iohanni þætti nockut þess vert fur þenna saman burð. Hefer ok nu gert. at brottkastaðu[m] ollum kiHRoða. vm þenna lut. ýðuarn boðskap. þo at ek vissa a minu uerki mvndu finnazt morg ok stor gǫrðar lýti. Truir ek at nockurum monnum sýniz i mǫrgum stǫðum mǫrg orð ýfer sett. þar sem fa standa fur. Gorða ek þvi svo. at þat var ýðuart atkuæði at ek birta orð hans með glosum. j aHan stað truða ek ef obóckfroðir menn heyrðu hans hin fǫgru blom ok hinar mýrku figurur. at þeim mvndu þær a þa leið onýtsamar. sem gimsteinar ero suínum. ok at betra væri. at lýsa hans spasogur. ok skýnsemder morgum manni til trubotar. helldr enn at siHa heimskra manna þocka. þeirra sem allt þicker þat langt. er fra cristz kǫppum er sagt. ok skemtaz framaR með skrǫksǫgur. J þriðia stað sýndiz mer sa orskurðr her til heýra. at miklum soma miklir luter. af þvi lét ek frammi allt þat er mer þotti af þessa dýra manz lofi her til heýriligt. ok þat sem ek truða vitrum monnum mvndu sogu bót i þickia vil ek nu biðiandi vera. at þer takit þenna saman lestr til skoðanar ok umbotar. æigi fur aHat en þat er þer buðut mer þetta at gera. ok mer sýndiz sem þer seeð saker astar ok goðuilia ok visdoms a maHligar bóklister ok guðligar Rokṡemder. til þessa starfs oruGer. ok vti muni vera býrgð ǫll skýnsamlig aleitni. oss samlendra manna. af þui allu sem þer vilit með yðrum skynsemdum ueria. Sua vil ek ok einkannliga biðia at þer æstit þers almattigan Guð fǫður. at æigi taka ek fýrer þetta verk pinu saker ofdirfðar. helldr aflausn andmarka fur yfir setu. ok eptirlæti með ýðr. ok þott æigi uinniz til þess gipta at ek verða i valdra manna tǫlu vars herra. mega ek þo fur arnaðar orð sæls johannis með domi bersýndugra manna. forðaz bruna heluitis fur makliga ok uiðrkuǫmiliga iðranar áuðxtu. ok biða sællar vanar. j hinni siðaRi sealfs drottins tilkuámu. quod ipse p[eto].

---

77. [um 1280].

Samþykt um fjárlag manna á meðal á Íslandi.

Þetta fjárlag er í Jónsbókarhandritum optast tekið upp í Kaupabálk kap. 5—6 og svo er það í útgáfunum, en stundum er það, og

enda í mjög fornum og góðum handritum svo sem Gl. kgl. s. 3268. 4to frá c. 1300, sem 14—15 kapítuli í sama bælki, svo að það leikr nokkuð lausu við texta bókarinnar. Í handritum frá 15. og 16. öld finst það og sérstakt, svo sem í AM. 687A. 4to bls. 1—3 skb. skr. 1479 og AM. 458. 12mo bls. 174—76 skb. c. 1570. Í I. bindi Fornbréfasafnsins bls. 163 lætr Jón Sigurðsson þá skoðun uppi, að þetta muni vera vorþingissamþykt í einhverju héraði og byggir það á byrjunarorðunum um kvikfjárlag. Hann heldr og að þetta fjárlag sé sett inn í Jónsbók seinna, en ekki getr það verið miklu seinna, því að 1294 er það í Jónsbók, því að þá skipar Eiríkr konungr klausuna um melrakkahelgi úr bók með réttarbótinni frá því ári § 30. Aðalstofninn í því er langtum eldri en Jónsbók og sumt í því rétt sem í fjárlagi Grágásar (Dipl. Isl. I, 162—167) frá hérumbil 1200, en í þeirri mynd, sem það er hér, mun það vera litlu eldra en Jónsbók, og hefir Jón Sigurðsson heimfært það, sem hér er gert og er hér fylgt að mestu hans frágangi á textanum. Við þetta fjárlag eru hin elztu Búalög upprunalega gerð sem viðaukaákvæði, af því að mönnum þótti verðlag vanta á mörgu í lögbók, og vissu menn það því ógjörla. Hér er þetta fjárlag prentað eptir hinni góðu skinnbók Brynjólfs biskups af Jónsbók í Gl. kgl. s. 3270. 4to frá c. 1320, og borið saman við nokkur önnur forn handrit, sem nefnd eru sum neðanmáls, en ekki er nema einstöku sinnum tilfærðr orðamunr. Hefði átt að tæma allan orðamun úr öllum nokkursvirðandi handritum, hefði það orðið margfalt við sjálfan textann.

Vm lǫgaura.

Ef mællter eru laugaurar með monnom þa niti eigi laugeyri ef eigi er vaðmal til.

Nu er lǫg eyrer.

Sex alnar vaðmals gilldz skulu vera i eyri nytt oc vnotið. tveggia alna breiðt oc eigi þvi leingra at iaðri en rygg at muni alin i. xx. alnum. oc skal þo stika hvart er vill at rygg eða iaðri. oc sva kosti sem tekit er a alþingi. at skemra iaðri skal stika ef skakt er.

[Melracka belgir vj. firi eyri [1]).

[Morennt vaðmál .v. alnar firir eyri [2]).

Eyrir gullz þess er stendz ellding firir sex tigi aura.

Eyrir brennz silfrs firir .vj. aura.

Jarnketill nyr oc velldr oc vegi .iiij. fiorðunga oc liggi j .[vij. skiolur [3]) firir[ xv. aura [4]).

[1]) [bætt við eptir AM. 346 og hefir svo upphaflega staðið, því að það er tekið úr bók með réttarb. 1294 § 30; [2]) [sbr. réttarbót Eiríks konungs 1294 § 30. Belgsdalsbók sleppir því; [3]) [viij skiolur Gl. kgl. s. 3269A, 3269B, 3271og AM. 346; [4]) [xij aura 346; xx aura 347.

Þat er katla máls skiola er tre er sett a enda i laugg oc tekr öðrum megin á þraum. xii. þumlunga meðal manni í nagls rotum.

Stæltr læ eGelningr oc vegi. xviij. aura heill oc stál sleginn. þeir skolu .iij. firir tva aura.

atta fiorðunga vétt blástrs iarns firir. v. aura.

vétt fellu iarns firir. vj. aura.

Vm kvik fiar lagh.

Þetta er enn fiarlag sva sem lagt er dyrt a vár i þvi heraði.

Kyr atta vetra oc eigi ýngri eñ at öðrum kalfi heil oc heilspenat oc hafi keflt [1]) vm vetrinn eptir pals Messo. eigi verri eñ meðal kyr herað ræk at fardavgum.

þriu naut vetr gömul við ku.

Tvau tvevetr við ku.

kyr gelldmiolk oc kuíga [2]) at fyrsta kalfi tveim aurum verri eñ kyr.

Vxi fiögurra vetra gamall við ku gelldr eða graðr.

gelld kyr oc vxi þrevetr tveir luter kvgilldis.

Vxi. v. vetra þriðiungr annars kugilldis.

[Vxi. vj. vetra tveir lutir annars kugilldis [3]).

Vxi. vij. vetra firir kyr. ij. oc sva þo at elldri se [4]).

Arðr vxi á var hann er metfé.

Sex ær við ku tvær tvevetra oc. iiij. gamlar oc fæði laumb sín vrotnar loðnar oc lemðar [5]).

Atta [6]) ær algelldar þrevetrar við ku.

Atta tvevetrir gelldingar við ku.

Atta lambgymbrar oc fæði laumb sín vrotnar loðnar oc lembðar við ku.

Sex gelldingar þrevetrir við ku.

Gelldingr fiogurra vetra gamall oc annarr tvevetr firir ær tvær.

Rutr tvevetr ágilldr.

Tólf [vetrgamlir] sauðir við ku.

---

[1]) þannig 3270 = kelft; [2]) tvevetr eda yngri b. v. AM. 347; [3]) [vantar í AM. 346; [4]) landgeinginn b. v. útgg.; [5]) vii lamsgotur við kú b. v. útgg.; [6]) vij, AM. 346

Allt þetta fe skal gillt oc i vllu.

þrevetr oc ellri forostu gelldingr er metfé.

Geitr. vj. [með] kiðium við ku. oc sva farit sem æm. eñ. viij. gelldar vid ku. þrevetrar oc ellri.

Atta hôðnur oc fæði kið sín við ku.

Atta tvevetrir hafrar við ku. iiij. kiarnhafrar. oc. iiij. algelldir.

Sex þrevetrir hafrar við ku þrir hvarir [allsgelldir ok kiringar].

Fiôgurra vetra gamall hafr oc annarr tvevetr firir geitr tvær.

[Tvevetr graðhafr [1]) iafn við geit.

Ef hafrar eru ellri eñ nu eru talldir þat er metfé.

[Tveir vetrgamlir geit sauðir við geit [2]). [halft hôðnur oc algelldingar. halft kiarnarhafrar eða gelldhafrar [3]).

Hestr fiôgurra vetra gamall oc eigi ellri eñ x. vetra. heill oc lastalaus iafn við ku.

[Merr hross gillt [4]) fiorðungi verra eñ kyr.

þrevetr hestr iafn við Ross.

Ross þrevett. ij. luter kugilldis.

Tvô Ross tvevetr hestr oc Ross við ku.

þriu vetrgômul oc einn hestr í við ku.

Ef maðr gelldr Ross vetr gamallt firir þriðiung kugilldis þa skal fylgia eyrir.

þetta skulu vera meðal Ross.

Stoðhestr oc sé verði betri firir vígs saker þa er metfé.

Gelldr hestr oc se verði betri firir reiðar saker. oc fylhross i stoði . þat er metfé.

Syr tvevetr eða ellri oc með. ix. grisir við ku.

Brétt [5]) lerept [iij alnir firir tva aura. Enskt lerept] tviel[n]t. ij. alnar firir eyri.

Mörk vax firi eyri.

Skruðklæði ny skorin. eða vskorin.

---

[1]) [þrevetr hafr AM. 346 og 347; [2]) [Tolf vetrgamlir geitsauðir við geita kugilldi AM. 347 (sbr. útgg.); [3]) [vantar i AM. 346; [4]) [Ross fiogurra vetra ok eigi ellra en x. vetra gellt ok lastalaust AM. 346; [5]) Brétt = breitt.

hafnar vaðmal oc ny vnotin.
katta skinn og lamba skinn ny.
flat smiði nytt.
vǒru smiði nytt.
teint iarn.
eirkatlar nyir.
þat er alt metfé. oc þo rett golldnir lǒgaurar.
Allt metfè skulu virða. vj. skynsamir menn iij. af hvars hendi.

þriar atta fiorðunga vetter gamalla sauða vllar við ku [1]).

Vett vetrgamalla sauða vllar eða aulldungs huð þriðiungr kugilldis oc bæti hvart eyri.

Tvær kyr huðir við ǒlldungs huð.

Rétt er ef snǫggvar ær erv golldnar at lata. fylgia. viij. fiorðunga vett vllar. xx. æm.

---

## 78. [fyrir 9. Mai 1280].

Bréf Magnúsar konungs lagabætis til Íslendinga með Jónsbók.

AM. 343. Fol. bl. 1b—2a skinnb. frá c. 1330 (Svalbarðsbók); við hana hafa verið borin saman handritin AM. 344. Fol. skb c. 1350; AM. 350. Fol. skr. 1363 (Skarðsbók); AM. 351. Fol. skb. c. 1360 (Skálholtsbókin forna); AM 127. 4to skb. c. 1330; AM. 168. 4to skb. c. 1360 og AM. 169. 4to skb. c. 1320—30 (brot), en orðamun þótti ekki vert að taka nema á einstaka stað. Bréfið fylgir mesta fjölda af handritum Jónsbókar (nál. 100), og yrði langr uppi að nefna þau öll hér. Bréfið er prentað fyrst í Crymogæa Arngríms Jónssonar á latínu (Hamb. 1610 lib. III, 110), og árfært til 1281, því næst í Gerh. Dettbards Abhandl. von den Isl. Geseꝫ. Hamb. 1748 bls. 7—8 á latínu (eptir Crymogæa); á dönsku í Jonsbogen Kh. 1763; á ísl. í öllum útgáfum Jónsbókar Hól. 1578, 1580, 1582, 1707, 1709. Akureyri 1858 og Norges gl. Love IV, 1885.

her byriar prologum logbókar [2]),

Magnus með guðs miskun noregs konungr sun hakonar

---

[1]) þriar vætter miðlvægs matar við ku b. v. Gl. kgl. s. 3268, og AM. 346 og 347; [2]) bref magnus konnngz bier segir bœlka skipan 351; Bref magnus konungs 350; á spássínnni uppi yfir bréfinu befir Svalbarðsbók: »fortalan til logbokarinnar«.

konungs sunar sun suerris konungs. sendir ôllum guðs uinum ok sinum a islandi Q[ueðiu] G[uðs] ok sina.

þer uitit at skilrikuzstu menn af islandi hafa iðuligha getið fýrir oss at þer hafit spurt at ver hôfum hlut i ætt at bôta nokcut um flestar lôghbôkr i noreghs konungs Riki meðr hinna beztu manna ráði. ok beðit oss at ýðr loghbok skýlldi eigi þeirra umbota hlutlaus vera.

En þar sem oss bar áðr vel fýrir at sia. þa beR nu einkannligha bezt þar sem þer treýstit so mikit a vara forsia at þer dômdut hana alla i vára skipan. þat af at taka ok þat uið leggia sem oss þætti bezt sama meðr beztu manna ræði.

Ok af þui nofum ver nv iðulegha skoðat hana. ok lízt oss so alvíða mætti meðr færum orðum full[an] orskurð a gera þar sem hon talar áðr geýsi langt um. en i sumum stoðum þýrfti hun sannlegha tillôghu. þar sem huergi var hun liosare enn margir þýrfti þeir er fakunnigir erv.

Nv þo at ver kennum oss miok fakunnigha til slikra stormæla. þa hofum ver þo þessa bok latit rita er ver sendum yðr með herra joni [1]) lôghmanni eptir slikum hætti sem her vattar. treýstandi a miskun vars herra ihesu christi [ok arnaðar orð sancte marie. ok hins helga olafs konungs ok allra heilagra [2]) ok þeirra hinna skynsamuztu manna tillôghu er hia oss varo.

En at þer skilit þi giorr hvi uer hofum so balkunum skipat i bokinni sem nu er. þa greinir þat þessi hættr sem her fylgir.

Þingfarar balkr er nu sem fýr at ônduerðv ritaðr aðr enn hefr sia[l]fa bokina. þi at aðr hæfir at skipat se þingit ok nefndir skoðaðar. lôghrettumenn komnir. eiðar fluttir. gerð sett. siðsemdum lýst. at þi betr verði siðan bokinni hlýtt [ok domunum litt [3]) sem þingit er betr siðat ok stillt.

Fýsti hlutr bokarinar er kristins doms balkr. at menn skili kristiligha trv. vera grundvôll ok vpphaf allra goðra verka. ok heilagrar kirkiu lýðni ok hennar formenn vera lýsing ok leiðtogha til allra rettinda. [ok skýnsamligra skýnsemda [4]).

---

[1]) Ꝁ., 343; flest önnur handrit hafa joni; [2]) [þessu er hleypt úr í útgg. Jónsbókar, eustendr, eg held, í öllum fornum skinnbókum af bréfinu, og þar á meðal í 350, sem útgáfurnar stafa mest frá; [3]) vantar í mörg hdr.; ok domvm lykt 344; ok domum 351 og útg.; ok domum hlitt 350; [4]) [ýms hdrr. sl.; ok miskunnsamlighra siðsemda 168, 351, 350; útg.: röksemda.

Næst kristins doms belki er vm konungs þegnskýlldu. at alþýðan skili þann sama guð hafa skipat konungdomin til veraldlighs vmboðs sem biskup til andlighs.

Eptir konungs þegnskýlldu er mannhelgi. þi at næst þuisa hæfir hôfðingium. ok ollum oðrum ut ifra at hafa ok hallda lata guðs boðorð ok goðra manna frelsi milli kristinna manna ok þeim meðr lôghum þo hofsamliga eptir atvikum at refsa sem at oðru verða profaðir.

Nest mannhelgi er erfða tal. meðr þi fleira sem þi heýrir til. ok hefr þat með kuenna giptingum. þi at miklu varðar þeim sem til arfuanna kalla at þeir se i loglighum hiuskap getner.

Eptir erfða tal hefr landa brigði. þi at i þann tima sem maðr erfir nokurar iarðir. þa hæfir honum at skoða vm oðvl sin ok annaʀa manna. at hann haldi engra manna oðulum með lôgum sottum ok hann kunni meðr loghum sialfs sins oðulum at brigða.

Eptir landabrigði er landz leigu balkr. þi at þeim heýrir eptir loghvm sinar iarðir at býggia. er meðr loghum hafa at komiz.

Eptir landz leigubalk er kaupa balkr [1]). þi at eptir lagha soknum skal lausa aura sôkia. sem eptir landa brigði laund ok iarðir.

Eptir kaupabalk erv farmanna lôgh [2]). þi at þeim hæfir með rettum kaupskilum at fara er sitt uilia meðr kaupferðum auaxta.

Eptir farmanna lôgh er þiofabalkr. þi at þeim hæfir firi engum at tortina sem eigandi hefir meðr loghum at komiz. en sa er oðru uiss gôrir. mun lagha refsing fýrir taka.

Siðaz i bokinni eru kunungs rettar bôtr. þi at sa konungr er til er skipaðr eptir at sia lôghonum. eptir dômum sinna forellra. a eigi siðr at hugga sina siðsama þegna með linkind

---

[1]) Svo hafa öll handrit bréfsins, að því eg framast veit, og nefnir ekkert þeirra Rekabálk og hefir hann því upphaflega verið talinn með Landsleignbælki og svo er gert í nokkrum fornum handritum af Jónsbók sem enn eru til, þar sem báðir bálkarnir eru sem einn, er kallast Landsleignbálkr; [2]) Sum hin allra elztu handrit af Jónsbók sleppa alveg Farmannalögum út úr textanum líklega sem óþörfum.

ok rettarbotum. enn at tempra ospaka með hirtingu ok loghlighum refsingum.

Erfðer þær sem til hafa fallit vm iarða brigði ok viga ferli ok ôll aunnur laga mæl under huerium lôghum er þau wrðu. þau skolu oll vndir þeim loghum uera sem þa gengu i landi er þau mæl giorðuz ef eigi hefir aðr loghligh skipan a komit.

Biðium ver at þer varkýnnit við oss þat sem a skortir. þi meir hefir ualldit fiolskýllda vær ok vankunnandi en vilia leýsi sem ætla mæ. þo at ver hefðim minna i veð sett. ok oss tôki þetta efni sialldnaR en oss tekr. finz ok nokcut nýtsamligt í þockum þat aller varum herra iehsu christo. hans nafn se blezat utan enda amen.

---

## 79. 16. Juni — 29. Juli 1280. i Björgvin.

Skipan Jóns erkibiskups rauða í Niðarósi, er gerð var á kirkjuþingi í Björgvín með ráði sjö lýðbiskupa.

Norðmenn heimfæra þessa statútn til Júlí 1280, en samkvæmt Árna biskups sögu kap. 25 (Bps. I, 714) kom Jón erkibiskup til Björgvínar að halda hiskupaþingið *in festo trinitatis*, sem það ár var sá 16. Júní, en «á hinni fyrri Ólafsmessu», sem er sá 29. Júlí, veitti erkibiskup öllum þessum biskupum «fagra veizlu» að skilnaði; veltur því á tímanum 16. Júní — 29. Júlí. Það eru til tvær útgáfur af statútunni, önnur löng, en hin stutt. Sú leingri er hér kölluð A, en hin B. Árni biskup Þorláksson ber fyrir sig á alþingi 1281 þessa statútu, og lét lesa þar upp bannsartikulana.

---

### A.

Þessi texti er áðr prentaðr í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 455—469 og í Norges gl. Love III, 229—237 eptir Skálholtsbókinni fornu og góðu í AM. 351. Fol. frá c. 1360 (= A), en saman við hana eru þar bornar skinnbækurnar: AM. 347. Fol. (bl. 90b—94b), þetta með hendi frá 15. öld (= C); AM. 354. Fol. (bl. 38b—42b) frá c. 1400, Skálholtsbók yngri (= B); AM. 42A. 8vo (bls. 215—216) frá c. 1480 (brot úr = E); AM. 456. 12mo (bls. 209—227) frá c. 1480 (= D). Hér er eins og í NgL. prentað eptir Skálholtsbókinni góðu (AM. 351. Fol.) af því að hún er elzt og bezt, en hins vegar þótti hér ekki þörf að nota þau handrit til samanburðar, er Norðmenn höfðu borið saman, heldr er hér tekinn

orðamunr úr tveim skinnbókum. sem Norðmenn hafa ekki notað eða ekki þekt, en það eru: AM. 173D. 4to C2 frá c. 1380 eða eldra (brot); er skinnblað þetta með líku handarlagi og rithætti sem tíðkaðist nyrðra á dögum Jóns biskups skalla; það hefir áðr verið utanum bók, og er æði máð öðrumegin, og ofan af því skorið og úr því geirar; AM. 688C. 4to bls 11—18 frá 1479. Til eru tvær pappírsafskriptir af þessum texta: AM. 225. 8vo (afskr. gerð fyrir Árna) og Ny kgl. s 1938. 4to, sem er gerð eptir Skálholtsbók góðu, en þær eru litilsvirði þar frumrit þeirra eru til.

[Statuta] jons [erchi]biskups oc annaʀa biskupa.

Jon með Guðs miskunn eʀkibiskup j niðarosi. andres með þeirri sômu miskunn biskup af óslo. jôrundr biskup af holum. Erlendr biskup af færeẏium. arni biskup af skalhollti. arni biskup af stafangri. Harfi biskup af biôrguin. þorfinnr biskup af hamri. senda ôllum monnum j niðaross eʀkibiskupsdæmi þeim sem þetta bref sia eðr heẏra frið og fagnað j drottni ihesu christo.

Með þvi at vór ahẏGia ok æstundan er [1]) forsia at veita folksins sæluhialp ok vora vndermenn visa gera af þeim lutum sem þeim væri nẏtsamliger at vita ok þeirra siðu ok meðferðir [2]) draga aleiðis til betranar. þa baðum wer miuklatliga miskunnsamann Guð at hann blesi [3]) oss j briost gipt himneskrar speki veitandi vitru ok vpp tendrandi [4]) vorn alhuga ok giôrð til þess at vor aktan taki af honum vpphaf ok með [sialfs hans miskunn kemi [5]) hon til skẏlldugligrar endalẏktar.

Af þvi at lærðer menn þeir sem skipaðer eru til guðligrar þionostu eigu j fullkomnum friði ok frelsi guði at þiona. þa endrnẏium wer með Rôksemd þessa biskupa þings skipan. þa sem giôrði goðrar minningar vilhialmr cardinali j noregs konungs Riki. þa er hann framdi þar þat embætti sem [herra jnnocencius pafi [6]) hafði hann til skipat at sva sem sinn legatum. at huerr sem af sialfs sins vilia ok valldi geingr æ annars fasta eign eðr dregr vnder sik annars valld með ofRiki. þa se hann af sialfu verkinu bundinn með bannz atkuæði.

En til þess at Ráns maðrinn beri æigi létti aptr af sinni flærð ok illzku. þa leggium wer þat til at Ræns sôkin skal

[1]) aa 688; [2]) mætti b. v. 688; [3]) blasi 688; [4]) tendri 688; [5]) [hialp hans mẏskunn kæmi 688; [6]) [herra pafinn jnnocencius 688.

dæmaz firi domara heilagrar kirkiu. [ef kirkiur eðr [1]) klerkar woro ʀænter.

Suo hit sama setium wer bannsettningar suerð j gegnum alla þa menn sem með illuilia leita niðr at briota eða firi koma frelsi heilagrar kirkiu innan [2]) niðaross eʀkibiskups dæmis [3]). eðr þær lofsamligar siðueniur sem kirkiurnar eigu hafa saker fornrar hefðar.

En með þvi at sva stendr ʀitað bæði j guðz lögum ok manna. at sokner [ok] domar veralligra mala skulu æigi fram flýtiaz æ hatiðum ne helgum dögum þeim sem einkanliga eru skipaðer guði til tignar sva sem kunnigt er kristnu folki. ok sva fullkomliga er firi tekit j skipanum heilagra feðra fram at hafa þers hattar malakærslur æ helgum tiðum at allt skal þat [4]) onytaz sem þa er sott eða dæmt. iafnuel þo at huarertueɢiu þeir sem malum eigaz wið samþýcki þeim domi nema nauðsýn se til annars. eða milldlig [5]) nýtsemd geri þat þolanligt. þa firi bioðum wer af guðs halfu ok heilagrar kirkiu ok allra vór. at weralligar þingstefnur se hafðar æ drottins dögum. eða öðrum hatiðar dögum allra hellz þa er predica skal [guðs orð [6]) firi folki.

En ef nöckuʀ maðr dirfiz at gera moti þessaʀi [7]) voʀi skipan. þa skal hann taka þa hegning at wera af suiptr inngöngu heilagrar kirkiu vm þria mánaði vm þat fram annat. sem æ hann legz epter guðs lögum.

þat firibioðum wer ok með valldi vors þings at prestar þoli þat leikmonnum at kirkiur se hafðar firi hirðzlu hws ok allra sizt geri þeir þat sialfir þvi vsæmiligt er at þeir geri þat sem þeir eigu öðrum at kuiðia.

Ꞩu ef nockur beʀ j kirkiu segl smiðrlaupa eða skreið skarpa eða annat þuilikt. vtan lof kirkiu prestz nema hann flýti þat brott eptir þriar aminningar prestzins sem vsæmiliga war þangat borit. þa viti hann sik þaðan af wera uti lýktan af heilagri kirkiu.

En allt at einu lofum wer at menn flyi j kirkiur með föng sin firi ofriði. eða elldz gangi ok öðrum nauðsynium. sva þo at þat se brott borit er nauðsynium [7]) letter af.

---

[1]) er 688; [2]) j 688; [3]) dæmi 688; [4]) sl. 688; [5]) mikil 688; [6]) þessi 688; [7]) naudsynin 688.

Þann lofliga siðvana landzins vilium wer stýrkia með voRi skipan at sa geri opinberliga bruðlaup sitt sem ser vill fa eignar konu.

Ꝡu [1]) ef nǫckur maðr duelr lengr en vm eitt ær ok þria manaði bruðlaupsgiörð sina. siðan þat Rettz. vtan nauðsýn eða skýnsamliga sök þa sem soknar presti sýniz þar firi þurfa setia lengri frest æ. þa skipum wer at honum se firiboðin kirkiu innganga allt til þess er hann leiðrettiz af þvilikri þralýndi.

Þat höfum wer ok staðfastliga skipat. at ef nockuR af leikmonnum tekr vnder sik til profanar ok Rannsaks eða doms þær saker sem at eins eiga firi forstiorum heilagrar kirkiu dæmaz vanuirðandi j þvi logligba domendr þeirra mæla ok geingi sva vitz[2]) vitandi æ sættargiörð þa er giör war millum konungdomsins ok kirkiunnar ok af huarratueGia hálfu war suardögum staðfest. eða sa sem klerk dregr nauðgan vnder leikmanna dóm [3]). eða þeir leikmenn sem dom leGia æ kirkiu eigner eða klerka at þeim sialfum auðspurðum [4]) eðr moti mælundum sem Raða eigu. þa fellir sa æ sik fullkomit bann af sialfu werkinu.

En þersi mæl eru einkannliga tilskild in composicione.

Allar saker þær sem klerkar eiguz wið eða leikmenn sækia æ klerka. hiona samband ok öll hiuskapar mæl. ok þar sem dæma skal huersu huerr er lögliga getinn. vm foRæði æ kirkium. ok vm tiunder. vm heit. ok vm testamento [5]) er menn gera einkannliga af þvi sem menn gefa kirkiunni. eða öðrum helgum stöðum. ok fatækum monnum. wernd pilagrima er vitia höfuð kirkna ok vm þeirra mæl. vm kirkna eigner ok vm allt kirkna [6]) frelsi er hon æ j sér ok vtan sik j monnum ok eignum. ok þar sem selldir werða eða keýpter andliger luter. vm frillulifi. vm [7]) hordoma ok frændsemis spell. vm meinsæri. ok vm okr er menn býGia dautt fe. vm villu alla ok vantru. ok vm öll önnur þau mœl er þerssum [8]) eru lik ok til heilagrar kirkiu heýrer dom ýfer at hafa [9]) epter guðs lögum.

En þo at bæði se Guðs Réttr til. ok sva er þat auðsýniliga [10]) akueðit j sættarbrefinu at klerkar skulu wera fullkomliga frialsir vndan öllu ýfirboði leikmanna ok þeir sialfer eða

---

[1]) En 688; [2]) uizt 688; [3]) valld 688; [4]) ospurdum 688; [5]) testamenta 688; [6]) sl. 188; [7]) ok 688; [8]) þeim 688; [9]) segia 688; [10] syniliga 688.

þeir menn sem þeir hafa j sinu [1]) nauðsyniastarfi. eigu með engu moti þýðazt vnder nockut þat forþoð sem konungr eða þeir menn sem hann skipar til stiornar ýfer folki. leGia æ menn eða hafa æ lagt vm kaup eða saulur. þa finnaz þeir [2]) at huaru sem þeirra [3]) frelsi girnaz vndan draga klerkunum ok leita sva sinni illzku fram at koma at þeir leGia fegiǫlld æ þa leikmenn sem selia klerkum brent sýlfr eða aðra luti til þers að einginn treystiz frialsligar [at selia [4]) klerkum slika luti en oðrum monnum.

Hu af þvi at sva finnz Ritat [5]) j logum heilagrar kirkiu. at ef einn huerr lutr er bannaðr þa er þat allt bannat epter Rettri skilning sem þann lut leiðir [6]) til framkuemdar. ok af þvi leGium wer vnder bann alla þa sem þuilika luti dirfaz at gera. skulu þeir með eingu moti lausn fa af þvi banni fýR en þeir hafa aðr aptr greitt sva mikla [7]) peninga sem þeir toku af þeim er selldu sitt [8]).

Suo ok ef nockur dirfiz at vfrelsa vinnu monnum [9]) eða þionostu monnum [10]) klerka eða kirkna sva sem steinsmiði. eða skipstiornarmenn þeirra eða aðra þa [11]) starfsmenn leGiandi æ þa fiǫlskýlldi almennilig eða einslig tælma skip þeirra. eða taka með valldi nema nockuR mikil nauðsýn kalli at. eða almúgans nauðsýn [12]). ok halldi klerkar offast j þeim tilfellum. þa uiti sa ser [13]) bannaða wera jnngǫngu heilagrar kirkiu af skipan þersa þings. ok skal hann ok einga aflausn fa fýR en hann hefer viðrkuæmiliga bætt þat sem hann braut.

Þat er oss ok biskupunum hugleiðanda þar [14]) sem oss er æ hendi folgit abýrgð þeirra manna sem wer erum ýfer skipaðer af guðs halfu. at æigi dragim wer vndan firi vskýnsamliga þǫgn wið vóra vndermenn þat sem þeirra nauðsýn ok nýtsemd væri at vita þviat hinn heilagi pæll postoli seger sva j sinum pistli ad ephesios.

Vos scitis quo modo nihil subtraxerim uobis utilium quo

---

[1]) valldi eða b. v. 688; [2]) er þetta [gera] b. v. 688; hér byrjar brotið 173; [3]) þetta 688; [4]) [sl. 688; [5]) skipat 688; [6]) hælldr 173; [7]) marga 173; [8]) slikt 173; [9]) menn 173; [10]) menn 173 og bætir hér inn í: eda adra þa starfsmenn; [11]) þeirra 688; [12]) nytsæmd 173; [13]) sigh 173; [14]) þat 173.

minus annunciarem [1]) [uobis qua [2]) propter contestor quod munde sunt manus mee [3]) a sanguine omnium uestrum.

Þat ma sva noʀæna.

Þer vitið sagði postolinn huersu ek hefer eingan lut undan dregit wið ýðr þann sem ýðr [war nýtsamligr [4]) at vita sua at [5]) æigi boðaða ek ýðr ok firi þvi vitu þer sialfer at hendr minar eru ʀeinar af allra ýðra bloði.

En huat gefr postolinn oss at skilia firi þersi orð. nema þat at hann væri sekr bloðs þeirra þat er sýnda þeirra ok tions ef hann hefði nôckut með þôgn vndandregit þeim at segia þat sem hæfði þeirra saluhialp.

[Suo munu ok vorar hendr æigi vera ʀeinar [6]) af bloði voʀa vnder manna þeirra sem oss eru æ hendi folgner til andligrar stiornar. ef wer leiðum hia oss með varligri [7]) þogn ok snertnm [8]) æigi [þetta lýti [9]) sem fram væri flýtiandi firi folkinu til nýtsemdar. lækner likamans sýniz ok æigi sykn með ôllu þo at hann hafui sagt hinum siuka huerrar fæzlu honum hæfer at neyta til tempranar sinnar heilsu. ok beʀ sva til at hinn siuki deýʀ. neytandi þat sem honum war meinsamligt með þvi at læknerinn hafði æigi sagt honum at iafnuel skýlldi hann [vaʀ vera [10]) þers hattar lutum. [Suo er [11]) oss ok nauðsýnligt er skipaðer erum læknar sælnanna at wer hugleiðim at æigi at eins samer oss at læra folkit þat sem wer skýlldumz forsia at veita til andar heilsu huerium lutum [12]) þat þarf skýlldugliga at fýlgia. helldr hæfer oss ok iafnuel opinberliga at segia at þeir leiti [13]) forðaz þat sem þeim er vgeranda.

Ꝥuersu megum wer nu þa [14]) leiða oss hia ok læta sem wer siaim æigi ef nockuʀ maðr [15]) gleymer sva sinni sælu hialp sem guð lati æigi wera at hann leɢr nockurar pýndingar æ heilaga kirkiu guðs eign. eða ottaz æigi hans [16]) þionostumenn at misþyrma vmilldiliga. þviat vtan ef gerum wer oss seka þeirra lastanna sem wer þolum [wið vora vndermenn [17])

[1]) annnnciarer 351, 688; [2]) [vtibns qnam 173; hér er skorið ofan af blaðinn og úr því og sést því ekki, nema orð og orð á stangli; [3]) . . . tnorum 173; [4]) [væri [nyt]samligra 173; [5]) sl. 173; [6]) [sua mætti ok wera vtan waarar hænndr eigi Ræinar(!) 173; [7]) ovarligri 173; [8]) hirtnm 688; [9]) [wið þa lvti 173; [10]) [wid warna 173; [11]) [Nn er 173; [12]) haattnm 173; [13]) skuli 688; [14]) þat 688; [15]) hér er skorið ofan af og úr blaðinn í 173; [16]) hænnar 173; [17]) [vornm vndir [monnnm] 173.

ef wer megum hirta þa til leiðrettu [1]). en þat truum wer ok væntum með guðz miskunn at einger eða faer dirfiz fram at hlaupa j þann ôrskemdar laust. at þeir striði vpp a frið ok frelsi heilagrar kirkiu. ok ef þat gera nockurer. þa ma þat liklikt sýnaz at þeir geri firi þui at þeir viti æigi [huerr pina [2]) skýlldaz þeim er slikt dirfaz. [er þat [3]) ok æigi vndarligt þo at nôckuR [4]) siai minnr wið þat at gera sem hann veit æigi bannat vera. þar sem þat werðr optligha at sa ottaz æigi lostinn at fremia þo at hann viti olofaðan [5]) wera er hann truer at litil pina skal a hann wera lôgð þo at hann geri.

En til þess at æigi taki nôckuR heðan ifra af þersu tilfelli ofdirfð til at misgera. ok sva sem af vuitzku blindleik megi hann fela sik vnder afsakanar skuGa. þa skipum wer þat með skýlldu at vpp_ skal wera lesnar opinberliga firi alþýðu vm [6]) sinn a hueriu ære at ollum biskups stolum Regluligar skipaner heilagra feðra. þær sem skýra j huerium atburðum menn fella a sik fullkomit bann. slikt [7]) hit sama skal þeim lýst vera j hinum æzstum heraðs kirkium til þess at sialf ovitzkan su sem fýR hafði framlwt verit. at hrata [8]) j sýndina stôðuiz af vpptekinni illzku þa er hon seR ok ottaz ogn pinunnar.

En þessir atburðer finnaz vpptalder með slikri skipan j guðs logum sem her seger.

Sa er hinn fursti atburðr ef nockuR fellr j firidæmda [9]) villu firilatandi Rétta tru.

Annar er sa ef nôckuR setr saman nyia villu [10]) huart sem þat er opinbert eða leynt skulu menn forðaz [11]) samneýti wið opinberan villu mann þo at hann se æigi boðaðr [12]) bannsettr [13]) En þat er æigi skýllt vm þann sem leýndr er. fýR en hann er boðaðr bannsettr ok firidæmdr af heilagri kirkiu. Suo eru ok allir þeir bundner j eilifu banni sem oðru uiss skilia ok læra. en heilug [14]) Romueria kristni predikar ok varðueitir af heilagri skirn. ok af helgan holldz ok bloðs vórs herra ihesu christi.

[1]) leiðreittu 351; [2]) [óvart fallið úr 688; [3]) [En þat er 688; [4]) madr, b. v. 173; [5]) oleyfdan 688; [6]) 688; sl. 351; [7]) sua 173; [8]) hrapa 173; [9]) firidæmiliga 688; hér skorið af 173; [10]) firilatandi retta tru b. v. 688; [11]) varazt 688; [12]) sæm b. v. 173; [13]) eda firidæmdr b. v. 173; [14]) sl. 688.

eða af skripta gangi skýlldum hiona bandi ok oðrum helganum heilagrar kirkiu. ok sva allir þeir er einn hueʀ biskup hefir villu menn dæmda j sinu biskups dæmi.

Sa hinn þriðe atburðr ef nockuʀ truer villu manna fortôlum eða tekr [1]) til sin weriandi ok fýlgiandi þeirra mæli. þessir falla j þat sama bann. ok ef nôckuʀ af þersum hafnar at leiðrettaz innan tolf manaða siðan hann werðr boðaðr bannsettr. þa fellr æ hann æfinlig vfrægð. skal hann siðan j eingum lôgskilum [2]) hæfr. ok með eingu moti vitnisbæʀ. fra er hann skildr at þiɢia þat sem nôckuʀ vill honum gefa j sinu testamento. eingi maðr ma skipa hann sinn erfingia. ok eingan arf skal hann taka. æigi skal hann ok mega gera sitt testamentum. æ eingan mann skal hann kæra mega vm nôckur [3]) mæl. en neyðaz skal hann til at suara ôðrum ʀétt [4]). ef hann hefir domandi verit. þa skulu hans domar firir ecki standa. eigu ok eingi mál [at koma vnder hans dom [5]) Hu [6]) ef hann hefer klerkr verit þa skal hann liɢia vnder slikum sômum pinum ok wera aðr af settr ollum vigslu pôllum af sinum biskupi.

[Hinn fiorði er sa [7]) atburðr ef nockuʀ [8]) seger ok fýlger þvi at ʀomaborgar kirkia se æigi hofuð kristninnar ok henni [9]) se æigi hlýðanda.

Sa hinn fimti atburðr ef nôckuʀ leɢr hendr með heipt ok illuilia æ klerk eða klaustramann. þa fellr sa af sialfs sins werki j pafans bann [10]) býðr ok nockuʀ þat oðrum at gera. þa eru baðer j banni sa sem bauð ok hinn sem gerði. ꜱa fellr ok j bann er veita matti wernd klerkinum i sliku tilfelli ok veitti æigi. þat er at skilia þeir menn sem vald eða ýfer skipan hafa til at stiorna oðrum. ok mattu þe[i]r forstoðu veita ok villdu eigi. ᴇitt ofrikit saman ma ok stundum metaz slik sôk þo at æigi se hendr æ mann lagðar. sva sem ef nôckuʀ setr klerk j bônd eða læsir j myrkua stofu. eða oðru varðhalldi þviat eingum leikmanni gefzst sva mikit valld ýfer nockurum klerk ok þvi forðaz sa æigi bannit sem slikt gerir. verðr ok fleiri uega misþyrmt klerkum en skeðia likami þeirra sialfra.

---

[1]) þa, b. v. 173; [2]) logum 688; [3]) nockut 688; [4]) ok, b. v. 688, 173; [5]) {wnndir bann ath koma 173; [6]) Ok 173; [7]) [sa er binn fiordi 688; [8]) óvart fallið úr í 173; [9]) hér endar brotið í 173; [10]) af sialfs sins uerki b. v. 688.

Sa hinn setti atburðr ef veralldliger valldzmenn iarlar stiornarmenn syslumenn [1]) eða aðrer þeir sem þersir skipa j sin storf j borgum eða bæium gera krafer eða vskÿllduligar pÿndingar æ klerka ok kirkiur ok þeirra eigner firi komandi sva valldi ok framkuæmd forstiora heilagrar kirkiu. nema þeir lati af logliga æ minnter. þa viti þeir sik vera j banni ok sva huerr er þeim fÿlgir [til þess [2]). þviat eingar krafer eða þegnskÿlldu mega leikmenn með Réttu leGia æ klerka eða kirkiur. en huerr sem tekr valld epter nockurn þann er sliku hafði fram halldit ok vill hann æigi aftr bæta [3]) innan fursta manaðar. þess hattar [Rangindi eða oftekiur [4]). þess sem þat valld eða starf hafði firi honum þa [5]) fellr hann j sama bann. þviat hann samþÿckir þvi sama sem hann gerði.

J siaunda stað er her skrifaðr [6]) sa atburðr ef menn gera skipaner moti frelsi heilagrar kirkiu. nema þeir hafi innan [tua manaði [7]) siðan er þeim war lÿst tekit þat af sinum bokum ef þær waro ritaðar. eða hallda þeir fram skipanum þo at þeir lutir væri afskafner bokinni [8]). slikt hit sama ok þeir sem Rita þuilikar skipaner ok æigi siðr valldzmenn. Ráðsmenn [9]) ok Rettarar staðanna ef þeir dirfaz at dæma epter þess hattar skipanum. Sua þeir sem þa [10]) doma Rita til staðfestingar. slikt hit sama ok þeir sem warðueita ok lata wið hafa veniur þær sem helldr mega heita oveniur ok vpp hafa tekiz moti frelsi heilagrar kirkiu þa bindaz þessir [11]) aller j bannz atkuæði at guðs lögum. En þat er vitandi at frelsi heilagrar kirkiu stendr saman j þeim priuilegijs sem henni hafa veitt werit ÿfer andligum lutum eða stundligum auðæfum almenniliga eða einsliga. Nu eru sum priuilegia veitt heilagri kirkiu af sialfum guði sva sem vaR lausnari ihesus christus sagði petro postola.

hvat sem þu hefer bundit æ iorðu þa[t] skal vera bundit a himni. ok huat er þu hefer leÿst æ iorðu. þat skal leÿst æ himni.

Sua ok þat at tiunder ok frumforner ok [allt offr heÿra kirkiu til. þat priuilegium er enn af guði veitt heilagri kirkiu. at klerkar eigu valld ok Rað ÿfer hennar eignum ok auðæfum.

---

[1]) sl. 688; [2]) [sl. 688; [3]) leita 688; [4]) [aftekiur eda rangindi 688; [5]) þat 351; [6]) skipad(!) 688; [7]) [tueggia manada 688; [8]) [bokvnvm 688; [9]) radamenn 688; [10]) sl. 688; [11]) þeir 688.

ok hennar forstiorar eigu log skipa af andligum lutum ok hafa þar dom ýfer ok fleira annat þat [1]) sem stendr j hinu nýia logmæli ok hinu forna. af herra pafanum eru ok priuilegia veitt heilagri kirkiu. sua sem þat at sa er j banni af sialfu verkinu sem heiptuga hond leɢr æ lærðan mann. sua þat at tueir vattar vinni þôrf wm testamenta þau ôll sem sælugiafer megu metaz ok morg onnur priuilegia hafa pafarner veitt heilagri kirkiu. þvi at þat megu þeir vel gera af veralldligum lutum sva sem þat er at huerium manni er lofat at leɢia til heilagrar kirkiu foðurleifð sina suma eða alla huart sem hann vill at hon eigniz eptir hans dag eða fýʀ með huerium hætti er hann vill. ok æigi þarf hann nockurn orlofs epter at spýria vm þa giôf. þviat j þeirri giôf er maðr gefr heilagri kirkiu firi sal sinni. er þat hit bezta endimark at ecki endimark se henni sett. ɴu huerr sem motgang veiter þersu frelsi almennilighrar kristni. þa forðaz hann æigi bannz afelli.

Sa[2]) er hinn atti atburðr her skrifaðr[3]) at þeir sem brenna með illuilia heilaga kirkiu eða helga staði eða þau herbergi sem standa innan kirkiugarðz ok þess viðernis sem heilog kirkia æ wernd at veita vmhuerfis sik þa eru þeir bannsetter at guðs logum. ok siðan er þeir hafa boðaðer werit bannsetter [4]) af heilagri kirkiu vm þersa sôk skulu þeir af eingum lausn fa vtan af sialfum pafanum nema j lifs hæska.

Sa er hinn niundi ef nôckuʀ brýtr kirkiu eða ʀæner hana siðan. eða gerir j henni odaðawerk sem er at fara vþýrmiliga[5]) með guðs likama. eða at briota alltari eða kross eða annat slikt.

Hinn tiundi atburðr er sa ef nockuʀ falsar bref herra pafans firi sik eða annan mann þa er sa ok af sialfum lôgunum bannsettr með ollum þeim sem honum veita fulltingi til þess vitandi. eða weria [6]) hans mal. slikt hið sama sa ok sem nyter ser til nockuʀar framkuæmdar falsat pafa bref vitz vitandi þat sem annaʀ maðr feck eða falsaði. en sa sem warðueiter þviat eins skal hann innan tiu daga siðan hann veit falsat firi koma þui brefi. eða fai j þers valld sem vel ma trua til viðrtôku. ef hann vill forðaz bannzins pinu. þat er ok þeim

---

[1]) þess 688; [2]) Suo 688; [3]) skipadur 688; [4]) verid(!) b. v. 688; [5]) osæmiliga 688; [6]) styrkiandi 688.

til viðrhialpar[1]) er ser nýtir ovitandi falsat pafans bref at hann hafi profat sem hann kunni bezst ok gęti æigi sva seint aptrhuarfs at firi þat megi hann sýnaz sannsakaðr.

J ellefta atburð fellr a þa fullkomit bann sem saracenis flýtia til handa væpn eða skip. eða iarn eða geraz skipstiornarmenn þeirra. eða veita þeim nôckurs kyns fullting til agángs. ok vfriðar heilôgu iorsala landi ok kristnu folk.

Tolfti atburður er sa ef nôckurer Ræna Romueria eða aðra kristna kaupmenn þa sem sigla með sinn kaupeyri ser til nýtsemdar ok ôðrum eða dirfaz at taka þa sialfa at herfangi eða Ræna þa fe sem skipbrot hafa þolt. þersir allir falla j bann af sialfum[2]) logunum. nema þeir bæti þat sem þeir brutu. ok gialldi aptr þat sem þeir Ræntu þa er þeir eru lôgliga a minnter.

J þrettanda stað stendr skipan Gregorii papa decimi með huerri hann lagði bann a alla þa sem með nôckuru ofriki eða agangi þrôngua biskupa eða lærða menn til at leysa nockura af bannz atkuæðum eða gefa lærðum monnum aptr embætti eða leýfa tiðagiorð j þeim stôðum sem aðr er hon af tekin.

Sa er hinn fiortandi atburðr at ef leikmenn j huerri stétt sem þeir standa eða hueria tígn sem þeir hafa.[3]) neýða til þess forstiora heilagrar kirkiu capellanos eða aðra klerka at vnder leikmanna valld leGiz heilagra kirkna fasta eignir eða [bæir[4]). þa se þeir bundner j bannz atkuæði. nema þeir gefi allt aptr með frelsi j þeirra valld sem eigu siðan þeir eru lôgliga a minnter þat er þeir hôfðu aðr með ofriki vnder sik dregit. sua at þa kallaðiz formenn heilagrar kirkiu prestar ok personur þat lén af leikmonnum hallda sua sem af sinum ýfer monnum.

a þetta ofan bannsetium wer alla ok serhueria þa sem leita vpp at Reisaz moti vórum virðoligum herra herra .Ꝧ. noregs konungi ok hans Riki. eða með nôckurum illuirkium eða suikræðum vilia firikoma friðinum.

---

[1]) eidhialpar(!) 688; [2]) uerkinu(!) b. v. 688; [3]) at. b. v. 351; [4]) lausar 351.

quæ nichil in se continet honesti, immo per hoc bona monasteriorum irrecuperabiliter distrahuntur, ac quandoque symoniæ ac alia illicita, quasi prætexta paupertatis, committuntur, præcipimus, ut bona monasteriorum, mobilia et immobilia, computentur diligenter et exacte per ipsorum dyocesanos, et certus eorum cujuslibet personarum numerus deputetur per ipsorum prælatos, nullatenus ampliandus, nisi monasteriorum excreverint facultates et dyocesani ad hoc accedat licentia specialis.

Item nos, qui medici censemur animarum, ac de subditorum spirituali salute providere tenemur, summo opere curare debemus ut medicos animarum, i. e. confessores ydoneos, in locis oportunioribus deputemus, qui quotiens per peccati commissionem virus delicti animabus infunditur, totiens parati sint lapsis per spiritualem medicinam i. e. confessionis antidotum salubriter subvenire, unde, cum humana conditio fragilis sit ac semper prona in peccatum, statuimus, ut in singulis cathedralibus ecclesiis sacerdos deputetur, sciens, ydoneus et discretus, qui certo loco, horis competentibus, se in ipsis ecclesiis exhibeat singulis sive volentibus confiteri.

In cujus rei testimonium et evidentiam pleniorem sigilla nostra præsentibus sunt appensa. Datum Asloiæ .ij. nonis Julii, anno domini millesimo .ccc°. sexto.

---

## B.

Ágrip á íslenzku.

AM. 351. Fol. bl. 115a—b skb. c. 1360 (Skálholtsbókin forna); AM. 42A. 8vo bls. 214 skb. c. 1480 (lítið úr); Ny kgl. saml. 1938. 4to á pappír (eptir 351). Prentað í NgL. III, 245 og áðr í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 475—76 með latínskri þýðingu.

Eptir farandi statuta woro giðr ok saman skrifut af agætrar aminningar jorundi ERkibiskupi af niðarosi. erlendi af fæ1reyium. katli af stafangri. helga af óslo. ærna af biörguin jngialldi af hamri lyðbiskupum ok skyllduliga boðin að hallda vm allt niðaróss erkibiskups dæmi j óslo. sub anno domini ᴍ°. ccc°. vj°. pridie nonas julij.

jörundar.

Þat sem i morgum stöðum hefir liotliga fram farit ok skal heðan af með eingu moti þolaz. at nöckuRir Reglu menn taki

konur inn j sin klaustr til systra lifnaðar eða nockurar systr taki karlmenn j sitt siðferði þuers j moti sua goðum siðum sem heilagra feðra setningum.

En með þui at þat hefir langan tima vstefliga til geingit at j bræðra klaustrum ok systra hefir sua werit inn skipat miklum ok vskymsamligum manna fiolda at þeirra goðz hefir þar firir a margan hátt werit vaptrbætiliga brott logat ok vppspent. en simonia ok onnur lyti hafa j stað komit sua sem vndir werndan fatækinnar. þa skal heðan j fra huerr biskup j sinu yfirboði lata ʀæiknaz skiluisliga eignir klaustranna ok setia mater æ huersu margar personur skulu inn takaz j sérhuert þeirra. skal ok su tala með eingu moti fram færaz vtan vaxi peningarnir ok þo með biskups samþycki.

At huerium biskups stoli skal einn prestr skynsamr skipaz til at wera til ʀæiðu j vissum stað æ tilheyriligum timum at heyra skipta mæl huers sem til hans vil ganga. þui at sakir mannligrar vstyrktar er iafnan werðr framlwt i misgiorðina er þat miok nauðsynligt at j huern tima er sælin fleckaz af eitri syndarinnar væri j stað til ʀeiðu lækningar lyf iatningarinnar særunum wið at hialpa með andlegri græðingu.

---

189. 20. Juli [1306 eða 1375]. i Skálholti.

Árnesingaskrá eða almenn samþykt Íslendinga um alsherjar samtök til að vernda landsréttindi Íslands.

IBfél. Nr. 315B. 4to bls. 23 - 24, dóma og bréfabók skrifuð á 17. öld (c. 1680) og stendr næst á undan sendibréfi Norðlendinga 1319 til Hákonar konungs; MSteph. Nr. 62. bl. 168b—69, dómabók kölluð Eyrspennla eða Esphæla skr. c. 1650; MSteph. Nr. 41. 4to bls. 7 skr. c. 1730; MSteph. Nr. 13. 4to bls. 200—203 skr. 1715 «Eptir chartis eigi nog til fullvissu accuratis. þær chartæ minnir mig væri eptir Einar Eyiolfsson ut supra»; Thott. Nr. 2103. 4to aptan við Jónsbók skr. 1589 og þar um, á pappír (brot); Ny kgl. saml. 1945. 4to bl. 197—98 skr. 1666 (ekki tekinn orðamunr úr); Dómabók Jóns Dans í Landsbókasafni BII bl. 130b. (afskr. JSig.); Safn Steph. Eiríkss. Nr. 1. 4to bls. 53 á pappír, og eptir því handriti að mestu er þessi skrá prentuð í Safni til sögu Íslands II, 168 - 69. Eingin af handritunum greina ártal skrárinnar nema 2103 að nokkru leyti (1375, sbr. neðanmáls), en það ruglast ef til vill í ríminu; á spássíu í sínum handritum 13 og 41 hefir Magnús Stephensen sett ártalið 1304, en það er varla rétt. Páll Vídalín nefnir skrána í Fornyrð. 404 og heim-

færir hana til 1300, og á þar auk þess auðsjáanlega við Áshildarmýrarsamþykt 1496. Jón Espólín heimfærir skrána til 1304 (Árb. I, 18). Ártalið 1306 setr Jón Sigurðsson og munu ástæður hans vera þær, að Álfr úr Króki kom út 1305 með þann boðskap, að hver leikmaðr er ætti til fimm hundraða eða meira skyldi gefa konungi alin af hverju hundraði, sem þeir ætti (gjalftollr) og margar aðrar fáheyrðar beiðslur og nýungar hafði hann til Íslands. Norðlendingar gerðu strax svo sterkan aðsúg að honum um sumarið 1305 á Hegranes þingi, að hann hrökk fyrir og dó skömmu síðar. En Sunnlendingar mótmæltu fyrst þessum kröfum 1306, og annálar segja berlega (AM. 415. 4to), að bóndasamþykt hafi verið gerð gegn þeim á alþingi þetta ár, og getr það vel verið sú, sem hér er um að ræða. Þó samkoman sé í Skálholti, er engin mótsönnun því, að þetta sé alþingissamþyktar ígildi, því að alþingi lá til hálfs niðri um þetta leyti og Vestfirðingar og Norðlendingar sóttu það ekki heldr höfðu fjórðungsþing, og má vera að Sunnlendingar hafi gert slíkt hið sama. Það hefir heldr aungva þýðingu þó beiðslur Álfs sé hér ekki nefndar, því að samþyktin er svo alment orðuð og tekr svo gersamlega þvert fyrir allar nýjar álögur, að þess gerðist ekki þörf að nefna þær sér í lagi. Það eru því sterk söguleg rök, sem styðja ártalið 1306, svo að það getr verið rétt. Það eitt virðist helzt mæla móti því, að hér er talað um »konunganna lögteknar réttarhætr», sem fylgi Jónsbók og sé svarnar með henni. Eg hefi ekki þorað að fylgja 2103, af því það gerir ekki meira en hálfkveða að ártalinu og betri handritum skeikar opt í slíku. Af því að öll handritin eru svo ung í samanburði við skrána (þau elztu nál. 300 árum yngri en hún) er hér ekki hirt um að fylgja stafsetningu neins þeirra, en helzti orðamunr er hirtr.

## Árnesingaskrá[1]).

Jn nomine domini amen.

[2])[Var þetta samþykt ok samtal allra beztu manna ok almúga á Íslandi, gert í[3]) Skálholti in translatione sancti Thorlaci.

1. In primis[4]) at menn vilja halda alla þegnskyldu við konungdóminn ok hafa[5]) lög ok landsrétt eptir því, sem vár[6])

[1]) þannig StEiríks. 1. 4to, 13 (á spássín); Islendinga samtök og sáttmáli 315; Jslendinga samtøk 1945; Islendinga sáttmáli við Noregs konga 62; »Skálholts skilmálar» 41; Samþykt nm almúgans gagn og nytsemi BII; [2]) »a sietta og fimtugasta are» b. v. 2103, en þetta er ef til vill eitthvað brjálað, og getr ekki átt við neinn Noregs konnng, nema helzt Magnús Eiríksson, og ætti það að vera 1375, en þá var hann dauðr (1. Dec. 1374) og ætti það að vera frétt til Íslands í Júlí 1375, en þó er þetta ekki víst, því að annálar segja að eingin skip hafi komið til Íslands af Noregi 1375; [3]) [Jslendinga samþýcktt j 315; Var þessi Jslendinga samþycktt 62; [4]) itrekan hins (ɔ: sáttmálans 1302) b. v. 13, StEir. 1. 4to; [5]) so 62, 315; [6]) sl. 62, 315.

landslagabók [váttar, sem hér er svarin[1]) með konunganna lögteknum[2]) rettarbótum.

2. Svá viljum vér ok hafa alla íslenzka lögmenn ok sýslumenn [ok aungvar utanstefningar[3]) um þau mál[4]), sem lögmenn ok sýslumenn fá hér[5]) yfir tekit, [ok eigi[6]) framar rekstr sýslumanna en í löglegan tíma, utan bændr vili[7]) annat, ok eigi þá neina, sem eigi eru fullveðja fyrir þeim völdum, sem koma af Noregi. Ok svá at þat haldist þá lýsi þeir bréfum sínum um sinn á þriggja hreppa þingi í hverjum fjórðungi um alt landit, ok ríði við tíunda mann á sjálfs síns kostnað til hesta ok járna, ok ríði handgeingnir ok bændr ok lögmaðr, ef hann er í nánd, til þeirra þinga[8]) at því betr gangi konungsins réttr at[9]) lögum.

3. Eingar nýungar [eðr álögur[10]) viljum vér [undir gangast[11]) framar en forn þegnskylda[12]) krefr.

4. Um skuldir kaupmanna: leysi hver eyrir annan eptir jafnaði, ef þat brestr sem skilit[13]) er, [eptir því, sem lögmaðr úrskurðar eðr dómr dæmir[14]). Ef kaupmenn gera ólög, þá sé [lögmaðr skyldr ok almúgi[15]) sá sem næstr er til at fylgja þeim, svá at þeir fái rétt eptir lögum, [er mishaldnir eru, áðr burt fara, ok sýslumaðr í því héraði, sem brotit er at. Svá ok at kaupmenn hafi sinn rétt[16]) af landsmönnum eptir dómi [ok lögmanns[17]) úrskurði.

5. Lögmenn viljum vér jafnan hafa hina sömu forfallalaust, ok ekki umskipti á gera, þá eina þó, er í lögréttu eru samþyktir með réttu þingtaki, ef þeir halda hlýðni við [vorn Noregs konung[18]), [ok lög við þegnana[19]). [Kunni þeim ok nökkut at mistakast eðr á at verða, þá vili þeir bæta öll sín brot eptir[20]) beztu manna ráði.

---

[1]) [svarin vottar BII, 2103; vottar 62, 13; [2]) loglegnm 315; [3]) utanstefnnr, 1. 4to, 13; [4]) [oc þan ein mál skuln vtan stefnast 315, 62; [5]) sl. 13, 1. 4to, 315, 62; [6]) [ei vilium vier (hafa edr framar eiga b. v. 62) 315. 62; [7]) samþykki BII, 62, 315, 2103; [8]) þingstefna 62, 315; [9]) eptir 13, 62, 315; [10]) [edr skylldu krofur 315; skylldur ednr krofur 62; [11]) [þannig 62; nnder ganga 315; sl. hin; [12]) laga skyllda 315; [13]) skilt BIl, 13; skilid 315, 62; skylt StEir. 1. 4to, 41; [14]) [sl. 13; eptir þeim úrsknrði, sem lögmaðr gefr 315, 62; [15]) [þannig 315; lögmenn skyldir 62; þá sé almúgi skyldr, hin; [16]) [sl. BII; [17]) [62, 315; eðr, hin; [18]) [41, 62, 315; vorn konnng 1, BII, 13; [19]) [62. 315; og lög meðþegnanna BII; sl. 1, 13; [20]) [1, BlI, 13, 41; oc vilie þeir hlydne giallda firi sijn brot med 315, 62.

6. Svá ok viljum vér eingann þann sýslumann hafa eðr lénsmann í landit, er sýslu leigir, eðr undir nokkrar nýjar álögur geingr, utan þær, sem hér eru lögteknar.

7. Um þá menn, sem óskil gera, ok eigi vilja dóma[1]) halda, takist ok haldist undir rétt rannsak, þar til er þeir lúka eptir lögum peninga eðr refsing.

8. Nú ef nôkkurr rýfr þetta ok úr geingr þessu samtaki[2]) þá sé allir skyldir þeir, er halda, at sjá svá til með þeim, at öðrum verði til viðrsjónar at leiða sik með öðrum góðum mönnum í þvílík samtök ok rjúfa sinn trúnað[3]) við almúgann.

9. [Ef menn kunna styrks við at þurfa af öðrum fjórðungum, þá skulu allir beztu menn skyldugir til at ríða[4]), ok styrkja þá til laga ok réttinda þeir, sem beiddir verða eptir jafnaði uppá réttan reikningskap[5]).

---

## 190. 21. Juli 1306. i Björgvin.

Erlingr Ámundason og Haukr lögmaðr Erlendsson úrskurða jörðina Háfubrekkur á Strandarbarmi í Noregi undir Mikjálsklaustr í Björgvin.

Munklífisbréfabók Add. B. U. H. 98. 4to ed. P. A. Munch Christianiæ 1845 bls. 79—80; Dipl. Norv. xij, Nr. 42.

bref om hauabrekko i strandarbarme ij[6]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edhir hoyra sendir ellingir amundason oc haukir loghmadhir Q[uediu] g[uð]s oc sina herra einar abote at munkalifue i biorgwin kom till okkar optir budhi oc brefui vyrdhuligs herra haconar noregs konunghs oc af annare halfw bardhir slatu swein oc sigridh kona hans oc kerdhe bardhir af hendi konu sinnar at herra eirikr abote oc stadharen at munklifui hafdhe tækit aflogleigha vndir sek iordh þa er hauabrekka heitir i strandarbarme er

---

[1]) log 62, 315; [2]) samtali 1, 13; [3]) trúskap 315, 62, BII, 13; [4]) með b. v. 315; [5]) [Jtem ef menn þurfa styrcks wid wr audrum fiordungum. þa skulu allir bestu menn skylldugir til at ryda med 62; [6]) Er annað bréf í röðinni undir H.

hann sagdhe at sigridh husprøya hans atte at erfua eftir þoro modhir sina oc sigridh systir henna oc baud þar fram ij manna vithni at þora atte a þvi are iardena er hon andadist oc af þvi at vitnin kunno eighe at greina medh hueriom hætte er hon atte nema hon hafdhe sakt þeim at hon atte. þa leidde herra abote fram kolbein muuzsu oc astriid siguallda dottir firir herra þorualld þoresson herra auþda olafsson sira berghi korsbrodhir a crist kirkiu i biorgwin oc okkor oc margha adhra godha men oc sworo fullan bokar [eidh] at þau varo þar i hia oc sa oc hørdhu at þora styrkaars kona oc sigrid systir hennar helldo j hand herra eiriki abota a þui første hausti er þora kom till prouento sinnar til munklifuis at þora oc systir hennar gafw i uald fyrra nempda iardh herra eiriki abota oc stadenom at munklifui til euenlighrar eignar. sua þo at þar firir skilde herra abote oc stadharen klædha sigridhe æ mædhan hon lifdhi af þui at hon var synlaus þa er hon kom til munklifuis oc af þui at bardhir hafdhe engi loghligh moti kost þessom vitnom þa dømdom wer stadenom at munklifui fyrra sagdha iardh frialsa firir huariom manne þar till er hon verdhir loghlegha brigdhaþ vndan stadhenom. Oc till sanz vitnisburdhar settom veer var incigle firir þetta bref er gort var marie messo aftan magdalene i biorgwin a vij are vars vyrdhulegs herra hakonar noregs konungh hins koronadha.

---

191. [1306].

MÁLDAGI Gilsbakkakirkju [er Árni biskup Helgason setti].

AMagn. Dipl. afskr. Nr. 2170, tvær afskriptir «eptir fornre kalfskinnskra, sem tilheyrer Gilsbackakirkiu», «skriften er ecki gömul eigi elldri enn 1560. og líkast yngri, kanske circa 1600. Enn er oefad uppskrifad eptir gomlu». Önnur afskriptin er staðfest 8. Júní 1711 í Reykholti af Árna Magnússyni og tveimr öðrum, og er hér prentað eptir henni. Hin er frá séra Jóni Eyjólfssyni á Gilsbakka og líklega með hans hendi. «Skrifad efter gömlu Brefi (þo læselegu) er liggur a Gilsbacka» (J. E.), «Communicavit Dnus Jonas Eyolfi sacerdos Gilsbackensis» (AM.). Árfærsla þessa máldaga er getgáta Jóns Sigurðssonar.

Gude er helgut Gilzbacka kirkia og Mariu drottningu Michaele Gudz Eingle og Nicholao Erchibyskupe: er allann þennann stad a med Gude:

Heimaland allt a kirkia og lambatungur: og skog j husafellshraun allann firi nedan hagagard. og allt vpp a millum huijtar og dôgurdar ar: allt vpp til gautu þeirrar er liggur fra husafelli og til tungu hinnar litlu vppe hia amote: og skoga alla firi nordan fliot þat er fellur næst tungu og vpp ad hafa hraune gagnvart seliatungu: fiskveide j vlfs vatni ad helminge oc j langa: Skamma vlfs vatza: og j flodlæk oc j austurlæk. Grunnavôtn aull og lamba allt ofan til kiararar: Gasatiarnir fyrir hiedan lamba: og aull vôtn vestur þadan. kuijsla vatn og Reida tiôrn og allar þær tiarner er þangat falla læker wr: Alptveide alla firi vestan Gnupdæla gôtu til huannstodz ens myckla: sionhending fra huannstodenu og j floa enn Eysta[1]): Ein tiôrn nordur fra austur floa: vestur floi nordast. alptveide a floa huorutueggia og ej fiskveide: Aull vôthn firi sunnan a þa er fellur wr vesturfloa oc ofan j brattagil fra brattaGile med hrutafiardardal til nordurardals: med nordurardal sunnan til daugurdar Eyia og Gijslavathn nedast[2]) firi sunnan nordurardal: Tiarner allar j hellisdal: þuerarvôtn og tiarner allar j lambadal. laxveide j Glennrar fosse j nordrardal: oc alptveide a breidavatne: holltavaurduvatn og Reipavatn a hrutafiardar heide og alptveide a huoru tueggia: laxveide kiararar ofan ad grof þeirre er vt er fra Sele haukagilsmanna vt fra merkigrof og til fiskelækiar: vidarRif j selia lande samstadamanna: hualReka allan a BordEyre. halfann a kollä: xij vættir j tuijtugum hual oc meira a hrexstôdum a midfiardar nese:

Þar fylgia kyr xij og gradungur xiij[ai] og lxxxx asaudar. hrutur tuęvetr forustu saudur: alptueida skip og hestur eirn. iiij[c] j Busgagne og husbuninge. þar fylgia v manna messufaut: oc diakns messufaut: iij gudvefiar hôklar. og fustans hôkull og lierepts hôkull enn fimmte: kantara kapa af guduef og ônnur vefiar kapa: enn þridia fustans kapa: silfr kaleikar ij: sloppar iiij. og allar tijda bôkur[3]): Tiôld vmhuerfis j kirkiu. kluckur v. tuennar samhringiur. vti klucka oc Biôllur ij. tuô glodarker og Eldbere. kertistikur iiij[r]. og kirkiu Ɱunnlaug. og Gluggur eirn. og messu fata kistur tuær:

---

[1]) þannig báðar afskrr.; [2]) þannig báðar, og eins Vilchinsb.; [3]) báðar afskrr. hafa: bodur(!).

192. [1306].

Máldagi Maríukirkju á Sæbóli, [er Árni biskup Helgason setti].

AM. 260. Fol. bls. 86 (clxvj í Vilchinsbók); AM. 259. Fol. bls. 81; AM. 256. 4to bl. 36 skb. skr. c. 1640.

Sæbol.

Mariu kirkia a Sæboli. hins heilaga Jons postola. Magni. Thorlaci og Katerinæ a land vnder Halsi oc attung j Geirsbrecku j Suganda firdi og skogum þeim sem þar fylgia þui landi.

þar skal vera æfinnliga prestskylld vist og lukast presti iij merkur i tijdakaup a huerium xij manudum.

þangad skulu leggiast tiunder oc lysitollar oc groptur af ollum bæium millum þvfu oc Rafnaskálar gnvps utann firi Alfadal.

tekst heima manna tiund heima oc lysitollur.

þar er leyfdur heima manna grǿptur og fatækra manna tiund þeirra sem þar andast.

þar skal syngia annan huern dag helgan oc allar tijder Nichulas messo enn sijdar Mariumessur allar. allra heilagra messo oc næsta dag epter.

þar skal giallda presti ij merkur.

enn til Bænhvs a Brecku skipadi herra Arni biskup Helgason ad sýngia sijdar Jonsmesso baptistæ petursmesso. Olafsmesso.

A Sæboli skal vera biskupsgisting hvern tijma er hann fer vmm westfiordu.

þar skal hallda heilagt vmm oll þing a Sandi Magnusmesso firir Jol oc giefast leyfi þuilijkt sem Andresmesso eda Nichulasmesso.

---

193. [1307].

Máldagi Maríukirkju í Krýsuvík [er Árni biskup Helgason setti].

AM. 260. Fol. bls. 48; AM. 259. Fol. bls. 45; AM. 256. 4to bl. 20 skb. c. 1640.

Stendr hér sem fyrsti partr Krýsuvíkrmáldaga í Vilchinsbók;

þar eptir kemr klausa frá tíma Oddgeirs biskups 1375, en síðust er klausa um visitatíu Vichins 1395 (Vilchinsbók xcviij). Að Árni biskup hafi visiterað þar syðra einmitt 1307 má ráða af vitnisburði Þorbjarnar Högnasonar frá 13. Maí 1367. Máldaginn er að aðalefninu eldri en frá tíð Árna Helgasonar og líklega frá sama tíma og rekaskrá Strandarkirkju eða hér um bil 1275 (sbr. Dipl. Isl. II, Nr. 56), en eins og hann liggr hér fyrir er sízt fjarri að heimfæra hann svo sem hér er gert.

## Krysuvijk.

Mariu kirkia j krysuvijk a heimaland allt. Herdysarvijk. ix. mæla land a þorkotlustodum. Halfan hvalreka j Raunnesi millum Rangagiðgurs oc marks vid Bedstædinga[1]) oc eingia grasnautn med. þria hlute hvals enn Videyingar fiordung. Enn fra Migandi grof til kirkiu fiðru eiga stader j Skalhollti oc Krysuvijk helming hvals oc vidar oc alla grasnautn. Krysuvijk a allann reka a kirkiufiðru. Enn fra kirkiufiðru oc til marks vid Herdijsarvijk halfann hval oc vidreka oc alla grasnautn. Enn j Herdijsarvijk a stadurinn j Skalhollti helming vidar vid Krysuvijk. þridiung hvalreka eigu stader bader samann til marks vid Strandarmenn. enn fiordung hvals vid Strandarmenn til Vogs. Halfann tolfttung hvals a Krysuvijk j Strandar hluta.

Ein messuklædi. kaleik. smelltann kross. Mariuskriptt. kantara kapa. kluckur .ij. biollur .ij. glodarkier. alltaraklædi .iij. kross steindur. sacrarium. mvnnlaug. paxspialld. vij. kyr. xvj. ær oc xx. iij. hross. kugilldi. viij^c. j metfie. iij. merkur vax. c. vadmala. Jtem .iiij. ær.

---

194. [1307].

Vitnisburðr þriggja manna um reka staðarins í Görðum á Álptanesi fyrir Grindavík.

Afskriptasafn AMagn. Nr. 1862 »Ex apographo Gardensi« (AM.), sem eiginlega er transskript frá 1600, og hljóðar svo: »Utskrift af einu Gomlu vitnisburdar brefe. Anno 1600 ä Gordum ä Alftanese. svo latande bref framm borid» [hér kemr bréfið]. »(Underskrifud nofn) Oddur Einarsson meh. Olafur Jonsson eh.» Ártal bréfsins er ekki alveg víst. Séra Jón Þórðarson er orðinn prestr í

---

[1]) = Bessastaðamenn.

Görðnm um 1322 samkvæmt Prestatali og er þar talinn að deyja 1369, en það er naumast rétt, og er þar víst í annálum átt við annan mann; séra Jón hefir um 1322 líklega verið búinn að vera leingi prestr í Görðnm. Ormr Einarsson er nefndr í gjörð Árna biskups og herra Ásgríms um 1284. Herra Haukr er Haukr lögmaðr Erlendsson. Hann er fyrst nefndr herra 1306 (Jón Þorkelsson: Nokkur blöð úr Hauksbók Rvík 1864 bls. xvi). Frá 22. Júlí 1306 til 1308 er hann á Íslandi (sama rit bls. viii) og mun á því tímabili hafa búið á Strönd eða Nesi í Selvogi (Jón Sigurðsson: Safn II, 47) og er líklegt hann hafi þá haft sýslu um Suðrnes; er því bréfið hér sett miðja vega á það tímabil.

In primis. Svofelldan vitnisburd baru þesser menn er svo heita. Ormur Einarsson. Teitur Glumsson. Sigurdur Asgeirsson. ad stadur j Gördum ä Alftanese ætte allann vidreka og hvalreka fra Rangagiögre og [i] Leitu kvenna bäsa. ad kalftiorninga fioru. soru [þeir] hier epter fullan bokar eid fyrer herra Hauke. er þa hafde syslu. En þordur sonur sijra Jons þordarsonar hafde umbod födur sins og krafde hier um rettar. Enn þar komu ä land niu hafurhvaler og höfum vier alldrei annad heyrt enn Gardar ætti ein[ir] vid sig. og vorir fedur sogdu oss so. ad þeir hefdu alldrei annad heyrt. og biuggu þeir langa æfe j Grindavik. Einar. Asgeir og Glumur[1]).

---

## 195. 22. Juni 1308. i Björgvin.

Bréf Árna biskups í Björgvín til Árna biskups Helgasonar í Skálholti, þar sem hann þakkar fyrir gjafir og meðal annars getr þess að hann sendi Árna Skálholtsbiskupi gjafir.

Bréfið er hér prentað eptir afskript með hendi Árna Magnússonar AM. Dipl. afskrr. Nr. 5847. Áðr er bréfið prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 59—60 (sýnist vera prentað eptir sama handriti og hér) og Dipl. Norv. II, 78 Nr. 91 eptir afskript í Barth. IV (E) 337—38 af glataðri bréfabók frá Björgvín.

Virðulegom herra ok andalegom brödr sinum herra Arna med guðs miskunn biskupi j Skalholte. sendir A[rni][2]) med

---

[1]) »hier vantar dag og datum», skr. AM. við; [2]) A(audfinnr) Hist. Eccl.

samre miskunn biskup .j. biorgwin. q[veðju] G[uðs] ok sina brodorlega ælsku.

Guð þakke ẏdr. herra. fagra sending ok sômelega. er þer sendur til var með pale suæini ẏdrum. kom þat allt hæilt ok haldet til var. eftir þui sem bref ẏdart sagde. kennumzst ver vid os skylduga vera firi þenna [1]) goduilia ok allann annann. er þer hafed os teet. ẏdr ok hæilagre kirkiu j skalholte til hæilla rada. eftir kunostu ok viti. ero os þo[2]) þau malemni. er þer gatod j brefe ẏdru. eigi so kunigh. at ver megem nokor endelegh ansuor til gefa. þo at ver hafem þar oftt hǫyrtt vm talat. kann þat oft æinum manne þikkia liost firi liggia er malet er kunight. þat sem odrum sẏnist bæde vant ok vafuet þæim sem malemninn ero okunigh. En þat sẏnist os liost firi liggia. at þar æigi profazst huer maldage sem hann hefir vppruna ok hann gerezst. ẏdr se ok kunigt vm þess agæta manz frafall. virdulegs herra. godrar miningar. Erlenns biskups j færæẏgum[3]) er andadezst j biorgwin jdibus Iunii[4]). mege þer þa skra lata hans artidar dagh ef ẏdr sẏnizst. Tidendi ero þau j lande varo at þar hæfer til mikillar oroar. vttan gud snui a betri læid. Sendu ver ẏdr litla aminning. eit stykki klædess. æina peteam af silki. iij. pund vax. ok halfa lest biorss. bidiande at þer firilitid ei þessa sending. þui at annann tima skal vm betra þægar gud lofar. bidium ver ẏdr at þer ritid til vaar kunlegha vm þa luti er ẏdr taka ok kirkiu ẏdra. Scriptum Bergis .x°. kalendas Iulii. anno domini. ↀ°. ccc°. viii.

---

196. [1309].

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um skyldur og réttindi klerka.

Þessi réttarbót er ekki upphaflega ætluð Íslandi, en Magnús konungr Eiríksson skipar hana í lög með rèttarbót einni (NgL. III, 194). Hér er prentað eptir AM. 350. Fol. bls. 156–58 skb. skr. 1363 (= F í NgL.); og borið saman við AM. 158A. 4to bls. 118—119 skb. skr. c. 1420 (Hlíðarendabók; ekki notuð í NgL.), en

[1]) ydarn, b. v. Dipl. Norv., [2]) sl. Dipl. Norv.; [3]) Færæyium, Dipl. Norv.; [4]) = 13. Júní.

kveðja og árfærsla er tekin eptir AM. 136. 4to bls. 289—90 skb. c. 1480 (Skinnastaðabók), og er árfærsla ekki í neinu öðru handriti, og er réttarbótin þó til í mörgum og flestum íslenzkum; hirðum vér eigi að telja þau upp hér, því að þessi réttarbót mun verða prentuð annarstaðar með samanburði allra handrita. Sum handrit (t. a. m. AM. 128. 4to frá c. 1490) hnýta framan við þessa réttarbót allri réttarbótinni frá 28. Júlí 1316 (sbr. NgL. III. 82), og af því mun það koma, að sumir (Magnús Stephensen í MSteph. 13. 4to bls. 255) hafa viljað heimfæra þessa réttarbót til 1316. Réttarbótin segist vera samþykt, og því eflaust lögtekin á þingi í Noregi og er þá, ef til vill, helzt frá vorinu 1309. Prentuð er hún áðr í F. Joh. Hist. Eccl. I, 419—22, NgL. III, 81—85, en á dönsku í Jonsbogen 1763 bls. 391—94 og hjá Paus II, 197.

Her segir hvern hatt syslvmenn skolu hafa[1]).

[Hakon med gvds myskunn son magnus konungs noregs kongur et cetera[2]).

Þenna hátt hæfir syslumonnum uarum ok logmonnum at [hafa ok dýɢiliga at hallda ok geýma[3]) til upphalldz ʀettinda þegnanna. ok annaʀa undirmanna [uirduligs herra hakonar[4]) ɴoregs konungs[5]).

Furst[6]) at engar sektir leɢiz æ þa framaʀ enn [lǫg uatta ok adrar nyiar ælogur[7]). huarki fur forbodan ne taksetningar. eðr stefnur er þeir[8]) gera i lýsingum eðr bruðlaups gorðum. framaʀ[9]) enn greint er.

[Sua ok um[10]) skipanir þær sem menn gera æ siðarstum dogum sinum. huart sem gert er kirkium eðr klaustrum eðr oðrum. skolo æigi framaʀ halldaz enn logbok uattar.

Landuarnar segl ok reiða skal i kirkiu leggia[11]). sem forn uani hefir æ uerit.

Erfa skolo leikmenn presta ok klerka at ǫllu eptir fornum uanda.

Leiðangr skolo ok allir[12]) gera eptir iarðar hǫfn [ok fear magni. sem lǫg uatta[13]).

Fatækra manna fiorðungr skal takaz af ollum tiundum. ok skiptaz sem [at fornu hefir uerit[14]).

---

[1]) 158; [2]) [136; vantar í flest önnur; [3]) [hallda oc innvirdvliga eptir at sia 158; [4]) bætt við samkv. AM. 94. 4to og 102. 4to (sbr. NgL. III, 82); [5]) [j noregs konungs Riki 158; [6]) sl. 158; [7]) [forn kristindoms rettr vattar 158; [8]) menn 158; [9]) meir b. v. 158; [10]) [sl. 158; [11]) heingia 158; [12]) menn b. v. 158; [13]) [sl. 158; [14]) [tornt hefir(!) 158.

Klerka sueinar allir skolo bua[1]) undir[2]) slikri lýðskýlldu við konungdominn sem aðrir konungs þegnar [ganga undir[3]) bæði at sektum ok soknum. skøttum ok skylldum. ok ǫllum ælogum[4]). utan sua margir sem lofaðir ero biskupum. Er[5]) furst c. manna erchibiskupi. þeir sem hann uill hafa til nefnt. er frealsir skolo uera af leiðangrs gerð. Skutilsueinar til iij[ia]. nefia. ok huerr huskarl til ij[ia]. nefia. skolo þeir frealsir af leiðangrs gerðum. ok nefningum ollum uið konung. ok sua skipdráttum. Slikar sømu rettarbøtr skolo ok hafa xl.[6]) manna huers lioðbiskups innan landz. [þeir sem sealfir biskuparnir uilia. ok þeir hafa til nefnt[7]). Enn ef menn erchibiskups beriaz i hans hiaueru sin æmillum. i gardi hans eðr æ skipi. [eðr æ[8]) øðrum ij. skipum. þa skal þa sekt eiga halfa konungr. enn halfa erchibiskup. utan manndrap. ok lima lat. þa æ konungr einn saman. Enn þar sem erchibiskups menn beriaz utan hans hiaveru við aðra menn. eðr [sin æmilli[9]) þa æ erchibiskup ongua sekt æ þui. en ønguar sektir ero oðrum biskupum iataðar huarki ýfir sinum monnum ne oðrum utan þær einar. sem forn cristinn rettr uattar. skolo ok furr nefndir erchibiskups menn eðr annara biskupa. þui at eins niota fur nefndra[10]) rettarbota. at þeir se allir ænefndir i einu brefi at huerium biskups stoli.

Einkannliga er ok fur boðit at iata profostum. eðr þeirra umboðsmonnum. nockura almenniliga tolla.

Fyrirboðit er ok ǫllum monnum. at gefa[11]) fyrir kirkiugrǫpt. barnskirn. olean. ok uars herra likam. eðr aðra þilika luti andliga nema þat sem með Guðs[12]) uilia uill huerr gert hafa. þuiat prestar ero skýldir at ueita monnum þilika luti vkeýpis[13]).

Sua ok þeir menn sem forellrar þeirra hafa latit upp gera kapellur. ok sialfir bændr hafa nockurn kost til lagt. ser til tiða halldz eðr annars heilags[14]) embættis. ok uili biskup æigi

---

[1]) vera 158; [2]) allri b. v. 158; [3]) [sl. 158; [4]) þuilikum sem adrir konungs þegnar ganga vndir b. v. 158; [5]) þar b. v. 158; [6]) lx, 158; [7]) [sl. 158; [8]) [med 158; [9]) [adra menn(!) 350; [10]) greina edr b. v. 158; [11]) til kirkiv b. v. 158; [12]) godvm 158; [13]) svo þo at þeir geri kvnnigt at þeir krefi med skynsemd. þvilika skylldu b. 158; [14]) sl. 158.

prest til fæ sem forn vandi hefir œ uerit. þa syniz æigi skynsamligt. at menn missi tiðanna. enn [greiða þo sitt ut[1]).

Nu ef profastar eðr þeirra umboðsmenn ganga [æ þersa[2]) luti sem nu ero taldir. ok þrôngua konungs þegnum með banni. eðr[3]) harðindum. at ganga undir sektir. eðr[4]) aðrar nýiar ælogur. þær sem þeir hafa æigi furr undir huit. þa skal lôgmaðr eðr sýslumaðr. huarn sem bôndr krefia furr til. skylldugr til uera at fýlgia bondum til rettra laga. ok fornra. Hefir ok profastr rettar sakir æ bondum. þa skolo þeir [skylldir til at gera þeim rett[5]). Enn ef sua syniz at þeir[6]) gangi rangliga a[7]) þegna uára. ok þeir uili með ôngu moti hlita þeirra fortôlum. helldr at þeir þrôngua bondum[8]) með banni eðr oðrum þýngslum at ganga undir þeirra ælogur. þa er os þat oliuft. at sa nioti rettenda. er oðrum[9]) uill ecki rett unna[10]). Skal þa lǫgmaðr eðr sýslumaðr segia profostum eða þeirra umboðsmonnum. at þeir munu [eingi rettindi gera þeim[11]) nema þeir [se rettir uið aðra menn[12]).

Nu ef logmenn eðr syslumenn. uerða at þi sannir. at þeir uilia æigi hallda konungs þegna til réttinda. þa uiti sannliga at þeir skolo missa konungs[13]) uinattu ok [þo lettliga[14]). þionustunnar með. Enn ef lôgmenn. eðr sýslumenn uarir finna at profastar. eðr þeirra umboðsmenn kennaz æigi við þat. sem furr var[15]) sagt. ef þeir ero[16]) a mintir. þa skolo þeir furbioða ollum monnum. sua konum sem kôilum at vinna fur þeim eðr at leiga eignir þeirra hus eðr iarðir. [fýrr enn þeir hallda þessa vora skipun eptir lavgvm.

Var þetta uort bref giort oc vpplesit [oc] samþýgt af almuganum a tiunda are vors Rikis[17]).

---

197. 5. April 1309. i Björgvin.

«Petter Andres sun» riddari, «Audun þorbergs sun», síðar

---

[1]) lvki kaup sem adr, 158; [2]) [j þa, 158; [3]) odrum b. v. 158; [4]) nyivngar edr b. v. 158; [5]) [skyllda bændr til rett at gera 158; [6]) profastar 158; [7]) bændr edr b. v. 158; [8]) bændr 158; [9]) adr 158; [10]) gera 158; [11]) [eigi laga niota 158; [12]) [vili ǫdrvm rett gera 158; [13]) varrar 158; [14]) [suo 158; [15]) fra, b. v. 158, [16]) vel b. v. 158; [17]) [finst einungis í 136.

biskup á Hólum, «Lodin a Bakka ok Sigurdr Jons sun» votta, að þeir hafi séð og yfirlesið bréf virðulegs herra Hákonar konungs «heiltt ok oskafett med hangangde insigli» um árás Svía á Jamtaland og útboð þaðan til landvarnar; var konungsbréfið «gortt i Biærgwin lugardagen nesta efttir paskauiku. a tiunda are rikis vars».

(Dipl. Norv. I Nr. 121 eptir frumbr. í Leyndarskjalasafni Dana).

---

198. 18. September 1309. i Björgvin.

Vitnisburðr um tíundarskyldu «af þydiskum vætrsetum» í Björgvin leiddr af Arna biskupi í Björgvin «a þui are er liðit var fra burðar tið vars herra Jesu Christi þushundrað vættra þriu hundrað vættra ok niu vetr, þorsdaghen nesta æftir krossmæsso vm haustit» ..... «varo hia þæsse framfærð ok hæyrðu er þæsse vithni varo boren firir herra Arna biskupi .... þæsser mænn af raðe mins herra konongsens .... herra Haukr logmadr Erlændz son .... er sin insigligi sættu firir þætta bref er gort var i Bergwin a fyrnæmdum degi oc are».

(Dipl. Norv. I, Nr. 122 eptir frumbr. í AM. Dipl. Norv. Fasc. xxij, 2).

---

199. 26. December 1309. i Túnsbergi.

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um að sýslumenn og umboðsmenn þeirra geri rétt.

Þó þessi réttarbót gæti átt við á Íslandi, er hún þó varla sérstaklega ætluð því í fyrstu. En upp í þetta safn er hún tekin af því að hún er til í fjölda af Jónsbókarhandritum og hefir fylgt öllum Jónsbókarútgáfum. Hér er hún prentuð eptir hinu elzta íslenzka handriti, sem til er af henni, en það er Skarðsbók: AM. 350. Fol. bl. 75a, sem skr. er 1363 (= H í NgL.). En til er hún að minsta kosti í þessum: AM. 345. Fol. bls. 150—51 skb. c. 1570; AM. 128. 4to bl. 159—60 skb. c. 1490; AM. 132. 4to bls. 140 skb. c. 1430 (hér stendr að hún sé gerð «á nitianda ari»);

AM. 138. 4to skb. c. 1500 (= K í NgL.); AM. 147. 4to bls. 189—90 skb. þetta skr. c. 1600; AM. 157B. 4to bls. 47—48 skb. c. 1460; AM. 158A. 4to bls. 120-21 skb. c. 1420; AM. 161. 4to bls. 251 skb. 1561-65; AM. 175C. 4to bls. 32 skb. c. 1400; AM. 197. 4to bl. 36b á pappír með hendi séra Jóns í Villingaholti; AM. 200. 4to bl. 15 á pappír c. 1700; AM, 37. 8vo bls. 265—66 skb. c. 1500; AM. 40. 8vo bls. 378—79 skb. c. 1560; AM. 45. 8vo bls. 66—68 skb. c. 1570; AM. 55. 8vo bls. 57—58 skb. c. 1580; AM. 60. 8vo bl. 60b—61b á pappír c. 1690; AM. 456. 12mo bls. 56—58 skb. c. 1480; AM. 458. 12mo bls. 60—61 skb. c. 1570; MSteph. 13 4to bls. 221—22 á pappír skr. 1715 (eptir Frostuþingsbók); MSteph. 41. 4to á pappír frá c. 1720—30; MSteph. 48. 4to bl. 6b á pappír skr. 1669; Gl. kgl. saml. 1159. Fol. á pappír c. 1650; Gl. kgl. s. 3274A. 4to á pappír c. 1620; Ny kgl. s. 1911. 4to bls. 234-36 á pappír c. 1750; Ny kgl. s. 1924. 4to bl. 52b skb. c. 1540—50; Ny kgl. s. 1933. bl. 98—99 skb. c. 1600; Ny kgl. s. 341. 8vo skb. 1656—58; Thott. 2097. 4to skb. c. 1650; Thott. 2100. 4to skb. skr. 1581; Thott. 2101. 4to skb. c. 1490 (hér sögð útgefin »á xij. ári»); Thott. 2106. 4to bls. 255—56 á pappír c. 1750; Uldall. 320. 4to á pappír skr. 1603; Uldall. 322. 4to skb. c. 1570 (hér sögð útgefin »á níunda ári»); Stockh. C8. 4to skb. 1608 (1548?; = R í NgL.); Delagard. 9. 4to skb. c. 1580 (= N í NgL.); IBfél. 125A. 4to bl. 112 (brot) á pappír c. 1680; IBfél. 60. 8vo á pappír skr. 1595—1604; IBfél. 122. 8vo á pappír c. 1660; IBfél. 631. 8vo bls. 155 skr. 1706. Réttarbótin er eins og áðr er getið prentuð í öllum útgáfum Jónsbókar (1578, 1580, 1582, 1707, 1709, 1858) og í Norges gl. Love III, 86—88. Á dönsku er hún prentuð hjá Paus II, 193, og í Jonsbogen 1763 bls. 370—71.

R[ettar] B[ot] H[akonar] K[onungs].

Hakon með Guðs miskunn noreghs konungr [son Magnus konungs sendir ollum monnum þeim sem þetta bref sea eðr hæyra queðiu guðs ok sina[1]).

Margir menn hafa kiert fur oss um þann orskurð sem logmaðr segir manna i millum. ok domar þeir sem dæmdir ero. at engin rettr geriz æ. þo at kiert se fur syslumonnum. eðr þeirra umboðsmonnum. utan þeim se giafir gefnar. Ok af þui at oss byriar þilika luti með ongu moti þolaz lata. þa uilium uer at allir menn uiti. at þar sem sæ er malit uarðar ok logskilat er. eðr dømdr er domr til handa. kierir sik fur uarum syslumonnum. eðr þeirra lensmonnum. ok biðia ser rett gôra.

[1]) [et cetera 350; bætt við samkv. NgL. III, 86.

ok fa engan. þa fur bioðum uęr uarum syslumonnum ok þeirra lénsmonnum at sækia uara þegna um þann sakar eyri. er uęr höfum þeim ueittan. furr enn þeir hafa rett gert. þeim er sik kięrði logliga fẏrir þeim. ok þers uán eiga ofan æ. at uęr faim þeim vára foðrleifð i hendr. er Rett uilia gora. þeim monnum er sik kięra logliga.

Hueruitna þar sem logmanni ok oðrum skẏnsǫmum monnum litz. at syslumenn eðr þeirra lens menn taka rangliga peninga manna. utan lǫgligra sokna. ok kunni einnhuerr sua fákunnigr at uerða eðr fasuinnr. þa uilium uer at þeir sæki ǫnguan Rett. furr enn þeir hafa Rett gert. þeim er þeir toko fur aflaga. eptir lǫgmanz Raði ok annaRa goðra manna.

Var þetta bref gert i tunsbergi. a annan d[ag] iola. a xjta. ári Rikis vars. [Herra Ake kanceler uar insiglade. þorgeir klærkr Tofuason ritade[1]).

---

## 200. [um 1310].

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um héraðsfleyg mál.

Það er alveg óvíst um ártal þessarar réttarbótar, en hitt er vísara, að hún mun stafa frá Hákoni hálegg, og er hún því hér sett miðjavega á tímabili ríkisstjórnar hans. Hún þekkist nú ekki að því mér er kunnugt í annari mynd en hér kemr fram, og lítt hefir hún verið kunnug. Þó hafa verið dæmdir eptir henni dómar á Íslandi bæði í héraði og á alþingi. Í tólf manna dómi «um bygðar rymt» útnefndum af Þorvaldi Björnssyni á Torfustöðum í Miðfirði miðvikudaginn næstan fyrir trinitatis 1569 eða 1570 er vitnað í þessa réttarbót og hún tekin upp í dóminn alveg í sömu mynd sem hér: «stendr svo í réttarbót virðulegs herra Hákonar konungs: Ef nokkurt stórmæli — að ósekju uppbera. Í sama máta stendr svo í kirkjunnar lögum, þar sem biskups ármaðr skal þing stefna í fjórðu grein: Tylftareiðr skal standa um öll óbótamál». (IBfél. 125A. 4to bl. 46b; IBfél. 125B. 4to nr. 208; IBfél. 315B. 4to bls. 61). Í alþingisbókinni 1695 Nr. 5 er getið þessarar rettarbótar, þar sem er að ræða «um stórmæli bygðarfleyg» á þessa leið: «Réttarbót Hákonar kongs, eptir hverri hér á Öxarárþingi hefr fyrrum verið stórmæla rigti undirbuið o. s. frv.» og er svo réttarbótin tilfærð í þeirri mynd sem hún er hér (MSteph. 13. 4to bls. 273). En þau kirkjulög sem héraðsdómrinn á við, mun vera grein ein, sem svipar

---

[1]) [bætt við samkv. NgL. III, 88, nóta 3—8.

til 27. kap. í Borgarþingskristinrétti NgL. II, 306. og er til í nokkrum íslenzkum handritum, en er þó nokkuð á annan hátt, og er tvennslags. Sú sem hér er kölluð *II*, nefnir réttarbótina.

I, (AM. 458. 12mo bls. 101—102 skb. c. 1570; AM. 199. 4to bls. 77—78 á pappír frá c. 1670; IBfél. 125B. 4to nr. 118 frá 17. öld).

vm býgdar Rýmt j hieradi.

Ef þau mal eru giord j hieradi sem biskups riettur er æ. þa skal umbodzmadur biskups stefna þing j hieradi. enn huer bondi skylldr at sækia þat þing.

Nu er þing sett. þa skal biskups armadur upp standa. oc tala suo. ec hefi. heýrt þat hier i hieradi oc býgdum at. N. N. hafi misgiort þat sem biskups sok er æ ok heilagrar kirkiu. nefne mannen a nafn. oc suo huer soken er.

Nu ef þier hafit þat mãl fýrre heyrt vil ec þat vita.

En ef fiordungur hieradzmanna þeirra a þinge eru. kuedst þat heýrt hafa. þa heitir þat bygdar fleykt at logum. þa ma biskups armadr sækia þat mal til Rietar sliks sem vid liggr at logvm.

Stendur lyritareidur vm merkur[1]) mal edur þau minne erv. enn þegar mal er meira en þriggia marka mãl. þa er halfrietis eidur. En fullriettis eidur firi obota mal huert. En ef færri knedast heyrt hafa. þat mal en fiordungur þingmanna. þa fellur þat nidur oc ma hann þat eci sækia.

hvad Riett heimelis kuidar vitne erv.

Ef heimelis kuidar uitne þarf vid þar sem þau skipaz til. þa skulu þat vera jnan þings men og þat vera j eidstaf. at ec skýt þvi til gvdz at eg hefi þetta heýrt. oc þat hefr flotit um þria bæi. edur fleire. en eigi veit ec hvad satt er. skal eirn sveria. enn. ij sanna. edur iij. en hinn sýnie firir ef hann ueit sic logen uera. elligar sie profad hieradzþing.

IBfél. 125B. og AM. 199 standa á undan þessu tvær greinir sem segjast vera úr «Gráfuglsbók» þ. e. Grágás.

II, (AM. 55. 8vo bls. 54—55 skb. c. 1580; Ny kgl. s. 1945. 4to bl. 383 skr. 1666; MSteph. 61. 4to bls. 103 frá 17. öld; IBfél. 315B. 4to bls. 62 frá 17. öld. Enginn orðamunr tekinn).

Um bygðar rymt.

Et þau mál gerast í héraði, er biskups réttr er á, þá skal konungs umboðsmaðr eðr biskups þing stefna í héraði; er hverr bóndi skyldr at sækja þat þing. Nú er þing sett, þá skal konungs umboðsmaðr eðr biskups upp standa ok tala svo: Ek hefi heyrt þat í bygðum ok héraði, at N. N. son hafi misgert þat mál, at biskups sök er á ok heilagrar kirkju; líkavel um konungsins sakir, sem vera eiga, skal eins upp bera sem konungs réttarbót útvísar, nefni manninn á nafn ok hver sökin er. Nú ef þér hafit heyrt þat mál fyrri vil ek þat vita. En ef fjórðungr héraðsmanna sá, sem á þinginu er segist þat heyrt hafa, þá heitir þat bygðarfleygt at lög-

[1]) m°, hdr.

um. Þá má konungs umboðsmaðr eðr biskups sækja þat mál til slíks réttar, sem við liggr at lögum; standa þó eiðar til undanfærslu eptir hæð sakanna, sem lögbók útvísar. Þau mál sem flotit hafa um þrjá bæi, má yfirvaldið með réttu upp bera ef vill, ella setja þetta fjórðungsþing sem fyrr segir, ok heita þat heimiliskviðar vitni hvorutveggja eptir hvern sem upp er borið, ef yfirvaldinu líkar.

Menn hafa viljað heimfæra réttarbót þessa til Jónsb. Mannh. kap. 24. Hún hefir aldrei verið prentuð.

MSteph. 13, 4to bls. 274 pappír skr. 1715 «eptir chartis Jons Magnussonar»; AMagn. 60. 8vo bl. 125a á pappír frá c. 1690; Ny kgl. s. 1265. Fol. á pappír c. 1670 skr. á spássíu við 26. kap. í Mannhelgi í Jónsbók; Thott. 2106. 4to á pappír c. 1650, a: bls. 13, b: bls. 270; IBfél. 531. 8vo bls. 170—71 (bók Hálfdánar Jónssonar á Reykjum skr. 1706).

R. B. H. K.[1])

Ef [nockru stormæle er fleigt[2]) i heradenu þā skal valldzmadr þing stefna og krefia bændur svars oc sanninda hvert þeir hafa þad mal heÿrt eda eige. oc ef honum fÿlger fiordungur þingmanna. sem þad seigiast heÿrt hafa enn eigi vite þeir hvert satt er eda ecke. þā mā hann at frialsu vpp bera.

---

201. 23. Juni 1310. i Björgvin

Réttarbót Hákonar konungs um að sýslumenn, umboðsmenn biskupa og nefndarmenn sæki lögþingi.

Hakon með guðs miskun et cetera. sendir ollum monnum i Gulaþingslogum etc.

[Kemr Íslandi alls ekkert við og kemr sjaldan fyrir í íslenzkum handritum; er þó til í einstaka, svo sem AM. 148. 4to bls. 218—19 skb. c. 1500 (Landeyjabók) og AM. 176. 4to bls. 12—13 skb. c. 1570. Sjá að öðru leyti Norges gl. Love III, 88—90].

---

202. 14.[3]) October 1310. i Björgvin

Haukr lögmaðr Erlendsson dæmir Hallvarði bónda á Stafni

---

[1]) 2106a setr við rb.: «Um rigte Mannh. 25»; «[Réttarbót] Hákonar kongs um stórmæli» 2106b; «R. B. H. K. Vmm stórmälarickti» 531; [2]) [nockur stormæli eru fleig 60, 2106, 531; [3]) segja Norðmenn, en ef þetta færi eptir íslenzku tímatali væri það 17.

(Stafin) «fiskivatn eitt þat er . . . . Logrin heitir», er Hallvarð og Árna Jörundarson greindi á um, og Árna að «lvka Hallvarði fiora manaðar mati i kost þan er Hallvarðr hafþi i þersi ferð ok iij manaðar mati i dom rof innan þers manaðar er þeir koma heim nv at sinni» . . . . «þetta bref er gort . . . i Biorgvin vetrar dag en fyrsta a xij ari rikis vars virdulex herra H[akonar] Norex konungs».

(Dipl. Norv. II, Nr. 103 eptir frumbr. í Danske Selsk. Saml.; prentað áðr í Annal. f. nord. Oldk. 1847 bls. 388).

---

203. 12. Januar 1311. i Björgvin.

Fimm menn og þar á meðal «Haukr Erlendzson Gulaþings logmaðr riddari» votta, að þeir voru «i hia i malstovonne i biskups garðe i Bergwin pridie idus Januarij a tolfta are varss vyrdulegss herra Hakonar með guðs miskunn Noregs konungs sonar Magnus konungs» og heyrðu á «er vyrdulighr fader herra Arne með guðs miskunn biskup i Bergwin» lét lesa fyrir síra Bótólfi Hákonarsyni konungs bréf «i hveriu er hann byðr vtlænzkum vetrsetom luka tiund sina hæilaghre kirkiu» eins og að fornu (bréf frá 10. Nóv. 1310 og 30. Nóv. 1310 í Dipl. Norv. II, Nr. 104 og 105).

(Dipl. Norv. III, Nr. 93 eptir afskr. í Bartholin IV, E. 399—400).

---

204. 23. Juni 1311. á Reykjum.

Guðmundr lögmaðr Sigurðarson tekr vitnisburði af tveim mönnum um landamerki Reykja í Tungusveit, og votta það tveir menn.

AMagn. Dipl. afskrr. Nr. 4104 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna «ex originali». «Brefed er skrifad á kalfskinn med tveimur jnnsiglum», og er svo sýnt hvað á insiglunum hafi staðið. Þetta mun vera hið elzta íslenzkt bréf með ártali og dagseting. Menn hafa áðr haldið að bréf Auðunar biskups frá 1315 væri elzt.

Øllum monnum þeim sem þetta bref sea eda heyra senda

pall prestr þorsteinsson ok olafr geirmundarson kuediu guds ok sina kunnikt georande at sub anno gracie Millesimo trecentessimo decimo primo nęsta dag firir ions Messu baptiste at reykium i tungvsueit. a stefnu firir gudmunde lögmanne uorum uid hia at nefnndr gudmundr lögmadr tok suo fallinn eid af Harallde Sigurdarsyne ok þorunne systur hans at su uere eignn reykia landz. męlefellzdalr firi uestan. fram fra kartar gile ok fram yfir kniuká hina fremre. manadar beit aullum nautfenade j skidastada iord upp fra Mariu messu fyrre. mosakelldur eru á sande firir austan geil ok ór þeim rettsyne. austr i iokulsa. ok upp i grenhamar. þa merkiagerde hamrar til þess at gardr geingr utan ór geil ok suo ofan firir utan steinstada uoll ok fram i mylnu tiorn. rędr iokulsár fall þat sem nęst er firir ofan krossodda ok suo yfir firir ofan lambanes ok sua uestr i suarta firir ofan gratholma. ok at sua felldum profum teknum sagde oftnefnndr gudmundr laugmadr med fullum laga órskurde þetta obrigdeliga eignn reykialanndz efter þui sem suarit uar. ok til sannynda her vm settum mid okkr innsigle firir þetta bref er gort uar i saugdum stad dege ok are sem fyrr segir.

---

205. 1311.

Skrá um skattbændr á Íslandi.

Skrá þessi og sú, sem er nefnd í «Ný Félagrit» X, 1850 bls. 27—28 er öll ein og hin sama; sá texti sem þar er farið eptir er einmitt sá texti, sem hér er kallaðr B, og það, sem A og B ber á milli í því, sem báðir hafa, er einungis afskriptamunr, og B hefir ekki varað sig á að hundruðin eru tólfræð, og því eru serknesku töluupphæðirnar rangar. Jón Sigurðsson hefir haldið, að skráin væri frá 1366, en A tekr af öll tvímæli um að hún sé frá 1311. Sumir menn[1]), sem hafa viljað leitast við að segja eitthvað um fólksfjölda á Íslandi á 14. öld, en hafa aldrei séð þessa skrá, hafa gert úr henni tvær skrár, af því að nokkrir hafa nefnt skrá frá 1311 (Lærdómslistafélags rit VI, 178; Magnús Stephensen Island i det 18de Aarh. bls. 268), en Jón Sigurðsson hins vegar nefnir skrá frá 1366, og á þar einmitt við hina sömu, því að þá þekti hann einungis B. Sýnir þessi sundrgreining skrárinnar, hve hæpið það getr verið að þykjast vita, en vita

---

[1]) t. a. m. herra Bogi Th. Melsteð í Historisk Tidskr. Sjette Række I, 1888 bls. 760 (í nótu).

ekki, það sem menn tala um. Árfærsla Jóns Sigurðssonar er að öllu, eins og við var að búast, á skynsamlegum líkum bygð, þ. e. að skráin hafi verið gerð þegar Hákoni Magnússyni yngra var «dæmt land alt» 1366. En þeirra röksemda þarf ekki með; ekki þarf annað en að að konungr eða sýslumaðr hans á Íslandi hafi eigi þótzt vita glögt af hverjum skatt ætti að heimta og ef til vill þótt undanfærslur við hafðar, og hafi því látið taka skattbænda tal um land alt, og gat það hafa verið gert hvenær sem var. Um ártalið 1539, sem stendr í B, þarf varla að geta þess að það er villa ein.

---

### A.

JSig. Nr. 264. 4to og er borin fyrir þessari afskript. «Gömul bréfab. 206 í Finns safni Magnúss. skrifað með hans hendi í Arb. hans I, 31 á spássíu».

Um manntal a Íslandi. skattbændr.

Anno domini Mcccxj. á xij. ári ríkis vors herra Hákonar Noregs konungs Magnússonar var svo mikið manntal á Íslandi:

Í Norðlendingafjórðungi ix[c] manna ok lxx.

þar af laukst konunginum í skatt xcv[c] ok tíutigir álna.

Í Austfirðinga fjórðungi ccccclxxxiv menn.

skattr xl[c] ok vij[c].

Í Sunnlendinga fjórðungi viij[c] xxxviij menn.

skattr lxxxij[c] ok xx álnir.

Í Vestfirðinga fjórðingi Dxxxx ok xx menn.

skattr Lxxxx[c] [hálf [c] a af .s.[1]) ok xx álnar.

Á sama ári millum Hrútafjarðar ok Siglufjarðarár D manna ok xx manna.

Milli Siglufjarðar ok Helkunduheiðar cccc ok Lx manna.

Milli Helkunduheiðar ok Lónsheiðar cc ok xl. manna.

Milli Lónsheiðar ok Jökulsár ccxxiiij manna.

Millum Jökulsár ok Þjórsár ccxxviij manna.

Millum Þjórsár og Bozár D ok Lx.

Millum Bozár og Langár hálft þriðja c manna.

Millum Langár ok Þorskafjarðarár D ok xl manna.

Millum Þorskafjarðarár ok Hrútafjarðarár cc ok xc manna.

---

### B.

AM. 193. 8vo c. á pappír skr. c. 1620; Ny kgl. s. 1840. 4to bls. 118—19 (eptir 193).

---

1) [þannig.

Anno 1311[1]) æ 12 ari Rikis Hakonar kongs Magnussonar var so mikid manntal a Jslandi.

J Nordlendinga firodungi 970. þar af lukust kongenum j skatt LLvc.[2]) og .LL.[3]) alnir betur.

J Sunnlendinga fiordungi 848. skattur Lxxxijc [4]) og xx alnir.

J Vestfirdinga fiordungi 500 menn. skattur lxxxxijc og xx. alnir.

J Austfirdinga fiordungi 484. skattur xlvijc.

A sama æri voru 500 menn a mille Hrutafiardar[5]) og Siglufiardar.

---

206. 20. Juni 1312. [i Björgvin].

Guðrún Køjukona selr Ormi svarta Þórissyni Bellagarð innra meginn hálfan, enn hann geldr henni að nokkru í íslenzkum vörum, og á að greiða það, sem eptir stendr þegar hann kemr frá Íslandi.

Dipl. Norv. I, Nr. 134 eptir frumbréfinu í ríkisskjalasafni Norðmanna.

Allum guðs uinum ok sinum þæim sem þetta bref sia eða hæyra senda Erlingr Amundason Arne j Grasgarði, Æinriði a Læykuin Q[ueðiu] G[uðs] ok sina.

mer uilium yðr kunnikt gera at mer uorum hia er þau kæyptuz með Ormr suarti þoress son ok Guðrun køijv kona. er hun selldi honum Bellagarð jnnra ueginn halfan með tuptum ok olgognum er til laghu. firir niutighi marka fornra. lauk Ormr henne þegar j hendr. v. tighi marka fornra sua fegodar. v. dekra huða jslenzkra, halfan þridia dekor islenzkra bvkskinna j norønum bukkskinnum halfan annan dekor ok þriv bukskinn, sex gæitskinn. halfan .vta. dekor norrønna fillinga. fimm hundrat uaðmala. halua mork brenda. þria laupa smørs fiora tighi alna j hamnaruaðmalum. en er hann kømi af Islandi skilldi hann luka henni .xxx. marka. fimtan hundrat uaðmala eða annan øyri jamfegoðan . . . . . . . . . . . . Nu sem Ormr kom aptr til Berguinar .ij. vetrum liðnum kom þar Olafr

---

[1]) 1539(!), hdr.; [2]) = 105c; [3]) = 100; [4]) fyrst skr. Lxxxvij, en v-ið svo dregið út; [5]) Huijtafiardar, hdr.

kæiv maghr umboðsmaðr Guðrunar ok hæimti af Orme þessa .xxx. marka sem aðr uar sagt j brefinu at eptir stoðo. lauk Ormr honum þa með raði goðra manna. þrettan hundrat vaðmala. þriar merkr pæninga. þriar [forngildar] . . . . . . settum ver uar jnsigli firir þetta bref er gort var þrim nattum eptir Botolfs uoku a. xiij. are rikis uirðulegs herra Hakonar Noregs konongs hins koronaða. þa er liðnir uoro fra burð vars herra Jesu Christi þushundrat uetra. ccc. vetra ok tolf vetr.

---

207. [1312].

Úrskurðr Guðmundar lögmanns um að Guðmundr ábóti skuli hafa tólf aura í landnám og sex sela virði fyrir það, að tveir bændr fóru í Hópsós, eign klaustrsins á Þingeyrum «eptir fornum hefðum».

Afskriptasafn AM. 439. «ex originali monasterii Thingeyrensis accuratissime» (AM.). Afskriptin sjálf er ekki með hendi AM. en aptan við skrifar hann: «So endast brefed og alldrei hefur þad leingra vered. og eckert ártal er ä þvi. þad er añars daterad fäum ärum eptir anno christi 1300. hier um 1312. 14. þvi um þetta leiti voru þesser gudmundar, aboti og lögmadur. Jñsigle Gudmandar lögmañs hanger vid brefed. hvar i er hrutur. Er hier riett afrissad ä næst epter fylgianda blade». Á næsta blaði er dregið upp innsiglið (S: Gvdmvndi Sigvardi). Á lausu blaði hefir Árni eptir líkt «forma literarum i briefe Gudmundar lögmans, sem liggur ä þingeyrum». Guðmundr varð ábóti 1309 eða 1310, en Guðmundr Sigurðarson var lögmaðr norðan og vestan 1302—18. Bréfið liggr því milli 1309 og 1318.

Allum þeim monnum sem þetta bref sia eda heyra sender gudmundr logmadr. Q[vediu] G[uds] ok sina.

Ek geri ydr kunnigt at gudmundr aboti kærdi firi mer at gudlaugr bondi j asbiarnarnesj ok hilldibrandr foru j hops oss stadarins orlofslaust. Nu medr þvi at kla[u]str at þingeyrum a þenna oss epter fornum hefdum þa seger ek med laga orskurdi abota tolf aura j landnam ok uerd sex sela er þeir toko. ok til sanz uitnisburdar setta ek mitt jnsigli firi þetta bref.

---

208. 1313.

SKRÁ um leigumála á jörðum Viðeyjarklaustrs.

AM. 238. 4to bl. 50b skr. 1570—80; AM. Dipl. afskrr. Nr. 1776 (eptir 238, Bessastaðabók).

Anno Domini ꝏ iijc ok xiij ar var þessi leiga skylld æ jarder videyiar klavsturs.

A eide ijc leiga: ok helmingar sad: med landi kyr ok vj ær.

At kortolfstodvm c vorv: ok geymsla hrossa ok navta stadarins. leiga selsker. þar er ok iij vetrvnga elldi.

Af bleikastodvm hellmingur heyia þeirra sem fast.

At ose x avrar vorv: þriggia vetrvnga fodvr.

J þormodz dal iij merkvr ok xij hrossa beit.

At vatz ennda iij merkur.

At vatnne cc vorv ok iiij vætter miols.

At leysingia stodvm c.

At kleppi cc:

J holte helming heyia.

J hvamme c leigv.

J digranesi iij merkur:

At a eyre stadur æ land allt.

At hvsaþottvm xij avrar annars hundra[d]s þrimalingur j jordv: sælldingur j jordv.

---

209. [1313].

MÁLDAGI Neskirkju í Selvogi [er Árni biskup Helgason setti].

AM. 263. Fol. bls. 55 skr. 1598. Erlendr sterki dó 1312 og mun hafa búið á Nesi í Selvogi. Járngerðr var kona hans og mun hún hafa lifað Erlend; þeirra dóttir var Valgerðr, en Haukr lögmaðr var ekki sonr Járngerðar; maðr Valgerðar mun vera Hálfdán sá, er hér er nefndr; Finnr er sonr Bjarna[r] Hamra-Finnssonar, er nefndr er í Árna biskups sögu (Bps. I, 679) og mun hann hafa látið gera kirkjuna; systir hans er Þóra; Helga sú, sem hér er nefnd, kynni að vera systir Árna biskups Helgasonar og hafa verið kona Finns (sbr. Bps I, 680). Máldaginn eins og hann liggr fyrir hér, er ekki eldri en frá tíma Árna biskups, og herra Erlendr virðist vera dáinn úr því að Járngerðr er talin fyrir gjöfum og dóttir hennar, og mun hann grafinn í Nesi, og þær gefa til legs honum.

forn maldage.

Mariu kirkia j Nese og hins helga magnus jarls: og ins sæla Thorlaks biskups oc hinnar helgv Katerynv meyiar er [Finnr][1]) Biarnarson liet giora. a xx hvndrvd j heima lande og tiolld vmm kirkiv. smelltann kross og annann steindann. Alltarissklædi iij. kluckur iiij. og fimta(!) hrotna. kertastikur ij. og glodarker. elldhera. lysikolv. og Alltariss mvnnlavg. skiolv. og stavckvl. og handklæde tuo. og peturs skrift. ij kyr. a og kirkia.

þar skal oc syngia messv hvern dag helgan. og annann huorn ottv song. Messa skal midvikudag oc favstudag j langafostv og so alla jmbrvdaga. fiogra marka leiga(!) skal greida presti. og senda jafnann mann j mote honvm a vetvrinn.

Tijvnd liggur þar til af heima monnvm og af Biarnastodvm. og halfer lysitollar. lofadur groptur heima monnvm j Nesi. og fatækum monnvm. lofadar erv þar allar heimilis tijder.

Sijdan gafu þau finnr og þora mariuskrifter badar.

Helga gaf altarisduk glitadann. og kross steindann.

þetta gafst til sijdan Halfdān kom. asavdarkugilldi. Halfdan liet hæta hrotnv klucku og keipte til kalek er stendur xj avra.

Jarngerdur gaf til ravtt Alltaraklædi af silki. sotdrift yfer Peturs likneski.

Jtem gafv þav Halfdan og Valgerdur og Jarngerdur kross er stendur yfer kordyrvm med tueim likneskivm.

Jtem gaf Jarngerdur Refvil nyiann atta alna langann.

---

## 210. 13. Marts 1313. i Niðarosi.

«Biarne Auðunarson. Haukr Erlændzson. Auðunr þorhærgsson Salamon þoraldason. Loðen a Bakka. ok Ottarr loghmaðr». . . dæma «tyrsdagen æfter Gregoriusmesso j konongs garðe j Niðarose a fiurtanda are rikis vars vyrdulegs herra Hakonar

---

[1]) Hér hefir gleymzt úr fornafnið, en á líklega að vera Finnr sonr Bjarna[r] Hamra-Finnssonar, sem er nefndr síðar hér í máldaganum, og hefir kirkjan líklega verið bygð á tímum Staða-Árna.

Noregs konongs» . . . «vm þa longu þœfo ok þrætto. sem verit hæfir millum fru Jngibiorgar Palsdottor ok Aslaks a Lyngi. vm jordena Lyngh . . .»

(Dipl. Norv. V, Nr. 57 eptir frbr. í AM. Dipl. Norv. Fasc. II, 8a. Hinn 19. Marts staðfestir Hákon konungr þennan dóm Dipl. Norv. V, Nr. 58 eptir frbr. AM. Fasc. II,a).

---

## 211. 5. April 1313. i Niðarosi.

«Biærne Audunarson. Haukr Erlenzson. Loden a Bakka. Ottar lagmadr» rannsaka að konungsboði «a þorsdaghen nesta firir palmasunnu i konongs garde i Nidarosse a fiugrtanda are rikiss vars virdulegs herra Hakonar Noregs konongs hins korunada» . . . «varner Ottars a Lyngi ok Klementz ok Eiriks» gegn kröfum frú Ingibjargar Pálsdóttur til jarðarinnar Lyngs í Veradal, og reyndnst varnirnar ónýtar.

(Dipl. Norv. II, Nr. 116 eptir frumbr. í AM. Dipl. Norv. Fasc. II, 9a. 9. Apríl 1313 staðfestir Hákon konungr þennan dóm. Dipl. Norv. II, Nr. 117 eptir frbr. í AM. Fasc. II, 9aa).

---

## 212. 2. Mai 1313. i Niðarósi.

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um arftökur og annað fleira.

Þessi réttarbót er að upphafi einungis ætluð Noregi, og á ekkert skylt við Ísland, en í íslenzkum handritum finst hún frá 14. öld. Þó er hún hér ekki tekin vegna þess, heldr af hinu, að menn fóru að bera hana fyrir sig í lok 15. aldar, og kemr það fyrst fram í Möðruvallamálum, þar sem Kolbeinsstaðamenn, Erlendr Erlendsson og börn hans Þorvarðr Erlendsson, Vigfús Erlendsson og Hólmfríðr Erlendsdóttir heimtu samkvæmt réttarbót þessari arf eptir Pál Brandsson á Möðruvöllum; en Finnbogi lögmaðr Jónsson, enn mesti lagamaðr, mótmælti henni harðlega frá upphafi í Spjaldhagadómi 1495, sem lögleysu, og var sá dómr ítrekaðr 1499 og samþyktr á alþingi; um sama skeið heimti Eiríkr prestr Sumarliðason Grundareignir í arf eptir Svein bróður sinn samkvæmt þessari réttarbót, en hinumeginn kallaði Finnbogi lögmaðr til arfs fyrir dóttur sína; endalokin urðu þau að séra Eiríkr fékk Eirík kanslara Valkendorf til bæði að ávinna

það við Kristján konung II, að bann dæmdi séra Eiríki Grundareignir samkvæmt réttarbótinni og staðfesti hana 22. Nóv. 1507 í Akurbúsi, og til þess að ekki skyldi til sleppa staðfesti konungr tveim dögum síðar eða 24. Nóv. 1507 allar réttarbætr hins «heilaga» Hákonar konungs, og þar með unnu Kolbeinstaðamenn Möðruvalla arf. Hið síðastnefnda staðfestingarbréf var lítt þokkað og olli mörgum þrætum, en var numið úr lögum af Friðrik konungi IV þann 15. Mai 1711 (Magn. Ketilss. III, 359—60). Hefir það ýmist verið kallað «Möðruvallaréttarbót» eða «Réttarspillir». Um þetta efni sjá Magn. Ketilss. Forordn. I, 94—95 og Safn til sögu Íslands II, 96—99. Skoðun Gísla lögmanns Hákonarsonar á réttarbótinni er að lesa í Dipl. Isl. I, 712. Magnús Ketilsson (I. 107) kallar einmitt þessa réttarbót ($^2/_5$ 1313) Möðruvallaréttarbót.

Réttarbótin er prentuð hér í fernu lagi. A eins og hún kemr fram í fornum bandritum fylst og er hér farið eptir sömu skinnbók sem í Norges gamle Love. B, C og D eins og réttarbótin kemr optast nær fram í íslenzkum handritum og fylgir að nokkru útgáfum Jónsbókar, og er hún þar í smákubbum og finst valla öðruvísi, og eru þeir kaflar hér prentaðir eptir Skarðsbók, sem er elzt íslenzkra skinnbóka, er hafa þessa stubba alla, en B finst þó í einni skinnbók eldri, en það er Gl. kgl. saml. 3269B. 4to bls. 131 skb. frá c. 1340. Það þótti ekki ómaksins vert að fara út í orðamun, af því að aðalréttarbótin er prentuð hér í heild sinni sem A, og hinsvegar hefði það mátt æra óstöðugan að tína til mismun úr öllum íslenzkum handritum, sem réttarbótin finst í eða partar af henni. En úr því maðr hefir kannað handritin á annað borð er réttast öðrum til hægri verka að nefna þau, sem eg hef fundið hana eða eitthvað af henni í: AM. 343. Fol. bl. 28b skr. á spássíu við Erfð. 12 c. 1500; AM. 344. Fol. skb. c. 1350 60; AM. 345. Fol. bls. 148, 149 og 169 skb. c. 1570; AM. 126. 4to bls. 173—75 skb. c. 1380; AM. 128. 4to bls. 157 skb. c. 1490; AM. 129. 4to bls. 201—203 skb. c. 1570 og segist vera lögtekin; AM. 132. 4to bls. 138 og 140 skb. c. 1430; AM. 135. 4to bls. 4 skb. 1490; AM. 147. 4to bls. 184, 192, 206 skb. þetta c. 1600; AM. 154. 4to bls 150—51, 153 skb. c. 1500; AM. 155. 4to bls. 199 c. 1500; AM. 157B. 4to bls. 49 skb. c. 1460; AM. 158A. 4to bls. 115—16 skb. 1420; AM. 159. 4to bl. 81b-82b skb. c. 1500 (hér blandað saman greinum úr réttarbót Eiríks 1280, réttarb. Hákonar 1305, 1313, 1314, 1318 ofl.); AM. 161. 4to bls. 247—49, 259, skb. 1561—65; AM. 168B. 4to bls. 27-28 skb. þetta c. 1490; AM. 170A. 4to bls. 3, 9, 32—34, 35 skb. c. 1570 (af sama tagi og 159); AM. 175C. 4to bls. 30, 31, skb. c. 1400; AM. 200. 4to bl. 11—12, 15, 17 á pappír c. 1700; AM. 37. 8vo bls. 263—65 skb. c. 1500; AM. 38. 8vo bl. 124 skb. skr. 1578; AM. 40. 8vo bls. 372—73, 374—76, 391 skb. c. 1560; AM. 45. 8vo bls. 59, 61—63, 75 skb. c. 1570; AM. 55. 8vo bls. 28—29, 52—54 (af sama tagi og í 159 og 170) skb. c. 1580; AM. 60. 8vo bl. 57—58, 70—71 á pappír c. 1690; AM. 62. 8vo bl. 9—10 á

pappír c. 1620; AM. 456. 12mo bl. 50—54, 70—71 skb. c. 1480; AM. 457. 12mo c. 1500; AM. 458. 12mo bls. 49—50, 53—54 skb. c. 1570; MSteph. 3. 4to á pappír eptir skb.; MSteph. 12. 4to á pappír c. 1570—80; MSteph. 13. 4to bls. 280, 285—89 á pappír skr. 1715; MSteph. 48. 4to, bl. 3b, 4a, 13a, 14b skr. 1669; Gl. kgl. s. 1159. Fol. c. 1650; Gl. kgl. s. 3274A. 4to c. 1620; Ny kgl. s. 1080. Fol. c. 1750; Ny kgl. s. 1911. 4to bls. 219—21, 236 c. 1750; Ny kgl. s. 1923. 4to bl. 146, 150 skb. c. 1590; Ny kgl. s. 1924. 4to bl. 51—52 skb. c. 1540—50; Ny kgl. s. 1933. 4to bls. 97—98 skb. c. 1600; Ny kgl. s. 341. 8vo skb. c. 1656—58; Thott. 2097. 4to skb. c. 1650; Thott. 2099. 4to skb. 1581; Thott. 2100. 4to skb. c. 1560—70; Thott. 2101. 4to skb. c. 1490; Thott. 2106. 4to bls. 13—14, 47—51, 251—52, 261—62, 264, 331 á pappír c. 1750; Uldall. 320. 4to papp. skr. 1603; Uldall. 322. 4to skb. c. 1570; IBfél. 60. 8vo skr. 1595—1600; IBfél. 122. 8vo á pappír frá c. 1660; IBfél. 531. 8vo bls. 149 skr. 1706. Auk þess er hún eflaust í nokkrum handritum, sem eg hef ekki ennþá náð til.

Réttarbót þessi er prentuð í heilu lagi í Ngl. III, 98 - 102 og þar með sá hluti hennar, sem ætlaðr er fyrir Niðarós; sömuleiðis heil í Magn. Ketilss. Forordn. I, 126—33 með danskri þýðing; á lat. hjá Þormóði Torfas. í Hist. Norv. IV, 439 og á dönsku hjá Paus II, 194; kaflar úr henni eru prentaðir í Jónsbókarútgg. og á dönsku í Jonsbogen, og C er prentað bæði á dönsku og íslenzku hjá Magnúsi Ketilssyni I, 108—11. Sbr. Crymogæa Arngríms III, 124.

---

## A.

AMagn. 60. 4to skb. frá c. 1320; NgL. III, 98—102.

Her hefr skipan virðulegs herra hakonar konongs sonar magnus konongs.

Hakon með guðs miskunn noregs konongr son magnus konongs sendir allum monnum leikum oc lærðum guðs uinum oc sinum þeim sem noregs konongs riki byggia Q[ueðiu] G[uðs] oc sina.

Skyllda uar oc astsemd su er ver berom til alðyðu rikissins saker mikils goðuilia oc eptirlætiss er aller menn hafa oss teet siðan guð kaus oss til rikisstiornarinnar krefr oss vm at bøta þa luti sem afat er oc einkanliga vm log oc landsens rett. hafum ver þui vm hugsat með hinna bezstu manna raðe oc letom skrifa yðr til nytsemdar oc hugganar þessar rettar-

bốtr er her fylgia oc ver letom lysa i konongs garöe i niðarose a krossmesso eptan [vm uaret[1]) a xiiij.[2]) are rikis uars a almenniligo þingi oc samðykt uar með lofatake.

1. Fyrst at upphafe at þar sem barn tok arf eptir moðor sina skilfengna oc faðr eptir sama barn ef þat atte eigi skilgetit barn eptir sik. þa skal faðr heðan af eigi meira erfa eptir barn sitt oc hans erfingiar en allt lausa goðz æfenliga. Enn eignir allar skal hon [eiga oc hafa[3]) oc [i uirðar[4]) setiazt vm alla sina lifdaga. En eptir hans daga take sa eignir allar er erfðom er nestr eptir þat sama barn þær sem barnit erfði eptir moðor sina kall eða kona i moðor leggen. þeir þo er af þeirri ætkuislinni eru komnir er þær iarðer oc goz er ut af komit. Samu leið skal oc fara ef moðir erfir barn sitt þat sem aðr hafðe erft faður sinn. skal þessi erfð ganga i almenniligu erfðatale en eigi vm konongs erfð.

2. Sua oc ef maðr horar vndir kono sina oc eigu þau born saman oc andaz konan oc siðan barnet. þann arf skal alldri faðir taka er þat barn erfði eptir moðor sina. þann arf skolu taka moðor frændr barnsens hinir nanastu eptir þeirri grein sem fyr segir. Samuleið skal oc fara ef kona horar vndir bonda sinn vttan þui at eins at þau sættezt vm mal sin oc upp gefi þat sama hor huart uið annat.

3. Sua oc af þui at moðer skilgetin stendr ecki aðr i erfðatale eptir frilluborit barn sitt. þa skal hon heðan af arf taka eptir þat sama barn i setto erfð nest eptir frillu son. þat þo er eigi er getit i hordome ne sifiaspellum eða frendsemis.

4. Heðanaf skolu eigi almenniligar putur eða þeir menn er domaranum oc aðrum skilrikum monnum er i domom sitia bia honum synazt uskilriker uera sakir einna hueria olutuand[r]a luta skolu eigi uitni bera einkanliga i storæfnum þat sem skilriki tekr goðra manna millum.

5. Heðan af skolu kalmenn nefnazt til undanfærslo oc eiðuættis með kallmonnom. en konor með konum. vttan kallmenn se eigi til með kallmonnum eða konor með konum. þar

---

[1]) [sl. sum hdrr.; [2]) fimtanda (xv), Lund. 12. Fol. c. 1350, Bibl. Christ. 317. 4to c. 1350; [3]) [eigi hafa Gl. kgl. s. 1154. 4to c. 1500; [4]) [vuirðar AM. 322. Fol. c. 1320, AM. 305. Fol. c. 1370, Stockh. C21 c. 1350; virðing Lund. 12. Fol.

með skal oc heðan af sa maðr mær eða kona tuitugr heita er hefir .xx. iola netr.

6. Sua oc þar sem bonde sel iarðer huspr∂u sinar vttan hennar vilia oc samðykt skal hon skylld uera at lysa þat innan v. uetra [firir skilrikum monnum[1]) at husbonde hennar hefir iarðinnar sua selldar. eða eigi alldri þess mals uppreist siðan hon vissi at þær uaro selldar[2]).

7. Þar sem menn s∂kia fear soknor sinar i heraðe með atfara þingi liggi þar uið half mork silfrs sem aðr la ∂yrir þeim er þriozkast heim at fara af þinginu með rettaranum rett at gera huer sem s∂kir.

8. Sua firirbioðum ver oc heðan af at nokor maðr kalle sinn mal undan domarum til þess at draga malit firir hinum oc firra hann sua sinum rettyndum. [vttan þat se i konongs nauero[3]). Bioðum ver syslumonnum oc logmonnum at leggia sua huers manz mal niðr sem syslubref þeirra uattar.

9. Þar oc sem tyrsdagrin hinn neste eptir paska uiku ber a hælgan dagh þa skall oll iarðar sokn oc oðalsbrigði fram fara a nestan sygnan dagh eptir sua sem hon skilldi fram hafa farit a tyrsdaghin ef hann hefði eigi borit a hælgan dagh.

10. Þessar naðir gerum[4]) ver oc a um fiolmæli heðan af. at ef maðr kallar annan drottens suikara. fordæðo. morðingia. þiof eða huinn. putuson eða horkono son eða onnur iamskemmilig orð. skal sa sekiazt er þat mælir. iiij morkum silfrs uið konongdominn. Enn oll þau mal oc fiolmæli er smære d∂mazt oc til minnar n∂ygslar oc haðungar |h∂yra skolu eptir domi ganga bæðe sekt oc rettr þeirra er talat er til. þar til er ver getom uiðr komizt með anefndri grein at setia þau með bezstra manna raðe.

Bioðum ver syslumonnum varum[5]) oc logmonnum þesse log og oc rettarb∂tr i logbok at setia. þui at þau uilium ver at gange vm alldr oc vm æfue vm allan noregh. Gefi[6]) iehsus christus yðr þessa uara skipan oc allar aðrar sua at g∂yma oc

[1]) [vpp fra þui sem hon væit at selldar voro firir þæim er kæypt hefir oc oðrum skynsomum Stockh. C21; [2]) vttan hon hafæ ottast bonda sin, b. v. AM. 61. 4to og 126. 4to frá c. 1400, og Stockh. C2 (c. 1600); [3]) [vantar í sum handrr.; [4]) gerðum 60; [5]) sl. 60; [6]) G∂ymi(!) 60.

yðr til nytsemdar fôra at guði se til heiðrs. oss til æru. sialfum yðr til æfuenligs gagns oc fagnaðar.

[Var þetta bref oc skipan giort i nidarosse krossmessodagh vm varet. þa er liðnir voro fra burð vars herra iehsu christi. m. vætra. ccc. vætra ok .xiij. vetr a fiœrtanda[1]) are rikis vars. Herra Biarnæ Auðunarson jnsigladi oss siaulfum hiaverandom. en þorgeir Tofason notarius[2]) var rittaðe[3]).

---

## B.

AM. 350. Fol. bls. 147 skb. skr. 1363. Prentað í útgg. Jónsbókar.

R. B. H. K.

Hakon með Guðs miskunn noregs konungr et cetera.

1. Þar sem menn sękia fear soknir sinar i heraði með atfarar þingi. liGi þar uið half Mork. sem aðr la eýrir við konung huerium er þriotzkaz heim at fara af þingi með Rettaranum. Rett at gôra. huerr sem sækir.

2. Sua ok fur bioðum uer at nockurr kalli sin mal undan lôgligum rettara til þers at draga malit fur hinum. ok fiRa hann sua sinum Rettindum utan þat se i konungs naueru.

Bioðum uęr syslumonnum ok lôgmonnum at leGia sua huers manz mal sem bref þeirra uatta.

Datum.

---

## C.

AM. 350. Fol. bls. 148 skb. skr. 1363; Magnús Ketilsson Forordn. I, 108—11.

R. B. H. K.

Hakon með Guðs miskunn. et cetera.

Skyllda uár ok astsemd. et cetera.

1. Furst at þar sem barn tok arf eptir moður sina skilfengna. ok faðir eptir sama barn. ef þau ætti eigi skilgetit

---

[1]) xv., 61; [2]) nottare, 61; [3]) [er mjög á reiki í handritunum og vantar í sum, þar á meðal 60; hér fylgt AM. 61. 4to og 126. 4to. — B § 1 = § 7; § 2 = 8 A § 8; C § 1 sbr. A § 1.

barn eptir sik. þa skal faðir æigi meira erfa heðan af eptir barn sitt. ok hans erfingiar en allt lausagoðz æuinliga. Enn eignir allar skal hann eiga. ok i uirðar setiaz. um alla sina lifdaga. En eptir hans daga. taki sa eignir allar. er erfðum er næstr eptir þat sama barn. þær þo er þat erfði eptir moður sina. karl eðr kona i moðurleGinn. þeir þo sem af þeirri ættkuislinni ero komnir. ok þær iarðir. ok þat goðz er ut af er komit.

2. Sômu leið skal ok fara. ef moðir erfir barn sitt. þat sem erft hefir foður sinn. skolo þersar erfðir ganga eptir almenniligu erfðatali. enn æigi konungs erfðum.

3. Sua ok ef maðr horar undir eighin konu sina. ok eigu bôrn saman. ok andaz konan. ok siðan barnit. þann arf skal alldri faðir taka. er þat barn erfði eptir moður sina. þann arf skolo taka moðurfręndr barnsins. hinir nanuztu. eptir þui sem furr segir.

4. Sua ok. af þui at moðir skilgetin stendr æigi i almenniligu erfðatali. eptir frillu borit barn sitt, sem segir i oðrum Rettarbotum hakonar konungs.

5[1]). Heðan af skolo almennilegar putur æigi uitni bera. enn þat ero putur er þat uerðr uitnisfast. at þær meta sik. ok taka með þui nafni a ser. huart sem þat er meira eðr minna. eðr taka ij. menn a einu dægri.

6. þeir menn er lôgmanni ok oðrum domurum ok skilrikum monnum er i dominum sitia hia þeim sŷnaz þeir vskilrikir uera. sakir einnar huerrar ulutuendi. skolo æigi uitni bera. ok einkannliga siz i stormælum. þar sem skilriki tekr goðra manna i millum.

7. Fyrirbioðum uęr heðan af at nockurr maðr kalli sin mál undan lôgligum domum. eðr domarum til þers at draga malit fur hinum. ok fiRa hann sua sinum rettindum.

Bioðum uęr sŷslumonnnum uarum. ok lôgmonnum þersar Rettar bøtr at hallda. ok i lôgbok setia. þuiat uęr uilium at þersi lôg gangi um alldr og æfi um allt noregs konungs Riki.

---

§ 2 sbr. A § 1; § 3 sbr. A § 2; § 4 sbr. A § 3; § 5 sbr. A § 4; § 6 sbr. A § 4; § 7 sbr. A § 8. — [1]) Sbr. Jón Rugmann Greinir or þeim gaumlu laugum Upsal. 1667 bls. 5.

**D.**

AM. 350. Fol. bls. 155 skb. skr. 1363. Prentað í útgg. Jónsbókar.

R. B. H. K.

Hakon með Guðs miskunn. Noregs konungr etcetera.

1. Heðan af skolo karlmenn nefnaz til eiðuættis ok undanfærslu með kôrlum. enn konur með konum.

2. Sua ok ef kona horar undir bonda sinn. ok eigu bôrn saman. ok andaz faðirinn. ok siðan barnit. þann arf skal alldri moðir taka. er þat barn erfði eptir fôður sinn. utan þau sættiz aðr sin i millum um mal sin. ok upp gefui huart oðru þat[1]) sama hor. þann arf skolo taka fôðurfręndr barnsins hinir nanustu sem erfðatal uáttar.

3. Sômu leið skal fara ef bondi horar undir konu sina.

Bioðum ver syslumonnum uarum. ok lôgmonnum. þersi lǫg ok Rettarbætr i lôgbok setia. þuiat uęr uilium at þau gangi um alldr ok æfi. vm allt uart Riki.

Gefi þat iehsus christus at þersar uarar skipanir. ok allar aðrar Rettarbætr. er ver hofum ýður gefit. Geými þer sua at ýðr se til nýtsemdar. ok æfinligs gagns. Guði til heiðrs. oss til æru ollum samt. ok fagnaðar.

Þetta bref var gert i niðarosi. kross Messo dag vm uarit. þa er liðit uar fra higat burð uars herra iehsu christi M. ccc. uetra. ok xiij vetr. æ. xiiij[da]. æri Rikis uars.

Herra Biarni auðunarson innsiglaði oss sialfum hia uerandum. þorgeiR Tofason notarius vaR ritaði.

---

## 213. 10. Juni 1313. á Ögvaldsnesi.

RÉTTARBÓT Hákonar konungs háleggs um að menn sæki lögþingi.

Réttarbótin á upphaflega ekki við Ísland, en sum handrit hafa viljað láta svo vera, og því er hún prentuð hér, og er hér fylgt skinnbókinni AM. 350. Fol. bls. 149 skr. 1363, sem einnig er prentað eptir í NgL. III, 105—106, en í mörgum íslenzkum handritum er réttarbótin til, svo sem AM. 345. Fol. bls. 151 skb. c. 1570; AM. 348. Fol. bls. 7—8 (Collectanea Magnúsar lögmanns Jónssonar);

§ 1 sbr. A § 5; § 2 sbr. A § 2; § 3 sbr. A § 2. [1]) þ°, hdr.

AM. 132. 4to bls. 140 skb. þetta skr. c. 1500; AM. 135. 4to bls. 7 skb. c. 1490; AM. 138. 4to skb. c. 1500 (= B í NgL.); AM. 154. 4to bls. 153 skb. c. 1500; AM. 157B. 4to bls. 58 skb. c. 1460; AM. 161. 4to bls. 250—51 skb. skr. 1561—65; AM. 200. 4to bl. 15—16 á pappír c. 1700; AM. 40. 8vo bls. 377—78 skb. c. 1560; AM. 45. 8vo bls. 65—66 skb. c. 1570; AM. 60. 8vo bl. 60a—b á pappír c. 1690; AM. 456. 12mo bls. 56 skb. c. 1480; Gl. kgl. s. 1159. Fol. á pappír c. 1650; Gl. kgl. s. 3274A. 4to á pappír c. 1620; Ny kgl. s. 1911. 4to c. 1750; Ny kgl. s. 1924. 4to bls. 52b skb. c. 1540—50; Thott. 2097. 4to skb. c. 1650; Thott. 2106. 4to bls. 51—53 og bls. 262 á pappír c. 1750; Uldall. 322. 4to skb. c. 1570; MSteph. 3. 4to á pappír (eptir skinnb.); MSteph. 13. 4to á pappír skr. 1715 (eptir skb.); MSteph. 48. 4to bl. 6 á pappír skr. 1669; auk þess nokkur fleiri (sjá NgL. III, 105). Prentuð á dönsku í Jonsbogen 1763 bls. 383—84. Sbr. Crymogæa lib. III, 124.

R[ettar] B[ot] H[akonar] K[onungs][1]).

Hakon með Guðs miskunn noregs konungr et cetera.

Vær hôfum spurt þriotzku þa ok vhlýdni. sem þer hafit haft um hriðir. at þer hafit fur numiz at sækia lôgþingi ýðuart. æ hueriu ári moti lôgum ok fornri landzins siðueniu. ok fellit niðr með þi lôgþingit. ok missir almuginn þar fýrir sinna rettinda. ok nauðsynia. þi bioðum uęr at þer sækit lôgþingi ýðuart Rękiliga sem uant er. ok uitit fyrir uist. at huerr er þat fur nemz. skal mæta uaʀi sannri ubliðu. ok luka þa sekt sem við liGr. ok æ þat ofan. fur bioðum uer lôgmonnum uarum at segia nockurum manni lôgh. þeim er sýslu hefir með ýðr. ne lensmonnum þeirra. eðr biskups ærmonnum. þeim er nauðsýnia laust hallda æigi þetta vart boð. a næsta sumri eptir er hann kemr æigi til lǫgþingis á nockuru sakaferli. sem honum kann til bera.

Var þetta bref gert æ aualldznesi[2]). a trinitatis Messo dag. æ fiortanda[3]) æri ʀikis vars.

---

214. **1. December 1313. i Niðarósi.**

Skipan Eilífs erkibiskups í Niðarósi, Helga biskups af Ósló, Ingjalds biskups af Hamri, og Auðunar biskups á Hólum, um

[1]) Vm þa sem alþingi sækia ecki Stockh. C4 (c. 1600); Alþingis sokn C8 (1608 eða 1548); [2]) augualleznesi 45; [3]) fimta 45 (sbr einnig Jonsbogen 1763 bls. 384).

páfatíund í sex ár af öllum kirkna eignum í öllu Niðaróserkibiskups ríki, samkvæmt bréfi Clemens páfa V.

Frumbr. AM. Dipl. Norv. Fasc. XXX, 5. Prentað í Dipl. Norv. I, Nr. 139. 24. Nóv. 1313 kunngerir Eilífr erkibiskup ásamt Auðuni «electus til Hola» að þeir hafi feingið bréf Clemens páfa V. um sex ára tíund (Dipl. Norv. VIII bls. 70).

Jnposicio decime omnium ecclesciasticorum reddituum per omnem prouinciam Nidrosiensem[1]).

Jn nomine domini amen.

Nouerint vniuersi quorum interest quod nos Elaws dei gracia archiepiscopus Nidrosiensis, Helgo Osloensis. Jngelldus Hamarensis et Audoenus Holensis eadem gracia episcopi anno eiusdem m°. ccc°. xiij. octauo kal. Decembris Nidrosie in prouinciali concilio residentes mandatum sanctissimi in Christo patris ac domini nostri domini Clementis pape quinti super inposicione decime omnium ecclesiasticorum reddituum per Nidrosiensem prouinciam sicut per ceteras mundi partes usque ad sex annos persoluende reuerencia qua docuit recipimus et statim coram nobis fecimus sollempniter publicari. ac postmodum inter nos tractatu habito diligenti qualiter mandatum apostolicum posset per nos excecucione debite efficacius demandari. cum ipsius formam maxime quo ad aliquas dicte prouincie partes in toto obseruare ipsa inpossibilitas interdicit. Nos tamen formam ipsius mandati apostolici quanto vicinius possumus sequi fideliter et deuote cupientes communi deliberacione decreuimus in eodem taliter esse procedendum.

Jn primis quod quilibet episcopus in sua dyocesi eligat duos discretos collectores pro decima reddituum episcopalium canonicorum et capituli colligenda.

Jtem per plebanias et rura collectores ordinentur prout melius visum fuerit expedire qui decimas ipsas colligant et ad ciuitatem deducant in ipsarum rerum periculo et expensis.

Jtem in qualibet ciuitate procuratores ordinentur qui nomine episcopi et capituli decimas a collectoribus per totam dyocesin collectas sub discreto computo recipant. ac deponant in tuta custodia conseruandas.

Jtem singuli collectores seu procuratores sic assumpti

[1]) Aptan á með litlu yngri hendi.

literas et instrumenta fieri faciant super omnibus et singulis collectis et receptis per eosdem. ut clare et lucide probari posset a quo quantum et quando. et pro quo tempore quolibet sit solutum.

Jtem tam episcopi abbates et alij claustrales. quam canonici plebani ac alij ecclesiarum seu capellarum rectores de omnibus redditibus et prouentibus suis ecclesiasticis qui fiunt. vel obueniunt in illis rebus que seruando seruari non possunt decimas in sicca pecunia persoluant ad valorem et iustam estimacionem illius temporis quo eosdem redditus et prouentus contigerit euenire.

Jtem vbicumque prelati vel alij clerici religiosi vel seculares redditus suos certo precio uendunt iusta decima de ipso precio integre persoluatur.

Jtem vicarij canonicorum cathedralium ecclesiarum de vicarijs suis quas de ipsis canonicis percipiunt nullam decimam soluere teneantur. sed qui[libet] canonicus prebendam suam integre decimabit. sed vicarij plebanorum. quos plebani in suis tenent expensis. de vicarijs suis quas vltra expensas percipiunt decimam soluant. et tum in decimacione ipsius plebani deducatur.

Jtem de funeribus et alijs incertis obuencionibus soluat quilibet secundum discretam estimacionen. et si collector noluerit contentari ad superiorem recurratur. et ipsius sentencia preualebit.

Jtem testamenta pecuniaria que in rebus quibuscunque mobilibus sine onere vel condicione legantur decima persoluatur. de predijs vero et alijs immobilibus ac vaccis prouenientes fructus debent decimari.

Jtem de agris et predijs que prelati claustralis seu clerici seculares propriis sumptibus excolunt. de censu ipsorum prediorum et agrorum. qui secundum iustam et communem estimacionem limitari debet et inponi. si prius inpositus non fuit decima persoluatur.

Jtem in qualibet dyocesi tempora solucionis per dyocesanum ipsum prout possibile uiderit limitentur et prefigantur. ita tamen quod decima ipsa pro quolibet anno in kal. octobris eiusdem anni integraliter sit soluta.

Jn cuius rei testimonium sigilla nostra presentibus duximus apponenda. Datum kal. Decembris. loco et anno supradictis.

---

215. 14. Juni 1314. í Björgvín.

RÉTTARBÓT Hákonar konungs háleggs um ýmsar breytingar á Jónsbók.

Þessi réttarbót er ein af þeim, sem menn um langan aldr hafa skotið í smágreinum hér og hvar inn í Jónsbók, og hefst sá siðr líklega með þessari réttarbót, því í henni er skipað, að hún skuli færast inn í lögbók. Hér er réttarbótin prentuð eptir Ny kgl. s. Nr. 1930A. 4to bls. 141—45 skinnb. frá c. 1320, og er hún hér ágæt og vart í nokkru handriti betri. Hún er til í fjölda handrita, en ekki er hirt um að geta þeirra hér. Áðr er hún prentuð í Lovsamling for Island 1853 I, 27—31 eptir AM. 127. 4to og þar eptir í Jónsbók Akureyri 1858; síðan er hún prentuð í Norges gl. Love 1885, IV, 349—53 eptir gl. kgl. s. 3270. 4to samanbornu við AM. 346. Fol. og Gl. kgl. s. 3269B. 4to og er í þessum útgáfum vísað til hvar hverri grein er ætlaðr staðr í lögbók. Sbr. Crymogæa Arngríms lib. III, 125. Þessi réttarbót er eiginlega íslenzka útgáfan af réttarbótinni frá 2. Mai 1313.

Rettar bætr hakonar konungs.

Hakon með guðs miskunn noregs konungr son magnus konungs sendir ollum monnum a islande þeim sem þetta bref sea eðr heÿra q[veðiu] G[uðs] oc sina.

Skÿllda uar ok astsemd su sem ver hǫfum til alþÿðu rikisins sakir mikils goðvilia ok eptirlætis er allir menn hafa oss tęð. siðan gvð kaus oss til Rikisstiornar. krefr oss vm at bæta þa luti sem afatt er. einkanlega vm lǫgh ok landz rett. hǫfum uer þui vm hugsað með bezstu manna raði ok bænarstað vitrastu manna heðan af landinu. sem þa vóru i hea oss. ok letum skrifa yðr til nÿtsemdar ok hugganar. þessar rettar bætr sem her fÿlgia.

1. J fÿrstu at þau mál er lagmenn ok syslumenn fa ægi yfir tekit. þa geriz xij. manaða stefna til noregs. sua at þa megi þar rett af gera.

2. Jtem at sua se laga stefna til syslumannz sem til lǫghmannz ok halfu minne sekt uið.

3. Syslumenn skulu ok mega gera stundar stefnu til sin at ansuara monnum þeim. sem lǫglegt mal hafa a hendi þeim.

ok suara vitnum þeirra. ok geri þeim rett sem mishalldinn er. þo at stefndr komi æigi forfallalaust.

4. Sua uilivm ver ok rett se at gera stundar stefnu til lôghmanz. þa er hann riðr vm land at skipa malum manna. sua þo at stefndr megi auðuelliga vitnum sinum til koma.

5. Þeir bulavsir menn skulu skatt gjallda. sem hann a .x. hundrat fýrir sealfan sik. ok c. fýrir huern vmaga sinn. ok eitt c. ýfir fram.

6. Fýrirbioðum uer at þeir [se] leensmenn sem eigi eru fullueðia. at bæta þat aptr sem þeir taka vrettliga vtan bændr samþýkki annat.

7. Eigi vilium ver at nokkuʀ maðr skioti mali sinu vndan lögmanne æðr sýlumanni. ok talmi sua rettinðe manna. ef skýnsamir menn sea. at þeir fai ýfir tekit.

8. Þat capitulum skal ok uera i bok ýðarri. sem stendr i rettar botum þeim sem vilhialmr kardinali gaf ôllum monnum i noregs kongs ʀiki ok þetta er vpphaf at. ᴇf uirka dagha ma æigi vinna sakir veðrattv ok þetta annat er sua hefr. ꜱakir nauðsýnia landzins ok ýmislegrar veðrattu[1]).

[1]) Þetta er úr skipan Vilhjálms kardinála frá 16. Ang. 1247 (Dipl. Isl. 1, 562—65 D); í Ny kgl. saml. 1930A. 4to bls. 145 stendr þessi klausa, sem réttarbótin skipar í lög, beint aptan við réttarbótina, og af því að þessi texti er ekki notaðr áðr læt eg prenta klausnna hér.

leyfi vilhialms*).

Þetta leyfi gaf vilhialmr kardinali þa er hann kom i noreg. en siðan staðfesti innocencius pafi.

ef uirkia daga ma æigi vinna firi sakir ueðrattu. þa skal maðr i leyfi hialpa heyi sinu ok korni ok oðrum bnfôngum. ok ôllu alldine sektalavst a helgum dôgum. En vm helga daga gerum ver þa grein aa. at þat leyfi skal hafa sem nauðsyn stendr til. ok nytsemd er i. ok þo nndan taka hinar stęrstu guðs hatiðir.

vm veðrattu*).

Fyrir sakir nauðsynia landzins ok fatæktar ok ymisligrar ueðrattn ok at menn healpi þui betr hinnm fatæka. þa iatum ver af guðs halfu ok lofum korn at skera. ok allz kostar ok at biarga ok sua heyi til knelldz aa ôllum nonhelgum daugvm. nema olafsmesso aptan fyʀa. marinmesso aptan huarntueggia. Sua skal ok ef menn fa veðrattu a laugar daghinn til utroðrar. þa er lofat at fiskia til kvelldz. Ef maðr hefir gôrt heylass

*) með rauðn.

9. Sua hôfum ver ok staðfest at alla þa vendræðamenn sem komaz a kirkiu naðir. skal sektalæst flýtia til noregs ok koma þeim þar i kirkiu. eptir raði syslumanz ok loghmanz. vtan þa menn sem kirkia a æigi at hallda eptir lôghum.

10. Þessar naðir gerum ver ok vm fiôlmæli heþan af. at ef maðr kallar annan mann drottins suika. fordæðu. morðingia. þiof. huinn. putuson æðr horkonuson æðr ônnur iafnskemmileg orð. sæ skal sekiaz. iiij. Môrkum við konungdominn. en ôll þav fiolmæli er smæri dæmaz ok til minne hneyksla horfaz skulu eptir domi ganga. beði sekt ok rettr þeirra er talað er til. þar til er ver getum við komiz með anefndri grein. at setia þau með hinna bezstu manna raði.

11. En huar sem maðr fær meyiar æðr konu eptir lôghum. ok eru honum leðir penningar til æðr i borgan gengit fyrir hann at hann a sva mikla peninga sem þa eru anefndir. þa skal sômu leið fara sem bok uattar vm þat fe sem konu verðr leeð til heimanfýlgiu. en ef hann uanrækir. þa sæki giptingarmaðr æðr lôglegr vmboðsmaðr konunnar henne til handa ok taki þar af fyrir starf sitt sua at hann se halldinn af.

12. Þar sem maðr flestir ser meý æðr konv eptir guðs lôgum ok samðýkt beggia þeirra. þa eru þau bôrn ôll lôglega til arfs komin sem þau eiga. huart sem þau eru getin fyrir festing æðr eptir. nema þav hafi i hórdómi getin verit. en su ein er lôgleg festing. eptir þui sem forn landz lôgh vatta en engi ônnur. ef maðr tekr i hônd meý æðr konu nær verandom skilrikum monnum ok festir hana með þeim orðum. sem þar til heýra. En huerir sem oðruviss binda sinn hiuskap. þa skulu þeirra bôrn æigi lôglegh til arfs.

13. Sua er nu ok skipað at moðir skal taka arf eptir barn sitt. þat sem hvn gat i frillu lifnaði. i settu erfð. næst eptir frillu sun. en ef hvn er æigi til. þa tekr frilludottir.

14. Sa maðr skal æigi mega iata arfi vndan ser. er

---

æðr uiðarlass firi helgi. þa skal heim reiða ok inn bera þo at heilagt se. sua skulu ok ônnur lauss. aull þau sem a ueg eru komin firi helgina heim reiða ok þau ein inn bera sem næta ma spilla eðr stulld vm at ottazst.

hann er ẏngri en tuitugr. en [sá] er tuitugr er hann hefir. xx. iola nætr.

15. Þat [er] nu ok staðfest at ætleiðings son skilgetinn taki næst eptir ætleiðing ok þa sem honum standa iafnfram. þann arf sem faðir hans uar til leiddr ef hann er andaðr. Sua ok at sonar synir se .ij. æðr fleiri þeir sem faðir þeirra var skilgetinn. þa taki eigi meira arf en faðir þeirra stoð til. ef þeir eigv við þa at skipta. sem iafnfram þeim standa.

16. Skẏllt er huart hiona at fera annat fram a fe sinu huart er þat er. at framfærslu þarf. verðr óðt æðr fær annan krankleika. en ef þav hafa með minna fe saman gengit en þau ætti bæði saman til .ccc. ok alldrei urðu þau sua rik at þau ætti konungi skatt at giallda. þa se huart annars handbiargar vmagi æðr flẏti a ʀossi ef þau fa æigi fyrir vnnit. ok þeirra bǫrn skulu æigi a hreppa segiaz. æ meðan þau géta flutz með fẏʀa skilorði. þat skal þrot heita sem sæ andaz fra. sem með handbiǫrg atti fram at færa. æðr fẏʀ sǫgðum flutningi.

17. Eigi skal þurfa fleirum at bioða omaga en einum vtan sa sẏne með skilriki i lavgligan stefnudagh. at nokkurir standa honum iafnfram þeir sem fullan forlagseẏri eiga. þa skal ekki framaʀ dæma a hann en eptir rettri tiltǫlu.

18. Bioðum ver ok staðfastlega. ok i laugh setium at allir þeir fatekir menn sem með uónaruðl ganga ok þiggia ǫlmusu. eru skẏlldir at leiða æðr bera bǫrn sin æðr annan ueg flẏtia. eptir þui sem skynsamir menn sea at þav fæ orkat ok sua foðvr sinn ok moðvr. vtan sonr æðr dottir vinne sér aðr tueggia missera biǫrg. þa eru þau æigi skẏlld at ganga a fateki með foðvr.

19. En ef þeir menn sem a vanar vǫl ganga ok þiggia ǫlmusu vanvirða bændr æðr aðra dvgandis menn þa sem heimilis fastir eru með orðum æðr uerkum. sua at þat uerðr vitnisfast. þa suari likamlegri refst eptir lǫglighum domi. vtan þeir fai fullan borgunarmann. at lvka slikt sem dæmt uar i rettar salarstefnur. En ef þeir sem misgiǫrðu vilia hlavpa vndan domi krefi sa granna sina er fẏrir vanvirðu uarð. ef konungs vmboðsmaðr er æigi þar at taka þann mann ok fiǫtra hann sua undir lǫghsamdan dom. utan sa fai borgunarmann at hann skal hvergi hlavpazt.

20. Jtem vm þa lausamenn sem vskil gera ok skulldir

eiga at luka. þa taki syslumaðr huerr i sinne syslu goz þeirra með uitorði skilrikra bonda ok lvki hverivm sina[1]) skulld. ef til vinnz. elligar missi huerr sem tala rennr til.

21. Ef þorsdagh þann sem .iij. uikur eru af svmri berr æ helgan dag. þa komi øll gøgn fram vm iarða brigði hinn næsta syknan dag eptir.

22. En ef maðr tekr falka æ annars mannz iorðu. eigi sa. ij. luti uerðs[2]) er a iorðu byr. en sa þriðiung er tok.

23. Heðan i fra skal xv. uetra gamall maður vera vitnis bær. og eiga sealfr rett a ser ef honum uerðr meðr ofvnd misþyrmt. skal ok fearhalldz maðr hans fullu fyrir suara af hans gozi vm þat sem hann kann brotligr uerða.

24. En ef menn verða sannprofaðir at þui at stika rangt viliandi með rettum stikvm. æðr uega rangt með rettvm vagvm æðr mæla vrettliga með rettum mælikerolldum ok verðr þat eyris skaði æðr meiri suari sliku fyrir. sem hann hafi stolið iafnmiklu.

25. Biðrgvinar askr motmarkaðr skal ganga til hunangs ok lýsis æðr sa sem sýslumaðr lætr þar eptir gera. En huerr er i røngum aski mælir. suari fullri sekt eptir þui sem bok vattar. en þeim fyrir skaða er sins misti vretliga.

26. þar sem menn riufa skipan i ueri æðr i langferðum. sekr hverr halfri Mork við konung. er þat gerir. en hinum eptir løglighum domi er skip atti. En huerr sem tekr visvitandi annars skipara sekr halfri Mork við konung. ok skal þo skipari uera þar. sem hann reð sik fyri.

27. konungr a sekt þa sem við liggr vm helgra daga ueiðar.

28. Engi maðr skal ok abyrgiaz vitni lengr en .iij. vetr. vm skullda lyktingar. ef skulld er minne en .vj. hundrut. en þo at skulld se meiri abyrgiz æigi lengr en .v. uetr.

Bioðum ver at þer halldit þessa alla articulos fyrir løgh ok latið skrifa i bok ýðra. en ef nokkurir lutir eru þeir her i er yðr þikkia of linir æðr ofharðir. þa skrifit skiluisligha til uár ok skulum ver þa skipan a gera sem ver seam með bezstu manna raði at ýðr megi hentaz vera.

gefi gvð ýðr sua þessar rettar bætr at hallda at iehsus

---

[1]) sinum, hdr. (!) [2]) uerðr, hdr. (!).

christus hafi tign og uirðing af en ver sæmd ok æru. en sealfum yðr snuiz til naða ok nytsemdar. ok ollum þeim sem eptir yðr kvnnu at koma.

Þetta bref var gørt i biôrgyn. þrimr nottum fyrir botulfs uôku. a xv. are rikis vars. herra biarne auðvnarson inzsiglaði. jon mvrti ritaðe.

---

216. 1314. í Túnsbergi.

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um félagsgerð hjóna.

Thott. 2097. 4to bl. 100b skinnb. skr. c. 1650; næst á undan er réttarb. um Kristinrétt 1316, en á eptir er um melrakkaveiðar, sem hér er og kallað réttarbót Hákonar konungs; áðr stendr hér í skinnbókinni réttarbótin frá c. 1306 um félagsgerð. Þessi réttarbót þekkist ekki áðr; ekki er víst hún eigi við Ísland.

[H]akon m[ed] G[uds] m[iskun].

Med þui at iduglega hevur firi oz kiært vered. at løgmenn vorer vnderstanda imislega þann capitula. sem vottar um fielagz giørd. þã giôrum vier þeza skipan a umm alldur oc æfi obrigdanlega.

1. Ath þeir menn sem gipta saman børn sijn: so at huoretueggiu fedgin ero vit. þã skal sã skildage løglegur vera sem giør er a brudkaupzdege. huort sem er mãle edur helminga fielag. ef sã Mãldage fer þar fram med jäirde oc samþicke. med handsølum af beggia hende.

2. Nu giptizt sã madr sem hann ã Børn skilgeten ãdur. oc ero þau j omegd þann tijma: þã mã hann med øngvo mote helmingafielag leggia vid þã kono edur mey sem þã fær hann: þviat oz lijzt þat vera mega full arfsvik vit børnenn giør.

3. Enn ef hion vilia sialf leggia sijn ã mille. þã mega þau þat med þui mote giora: ad þau eige barn edur børn skilgetenn sijn ã mille: ef þar ero vit lôgleiger erfingiar barnsens: þeir sem erfa skilldu. ef huorke være til fader nie moder.

Var þetta vort bref giort i Tunsberge ã xv: äre rikis vors.

---

217. [1. September 1314].

MÁLDAGI Þorlákskirkju á Eyjólfsstöðum á Völlum, er Árni biskup Helgason setti.

AMagn. Dipl. afskrr. Nr. 4465 með hendi Árna Magnússonar sjálfs, og skýrir hann frá frumritinu á þessa leið: »Þetta fyrer framan skrifad, var med nyrre hendi ritad aptan ä kalfskinns bref daterad 1581. og innehalldande giörning mille Eiriks Arnasonar og Halldoru Jonsdottur, um jördena Eyolfstade &c. Giörningur þesse fram for ä Eyolfstödum a Völlum föstudagenn næstan epter krossmessu um hausted 1580. enn innsigladur er hann og brefadur ä Skriduklaustre sidarsta Martii Anno ut supra 1581. Þetta fyrrsagt kalfskinnsbref ä nu (1708) syslumadurenn Biörn Petursson ä Bustarfelle». AM. 259. 4to bl. 17a og 96a skr. 1592. Ekki er það með öllu víst, að þessi máldagi sé hér í sinni upprunalegu mynd, en mjög fjarri mun það þó ekki. Þess er hvergi getið hvenær Árni biskup hafi riðið yfir Austfirði, en ekki er ólíklegt það kunni að hafa verið um þetta leyti, því ekki er þá getið yfirreiða hans annarstaðar né utanferða.

[Eyolfstada kyrkiu maldage[1]).

Arni biskup Helgason hefur vigt kyrkiuna[2]) a Eyolfstodum a vollum i Fliotzdalshieradi gudi til lofs og dyrdar og hinum helga þorlaki biskupi og signudu[3]) Katerinu med þeim skilmäla at þar skal syngiast annan hvorn dag helgan og iiij. skylldumessur at auk kirkiudag og katrinarmesso og þorlaksmesso vm veturinn firi jol og annnan hvorn paskadag og luka presti .ij. merkur i kaup. kirkian a .ij. kugilldi og skal þar lukast af xij. alner fatækum monnum þorlaksmesso um veturinn og luka .x. aura yfer til vallaneskirkiu arlega firi þa skulld at þar takast heima kirkiu tiundir og presttiunder og liostollar heima manna þeirra sem þar bua. þviat þar takast heima allar skylldur. kirkiudagur a Eyolfstodum er iafnan hinn nædsta sunnudag epter hofuddag Johannes baptistæ.

---

218. 18. Október [1314].

MÁLDAGI Maríukirkju í Steinsholti í Gnúpverjahrepp, er Árni biskup [Helgason] setti.

Landsb. 268. 4to bl. 57a skr. 1601. Það er ekki með öllu víst hver

[1]) [Eyolfstader 259; [2]) kirckiu 259; [3]) sl. 4465.

Árni biskup það er, sem hér er nefndr, þó virðist það helzt vera Árni biskup Helgason. Það bregðr fyrir svo fornlegum rithætti á sumum orðum í máldaganum, að hann getr varla verið frá tímum Árna biskups Ólafssonar, og að efni til ekki heldr.

Steinnsholltt.

Maríu kirkia j stei nnzholltte var vijgd af herra arnna biskupi jn festo sancti luce euangelistę. Hun a heimaland allt og vij cugilldi. kluckur iiij oc Biollu. smellta kross. Bocur iij. kloda(!) cer.

Þar scal vera heimilis prestur oc veita allar tijdir.

Þar liggia vnndir v[1]) Bóer oc ij Bónhus j gelldijnga hollti oc hlijd. circkiu tijundir og lika gróptur af þessum Bøium.

---

## 219. 15. Marts 1315. í Niðarósi.

Vígleikr Bárðarson selr með samþykki husfreyju sinnar Gyríðar Jónsdóttur kanokum í Niðarósi fjórðunginn í jörðinni «þiasmoarslætto» «synzsta garðenom» «firir tyttugu merkr». «En herra Auðun biscup a Holom skilldi firi neruerandom oc ahóyrandom Ragnu Barðardottor systur minni . . . . . i husum firir sag(ð)s biscups a Holom. er þa var hann i korsbróðra garðe i Niðarose.» Bréfið gert «i Niðarose þrim nattum ef[tir] Gregoriusmesso þa er lidnir varo fra burð vars herra Jesu Christi þushundrat vettra þriuhundrat uættra oc fimtan vettr.»

(Dipl. Norv. III, Nr. 105 eptir frumbr. í AM. Facs. 8. nr. 1a í hinu norska frumbréfasafni).

---

## 220. 2. April 1315. á Hólum.

Auðun Hólabiskup staðfestir stofnunarskrá Jörundar biskups Þorsteinssonar fyrir klaustrinu á Stað í Reyninesi frá 1295 (Dipl. Isl. II Nr. 159).

AMagn. Fasc. I, 3 frumbréfið á skinni með norsku handarlagi

[1]) í máldaga Jóns biskups Haldórssonar eru taldir að eins fjórir bæir, en það þarf ekki að vera annað en afskriptamunr, fyrir: vj.

og með innsigli Auðunar biskups nokkuð bráknðu. Dipl. afskrr. AM. Nr. 2945 (þrjár afskriptir); afskriptir eru og í AM. 277. 4to bls. 22, og AM. 280. 4to bls. 1—3; Landsbókas. 107. 4to bls. 1. Bréfið er áðr prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 164—66 með latínskri þýðingu. Bréfið er tekið upp í Biskupasögur séra Jóns Haldórssonar.

Jn nomine dominj amen.

Þat séé allum mannum kunneght at þa er lidit var fra bighat burde uars herra jehsu christi þushundrat ccc ok fimtan áar profaðum wer audun medr guds myskunn biskup a holum firir sealfra várs ʀaun ok margra dugandes manna framsogn huersu fagrliga ok bæidrliga forséo virdulighr herra godrar minningar Jorundr er nærst uar firir oss biskup heilagrar hola-kirkiu hefir henne væitt ok sealfa hana ok hennar dætr marg-falldliga prytt medr vitrligri firirhýggiu huadan af er hann setti sýstra klaustr at stad j ʀæyninese [fýrr en maudruualla klaustr[1]) gefande þar til þessar æignir medr fullu skilriki. halfan stadinn hæima. hafstæins stade. grafir tuær. pafastade. vermsla land halft. fiallz land. skardsá. hól. stopul. dadastade. hola. foss halfan. brókar læk halfan. hnudsnes. sela halfa. hof. feriu hamar. kara[stad]e. hroars dal. kelldu dal. bakka. skaurdu-gil ýtra. gek lands læiga af þessum iordum otan hæima ok hafstæinsstadum jn summa sextan hundrat ok tuttugu. sua læiddi hann ok til medr hæilum fortalum ok fagrum kenning-um fru hallberu er sidan vard abbadis sagdz klaustrs ok [m]argar adrar ʀikar konur medr miklu godze at stýrkia stad-inn ok hæilaga ʀeglu ok prýda medr fagrum lifnade. Ꝁu af þui at oss sýnist þessi hans skipan sua hialpsamligh sem nýtsamligh bade til salu og sæmdar honum ok oss ok uáʀum lagligum eptirkomandum. þo at j nakkorum græinum sýnist hann fram-arri gefit hafa af hola stadar godze en hæilagrar kirkiu lagh uatta þa stadfestum wer þessa hans skipan ok giof. æfinliga vbrigdanliga halldnum ʀetti sæmd ok lagum hæilagrar hola kirkiu um biskups tíunder af æignum oftnefndz klaustrs. viter ok firir uist at wer skulum uera þeirra formadr ok abóti þæim ok stad þeirra ok godze til uerndar ok hagýnda. bidium wær uara lagliga eptirkomendr hola biskupa at þer uendit goduilia

[1]) frá [ er bætt inn yfir línunni með annari en samtíða hendi.

til klaustrsens og sýstranna medr astsemd ok fadrligre umhýggiu firir biodande huerium manne at kallza þær edr unada. hindra edr talma ifer sagdu godze af sinum Rettindum. væntum wer og træýstum fastliga at allir þeir godir menn sem til þeirra gera ual ok uinattusamliga audlist af gude sealfum j himinrike sæmd og saluhialp. En þeir skulu fá af oss þak ok afwsu. ok at allir menn uerandi ok eptirkomande viti firir uist ok trui stadfastliga þessa uara skipan settum wer firir þetta bref vart jnsigle. Datum anno dominj predicto. loco prefato. Quarto Nonas Aprilis. Ordinacionis nostre anno tertio.

---

## 221. 25. November 1315. i Björgvin.

### Réttarbót Hákonar konungs háleggs um bréfabrot.

Þessi réttarbót mun ekki hafa verið gefin Íslandi sérstaklega eins og hún ber með sér, en á 14. öld hafa menn byrjað að taka hana upp í Jónsbókarhandrit og öllum hinum prentuðu útgáfum af Jónsbók fylgir hún. Hún er til í tvennskonar textum, sem hér eru kallaðir A og B. Venjulegast kemr hún fram í A-myndinni, en í hinu elzta íslenzka handriti, sem til er af henni, er hún eins og í B; fylgir þeim texta að eins eitt handrit annað, en það er pappírsbókin í MSteph. 13. 4to sem er skrifuð eptir skinnbók frá 16. öld. Þess má geta að einstaka klausur úr þessari réttarbót finnast á víð og dreif í handritum, eins og af svo mörgum öðrum réttarbótum; fipar það opt meir fyrir manni en frá megi segja að ákveða slíkar klausur, því að stundum eru þær ágrip úr réttarbótum með öðrum orðatiltækjum, og stundum er ómögulegt að ákveða þær[1]). Klausa sú sem í B er § 2, um fjárskaða, er t. a. m. skrifuð á spássíu í AM. 343. Fol. bl. 83b (lögbók Svalberðinga) við kap. 22. í Farmannalögum Jónsbókar. Um ártal réttarbótarinnar er þess að geta,

---

[1]) Ein slík klausa er t. a. m. þessi, er sumir láta standa í sambandi við þessa réttarbót (sbr. NgL. III, 115) IBfél. 68. 4to skr. c. 1760; MSteph. 48. 4to ch. Oddur Jónss. 1669 fol. 23 (styttri):

R. B. H. K.

Það barn er ei alið til arfs er maðr á með þeirri konu er hann festir að sinni konu lifandi, ef þau eru ei löglega skilin; hann á á hvorugri rétt meðan hann breytir svo. Svo og verðr það barn ekki skilgetið, sem hann á framhjá konu sinni þó kvinna hans deyi, og eignast hann svo þá konu, er hann hafði í hórdómi fram hjá sinni.

(Thott. 2106. 4to bls. 17—18 eignar þessa klausu Eiríki konungi).

að það finst eiginlega ekki nema í þrem handritum: AM. 157. 4to, AM. 94. og 102. 4to (= eitt hdr., eptir sama frumriti) og Stockh. C21 4to.

---

A.

Prentað hèr eptir AM. 350. Fol. bl. 76a—b skb. 1363 og borið saman við AM. 351. Fol. bl. 131a - b skb. c. 1360. En í mörgum handritum íslenzkum er þessi réttarbót til svo sem: AM. 345. Fol. bls. 152 skb. c. 1570; AM. 132. 4to bls. 140 skb. c. 1430; AM. 147. 4to bls. 189 skb. þetta c. 1600; AM. 157B. 4to bls. 48 skb. c. 1460; AM. 161. 4to bls. 253—54 skb. 1561—65; AM. 40. 8vo bls. 382—83 skb. c. 1560; AM. 55. 8vo bls. 25—26 skb. c. 1580; AM. 456. 12mo bls. 60—61 skb. c. 1480; AM. 458. 12mo bls. 50—51 skb. c. 1570; AM. 60. 8vo. bl. 63b—64 papp. c. 1690; AM. 200. 4to bl. 11a pappír c. 1700; MSteph. 12. 4to papp. c. 1570—80; MSteph. 41. 4to papp. c. 1730; MSteph. 48. 4to bl. 8b papp. 1669; Gl. kgl. s. 3274A. 4to papp. c. 1620; Ny kgl. saml. 1923. 4to bl. 146—47 skb. c. 1590; Ny kgl. s. 1924. 4to bl. 53a—b c. 1550; Ny kgl. s. 1933. 4to bl. 97b skb. c. 1600; Ny kgl. s. 1911. 4to bls. 217—18 papp. c. 1750; Ny kgl. s. 341. 8vo skb. 1656—68; Thott. 2097. 4to skb. c. 1650; Thott. 2100. 4to skb. c. 1560; Thott. 2101. 4to skb. c. 1490; Thott. 2106. 4to papp. c. 1750; Uldal. 320. 4to papp. 1603; Uldal. 322. 4to skb. c. 1570; IBfél. 122. 8vo papp. c. 1660; IBfél. 60. 8vo papp. 1595—1604; IBfél. 315B. 4to bls. 68—69 papp. c. 1670. Prentað í Norges gl. Love III, 214—16, og eins og áðr er getið í öllum Jónsbókar útgáfum.

R[ettar] B[ot] H[akonar] K[onungs][1])

Hakon með Guðs miskunn noregs konungr sendir. Hº. logmanni [Q[ueðiu] G[uðs] ok sina.[2])

Margir menn hafa kięrt fur oss iðuliga. ok einkannliga. þeir sem umboð hafa [uaʀa uegna[3]) at sækia brefa brot oss til handa. at þer uilit ǫngua sekt æ [þa dæma. er briota brefuar[4]). eðr riufa þa orskurði sem uęr hǫfum a lagt eðr staðfest. [ok af[5]) þui uilium uer at [þer uitit[6]) at vær hǫfum sua skipat staðfastliga furr meiʀ ok sua uilium uęr at geymiz [upp fra þersum[7]) degi obrigðiliga. at huerr sem brytr bref uar. heðan af eðr doma. varnaðar bref eðr staðfestu[8]) eðr þau onnur

---

[1]) Hakonar konungs bref vm brefabrot 351; [2]) [et cetera 350; [3]) [af oss ok varri halfu 351; [4]) [segia þeim sem bref vaar briota 351; [5]) [sl. 351; [6]) [þu vitir 351; [7]) [fra þeima 351; [8]) bref, b. v. 351.

sem uęr gefum ut ymsum monnum til rettinda. stýrks eðr naða. þo at æigi se sakir æ nefndar. i uarum brefum. þæ uilium uęr. at huerr maðr se sekr[1]) viij. mǫrkum er uar bref brýtr. ok sua bioðum uęr þer at dôma ok laga orskurð æ at leGia. heðan af[2]). furr nefndar viij. merkr. æ huern þann mann er at þui uerðr kunnr eðr sannr. sem aðrar laga sektir þær sem á nefndar ero i landz laga bokinni sealfri. nema þar sem menn gera friðbrot[3]). heimsokn. [eðr rán[4]). eðr aðrar þær sakir sem oss þickir [æigi sua litil[5]) sekt til koma. þa uilium uęr at fari eptir þui sem lôgbok uattar.

[var þetta bref giort j biorgvin vpp æ katrinar messo dag. æ. xvj^da^. are rikis uars[6]). [Herra juar kanceler jnnsighladi[7]). [En þorger þouesson ritade[8]).

---

## B.

MS Gl. kgl. saml. 3269B. 4to bls. 125—26 skb. c. 1340; sbr. Steph. 13. 4to. bls. 269, papp. 1715, eptir skb. frá 16. öld.

rettarbot hakonar konongs.

Hakon konungr etcetera. senndir H. loghmanne etcetera.

1. Marghir menn hafa iðuligha kært fyrir oss ok einkannligha þeir sem vmboð hafa af uorri halfu at sækia brefhabrot oss til handa at þeir uilia engha sekt æ þa dæma sem bref uar briota. eða. riufa þa orskurði sem ver hofum æ lakt. eða staðfest. ok af þvi uilium ver at þu uitir at uer hofum sua skipað staðfastligha fyr meir. ok sua uilium uer at geymiz fra þeima[9]) deghi obrigðiligha. at huer sem brýtr uar bref heðan af. eða doma. uarnaðar bref. eða. staðfestu. eða þau aunnur. er uer gefhum ut ýmissum monnum til rettinda. stýrks. eða. naða. þo at eigi se sektin ænefnd i uorum brefum. þa uilium uer at huerr maðr se sakaðr atta morkum er uor bref brýtr ok sua bioðum uer þer at dæma ok lagha orskurð æ leGia heðan af fyr nefndar atta merkr æ huern mann þann er at þui uerður kunnr

---

[1]) sakaðr 351; [2]) fra 351; [3]) eðr b. v. 351; [4]) [sl. 351; [5]) [meiri 351; [6]) [þannig 157B eitt; etcetera 351; Datum etcetera 350; [7]) [b. v. eptir Stockh. C21; [8]) [bætt við eptir AM. 94. 4to og 102. 4to; [9]) þma, hdr.

ok sannr sem aðrar laghasektir þer sem æ nefndar eru i landz laga bokinni sialfri nema þar sem menn gera friðbrot eða heim soknir ok ræn ok aðrar þer sakir sem oss þickir eigi sua litil sekt til koma. þa uilium uer at fari eptir þui sem loghbok uattar.

2[1]). Jtem huaruitna þar sem maðr gerir til fiar skaða. eptir þui sem .vi. skýnsamir menn meta loghligha til nefndir af rettaranum ef uitni eru til. þat er allt fullrettis skaði er menn meta til halfrar merkr. eн ef minne er þa er ðfundar bot eptir domi ok atuikum þeim sem ger er skaði. nu dylr hann ok eru eigi uitni til. sýni lýrittar eiði. enn settar eiði fyrir fullrettis skaða. ok gialldi sem aðr uottar.

3. Jtem nu uill maðr annan sekia um eitthuert mæl enn annaʀ hafi honum sokn fýʀi æ hendi þa lati sa fýʀi af er siðaʀ tok til þuiat eigi mæ hann tueim ein andzsuor ueita. ef þat er eigi uęla sokn uið han ger.

4[2]). Konungr eða hans umboðsmaðr æ fýst kaup æ ollum uarninghi eða þarfindum huart. sem fallt hafha utlenzkir menn eða innlenzkir. þa skal honum fýst selia fyrir slikt uerð sem aðrer kaupa. ok vm allt þat sem hann þikkiz kaupz við þurfa ok fælt er þa skal hans umboðs manne fýst selia. þeim sem hann gerir til.

---

222. [1315].

Máldagi Grjóteyrarkirkju í Andakíl, er Arni biskup [Helgason] setti.

Með vissu verðr ekki sagt, að svo stöddu, hvort biskup sá, sem hér er nefndr, sé Árni Helgason eða Árni Ólafsson, en máldaginn hefir fornlegan blæ. Árið er og sett að ágizkun. Landsb. 268. 4to bl. 73a—b skr. 1601.

Grioteýre.

Þat er skipan herra ãrnna biskups j skalhollte at kirkia su er stendur a grioteýre skal hafa þennan maldaga. enn Bonde sa er þar Býr hafi heima halfua tijunnd sijna og heima manna

---

[1]) sbr. réttarb. Magnúsar konung 1274 (Dipl. Isl. II, 42); [2]) Prentað áðr, sbr. rb. 1280 (Dipl. Isl. II, 72B).

sinna. hälf tijunnd og lysitollur af grioteyre skul gr[e]idast. [til hvanneyrar].

---

223. [1315].

Máldagi Laurentiuskirkju í Görðum á Akranesi [er Árni biskup Helgason setti].

Landsb. 268, 4to bl. 47a—48b skr. 1601. Máldagi þessi er mjög fornlegr. Árni biskup Þorláksson tók biskupsforræði í Görðum 1285. Þó virðist þessi máldagi varla vera svo gamall. Virðist sízt fjarri að heimfæra hann til Árna biskups Helgasonar.

Gardar a akranese.

Þesse er maldagi kirkiu lorentij oc sebastiäne j gordum ä akranesi ad kirkian ä halft heima lannd oc skrijn gÿllt med helgum domum. sÿlfurkaleka iij oc einn kalek gylltann og gullkalek hinn fiorda. Sio manna messuklædi oc eirnn laushokull. kanntara kapur þriär. sloppar iiij oc fontklædi. iiij haalltaris klædi og ij thil krossalltaris. munnlogar ij. oc kerttistikur iij oc jarnnstika stor. sex kluckur. rodukrossar ij oc annar gÿlltur. fonntur. glodaker tuo. Tiolld vmmhuerfis kyrkiu. glerglugg oc einn stol oc messufata kistu. lektara. kerttastock. hälft annad pund vax. A millum oss j arnnarnesi oc griotgardz j galmars vijk ä kirkian allann storreka. oll þau tre er þuij eru leingri enn vj alnna ad bolexi megu setia ä fyrir framann enn fyrir ofann äla ä allt gardalanndd alla reka vt frä marklæk enn sa er vid gard ad osi. Selfarar tuennar onnur a marsstodumm enn onnur vpp med leira fyrir vestann gagnnvartt biskups breckv. afreit(!) j Suannga j Skorradal. ollum nautum oc ä gagnnheidi ollum saudum. kirkian ä x kÿr. xiij kugilldi asaudar oc leÿsa huertt [annad. xxx. gelldijnnga. þar skulu vera prestar ij oc diaknn oc huernn dag messa ij vmm lanngafostu. ef heimilisprestur er ä heÿnese. þa skal giallda j Garda hunndrad. J gordum skal sÿngia ij messur huernn miduikudag oc fostudag huernn. Tijunndir liggia vnndir þessa kirkiu. af halfum fiorda tijgir(!) bæia. þar skulu fylgia verkhestar fiorir. ecki fylgir skagi garda lanndi. kirkian ä slijki-

stein hunnsl(!) punng med pell. oc ij alltaris steina lausa. oc eirnn vijgdann[1]).

224. [1315].

Máldagi Eyrarkirkju [í Kjós] er Arni biskup [Helgason] setti.

Það er óvíst hvort það er Árni biskup Helgason eða Arni biskup mildi Ólafsson sem máldaginn nefnir, og úr því verðr ekki skorið með vissu að svo stöddu. Árið er og sett að ágizkun. AM. 263. bls. 66 skr. 1598; Landsb. 268. 4to bl. 76b skr. 1601.

Eyre[2]).

Þa er Arni biskup vigdi kirkiu a Eyri gerdi hann þa skipan a ad Eyrar kirkia skal taka tyvnd oc lýsitolla af ollum heima monnvm þar: enn jngialldur leggur til kirkiu j saurbæ xij ær.

225. 23. Juni 1316. i Björgvin.

Fjórtán menn og þar á meðal Haukr Erlendsson, samþykkja úrskurð þann, er Einar Ambason og Eindriði Sigmundsson féhirðar konungs höfðu gert um, að vörur átta vestfalskra kaupmanna («Vesfælinga») skyldu upptækar «firir þa skuld. at þeir hofdu læynt morghum lutum af sinum kaupðyri ok varningi». Bréfið gert «daghen nesta firir Jonsuoku a siautianda are rikis vars virduleghs herra Hakonar Noræghs konongs j Jonsstofu i konungs garde i Biorghuin».[3])

(Dipl. Norv. I Nr. 147 eptir afskr. í Stockh. C16. 4to og Deichmannssafni í Kristjaníu Nr. 11. 8vo).

226. 28. Juli 1316. i Björgvin.

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um að Kristinréttr hinn forni skuli vera í gildi.

---

[1]) Hér kemr strax á eptir máldagi Gyrðs 1352; [2]) 268; [3]) Hákon konungr háleggr staðfestir sama ár þessa úrskurði, Sighvats og Hauks lögmanns (Dipl. Norv. VI, Nr. 88).

Réttarbót þessi á alls ekki við Ísland, en er til í fjölda af íslenzkum handritum, og Arngrímr Jónsson og margir síðan hafa haldið að hún væri gefin Íslandi, og því er hún prentuð hér. Hér er fylgt AM. 158A. 4to bls. 115 skb. c. 1420 (Hlíðarendabók), en enginn orðamunr tekinn úr öðrum handritum, því réttarbótin er hér góð, en þessi skinnbókartexti af henni hefir aldrei verið notaðr fyr. Ártal þessarar réttarb. er ekki tilfært nema í sumum handritum. Réttarbótin er áðr prentuð í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 422—23; NgL. III, 116—17; sbr. Lovsaml. for Isl. I ár 1316; á latínu í Þorm. Torfas. Hist. Norv. IV, 450; Arngr. Jónss. Crymogæa III, 125; á dönsku í Jonsbogen 1763 bls. 385—86. Er til í fjölda íslenzkra handrita svo sem: AM. 345. Fol. 151—52 skb. c. 1570; AM. 350. Fol. bl. 76a skb. 1363; AM. 128. 4to bls. 153—56 skb. c. 1490; AM. 135. 4to bls. 213 skb. c. 1490; AM. 136. 4to bls. 291—92 skb. c. 1480; AM. 147. 4to bls. 188—89 skb. þetta c. 1600; AM. 161. 4to 4to bls. 252—53 skb. 1561—65; AM. 37. 8vo bls. 256—59 skb. c. 1500; AM. 40. 8vo bls. 381—82 skb. c. 1560; AM. 45. 8vo bls. 70 skb. c. 1570 (brot); AM. 55. 8vo bls. 30 skb. c. 1580; AM. 60. 8vo bls. 62a—63b papp. c. 1690; AM. 62. 8vo bl. 28 papp. c. 1650 (»R. B. H. K. Magnussonar Jslendingum«) AM. 456. 12mo skb. c. 1480; AM. 200. 4to bl. 16—17 papp. c. 1700; MSteph. 3. 4to papp. 18. öld; MSteph. 13. 4to papp. 1715 (fjórar afskr. ein eptir Arnarbælisb., önnur eptir AM. 128. 4to eða 37. 8vo); MSteph. 41. 4to papp. c. 1730 (tvisvar); MSteph. 48. 4to papp. 1669, bl. 8a; Gl. kgl. s. 1159. Fol. papp. c. 1650; Ny kgl. s. 1080. Fol. frá 18. öld; Ny kgl. s. 1924. 4to bl. 53a skb. c. 1550; Ny kgl. s. 1911. 4to papp. c. 1750; Thott. 2097. 4to skb. c. 1650; Thott. 2106. 4to bls. 53—55, 247—48 papp. c. 1750; Uldal. 322. 4to skb. c. 1570; Stockh. C2. 4to skb. c. 1580; IBfél. 315B. 4to papp. c. 1670; IBfél. 122. 8vo papp. c. 1660; IBfél. 531. 8vo bls. 159—60 skr. 1706 af Hálfdáni Jónssyni á Reykjum. Þarmeð þessi athugasemd: «NB Christennrettur settur j løg a Jslandi Olaffz k[ongs] helga Haralldzsonar og sama är og hann bad vmm Grimzeÿ og mun sa elste hier a landi vered hafa» (!) Í AM. 128. 4to og 37. 8vo er skeytt framan við réttarbótina § 1 úr rb. 23/6 1305.

Bref virduligs herra hakonar konungs.

Hakon med guds miskvnn noregs konungr et cetera.

Vær hofvm vndirstadit at logmenn her med ydr vilia eigi log segia vm þav mala efni sem heilagri kirkiv til heyra ok kristinsdoms rettr skal vm ganga. þviat eingi kristinsdoms balkr er j þeirri lögbok sem virdvligr herra Magnus konungr fadir varr hinn kærazti agiætrar minningar let saman setia ok saman setta þingtaka ok þvi hefir æigi firirfariz ath vær erchibiskup ok biskuparnir hofvm eigi lidvger til vordit kristinsdoms balk-

vm svo skipa edr setia sem oss likar ok vilium vær þo einna sitz at heilog kirkia missi sinna rettinda edr hennar formenn. þat vilivm vær ok biodvm fullkomliga at logmenn varir her ok allir halldi ok hafi þann kristinsdomsrett sem verit hefir at fornv her med ydr. þo hvarki þann sem magnus konungr fadir varr let saman setia ok eigi þann sem ion erkibiskup let saman setia. En sa sem adr er her ok forn er. vilivm vær at gangi ok þar eptir dæmi logmenn varir ok laga orskvrd æ leggi. þo sva at ǫll sv sekt er þar stendr j ok anefnd er falli til þridivngs. En ef þar ero nockorir lvtir þeir sem eigi megv standa edr þat sem ydr þickir æ fatt vera j fyrnefndvm kristins doms belkivm. þa ritit aptr til vær þar med ydra tillogv med vitordi ok samþykt biskupanna ok lærdra manna ok handgeinginna manna er vita hvat landinv er nytsamligaz.

Var þetta bref gert j biorgvin. olafs vǫku aptan fyrra. æ xvij æri rikis[1]) værs. Herra jværr kancilerværr innzsigladi. þorgeirr tofason notarius vær ritadi.

---

227. 11. December 1316. i Björgvin.

Þrándr Gulaþingsmaðr staðfestir ættleiðslu úrskurð Sighvats á Leirhólum eptir síra Ívar í Volabúi og bréf «herra Hauks loghmanz [Erlendssonar] sua wattandi at han dœmde þa ættleiding loghlegha». Bréfið er gert «i Jonsstofu i konongsgarde j Berghwin laughardaghenn nesta æptir Nikulasmesso a þui are er lidnir waro fra burdartid wars herra Jesu þushundraþ wettra þriu hundrað wettra ok sexstan vettr.»

(Dipl. Norv. I, Nr. 148 eptir frumbréfinu, sem þá var í eigu G. Munthe's kapteins í Króki).

---

228. [1317].

Máldagi Fellskirkju í Kollafirði [er Árni biskup Helgason setti].

Landsb. 268. 4to bl. 89b. Þetta stendr meðal máldaga Árni

[1]) ks, hdr.

biskups Helgasonar og er því líklega frá hans tíð, því máldaginn er fornlegr.

Fell j kollafirdi.

Kirkia vnndir felli j kollafirdi a þriar kýr oc fiorar vættir skreidar. af atta bæium vr þorpum. oc fimm hundrad voru.

---

229. 27. Juli [1317]. í Kaldaðarnesi.

Vígslumáldagi Kaldaðarnesskirkju í Steingrímsfirði, er Árni biskup Helgason setti.

Landsb. 268. 4to bl. 61a—b. ekr. 1601. Sbr. Gyrðsmáldaga 1354.

Kalldadarnes.

Kirkia ad kalldadarnesi var vijgd af herra arnna biskupi vj kalendas augustij oc helgut med gudi hinni helgu meý mariu modur gudz oc mikaelei(!) arcangelo oc hinum helga thorlaco. enn þessi maldagi var þa skipadvr. at til þessara[r] kirkiu scal vera tijdasoknn af Boum þeim ollum sem eru fyrir vtann sela oc nordur thil saura. kirkiu tijund nema hualtijunnd af kalldbaki oc ollum Bæium til selär. liggia til kalldadarnes kirckiu oc suo lysitollr oc fiskatollar. half vætt af Bæ oc half vætt af huerium fiskimanni at eýum. nema at kalldbak oc kleifum skal greidast þridiungur vættar. Lamb skal ala ã Bæ huerium heilagrar kirkiu oc abyrgist [sá] at helmingi vid aullu sem elur. lijc scal færa af þessum Bøum. huertt sem helldur vill thil stadar eda kalldadarness oc sculu taca helmijng huorir. þess sem med lykumm gefst. A kalladarnesi skal vera heimilisprestr sa sem þar veiti tijdir oc til þriggia Bonhusa. scal hann sýnngia j Bø oc ad hamri oc a kalldBak. oc taca vj aura af hueriu. enn iiij merkur af heima kirkiu. kirkian a lannd er ramnn gaf til hennar þad sem heitir Biarnnanes. ku oc hest oc kluckur iij.

230. [1317]. i Tungu.

Máldagi kirkjunnar í Tungu í Steingrímsgfirði, er Arni biskup Helgason setti.

Landsb. 268. 4to bl. 89b—90b. skr. 1601; 262. 4to bls. 23 skr. c. 1600; máldaginn er tekinn upp í Vilchinsbók (cl) orðréttr.

Tunnga j steinngrijmmsfirdj.

[Suo mikil kuikfe a kirkian j tunngu. fimm kyr oc iij ær. c. voru. kirkia[1]) a heima lannd allt efrabol[2]). hlijdarsel). [arnkautludal[3]). fiordung j skogalandi. attungur j hualreka ad[4]) hrofa. oc j eggver[e] lannd allt j grof enne litlu oc allann hualreka oc vidreka. attung hualreka j hlidabæ[5]). fimmtunngur j hualreka ad heydalsa. Tolftungur j hualreka a Galmas[6]) stronnd milli karahafnnar[7]) og grinndar. ad afteknum tolftungi. þridiung j hualreka ad huolzã. helmijnngur vidreka milli holzlækiar oc hafnnarness. kirkia a holzland allt[8]) hid efra med ollum gognum oc giædum. reke allur a kaungustodum[9]). fiordung j ollum reka ad bruarã. settung j hualreka j milli kolbeinzar oss[8]) oc kallbakzoss[10]). niundi parttur hualreka j býrgisvijk. settungur j ollum reka ad giðghre. fiordung allra fiorunytia ad rifskerium. ok j akurvijk. halfur sextandi lutur j hualreka a þrætuteigi. kirkia a alltaraklædi sex[11]) oc kross smelltann. iiij. rodukrossa. glerglugg. mariuskript. kistil oc j helga doma. [fornn tiolld vm kirkiu[12]). jonnz lijknneski. [gunnfana ij[13]) kluckur fiorar. Biollur ij. kerttistikur ij. paxspialld. [fonnt oc klædi[14]) lectare[15]) med reidustol. messubækur. ij. alltaris Bok[16]) eina mariu sogu. jons sogu postola og glodaker [oc elldbera[17]) messufot einfolld. [munlogar ij. Bœd[18]) oc ker[19]). half vætt fiska af huerium Bæ. kiortre a kirkiuboli. Tyundir milli smahamra oc rofar[20]). þar skal vera prestur heimisfastur. holz lannd jd efra ä allann vidreka milli fauskalækiar oc holzlækiar. þordur Bonndi oc vilborg gafu kirkiunni j tungu [tyunda hlut[21]). j hualreka [or þrim hlutum[22]) a kirkiuboli med hanndtaki. Eg[23])

---

[1]) [Kirkian j tungu j steingrijmsfirdi er helgud mariu drottningu oc enum sæla Jone postolu oc enum heilaga thorlaki biskupe oc margretu meyu. hun 262; [2]) vj kyr. iij hundrud voru b. v. 262; [3]) [ad gautadal 268; [4]) a 262; [5]) heidabæ 262; [6]) sl. 368; [7]) karhafnar 262; [8]) sl. 268l [9]) kũgoftodum 268; [10]) kollbaksoss 262; [11]) V, 262; [12]) [steintialld forntt 262; [13]) mercki 262; [14]) [fontklædi 262; [15]) sl. 268; [16]) sl. 262; [17]) [sl. 262; [18]) þannig 268 = borð? [19]) [munnlug vond 262; [20]) hrofär 262; [21]) [x hundrud 268; [22]) [sl. 262; [23]) Og 268, 262.

arnni biskup helgason sat ýfir þessum māldaga er ritadur var j tungu [j] steingrijmsfirdi [ad hia verannda sijra audunj. sijra þordi. sijra tħomassi og mǫrgum odrum godvm monnum[1]).

---

231. 6. August 1317. á Eyri.

VÍGSLUMÁLDAGI Eyrarkirkju í Bitru, er Árni biskup Helgason setti.

Máldagi þessi er tekinn orðréttr upp í Vilchinsbok (cxlviij) og skeytt aptan við hann seinni viðbót, sem hér er slept. Þar er máldaginn árfærðr til 1318. Landsb. 268. 4to bl. 89a—b skr. 1601 «Gamler mäldagar» stendr fyrir ofan. AM. 262. 4to bls. 29 skr. c. 1600.

[Eýri j Bitru[2]).

Þa er lidid var fra hijnngadburd lausnnara vors jehsu christi þushundrut vetra. ccc og xuij[3]) ar. vijgdi herra arnni Biskup af skalhollti kirkiu ā eyre j Bitru thil lofz og dyrdar allz valldanda gudi. sælli gudz modur marie. hinum heilaga joni postola oc gudzspiallamanni. olavi konungi. Torlaki Biskupi oc heilagri margarete meýu a pijslardeigi heilagra gudz pijnijngar[4]) votta sixti felicissimi oc agapiti. þad er fiorum nottum fyrir laurencijusmessu med þessum maldaga sem hier fýlgir.

lagdi einar bonndi þorgrijmsson thil kirkiu fiordung j hualreka ollum a ruteyiar strond med radi oc samþýcki herra arnna biskups. enn sialfur herra Biskup gaf thil kirkiu fimm hunndrud voru. Leggiast oc þar thil kirkiu a eyri tijundir oc lysitollar þar med groptur af aullum bæium milli borgahals oc ennishǫfda og þar med lamba eldi. skiædatollur oc osttollur vm alla bitruna oc[5]) malz miolk vnndann aullu fe millum gudlogshaufda oc borgar hals. skal sa bonndi er ā eyri byr fæda prest oc gefa honum iiij merkur kaups ā hveriu ari og hafi hann fe til medferdar [vid kirkiufe[6]) enn j moti lamba eldi af ollum bæium fyrir jnnan gudlaukz haufda. skipadi herra arnni Biskup skylldu sonng j gudlaukz vijkur[7]). paskadag. huijtasunnudag. mariumessu fyrri a sumared oc nicholasmessu. ātta-

---

[1]) [morgum godum monnum hiaverǫndum 262; [2]) Maldagie kirkiunnar a Eyre j Bitru 262; [3]) xviij 262; [4]) pijslar 262; [5]) enn 252; [6]) [sem til kirkiu liggur 262; [7]) gudlǫgzvijkur 262.

dag jola oc drottinz dag eptir ýmmbruviku vm lannga föstu oc þeim[1]) lofligt naudsyniar þangad ad sækia a fyrsogdum dogum. þar er oc biskupz gisting[2]) huerrn tijma er hann fer yfer[3])

---

## 232. 13. Oktober [1317]. á Ingjaldshvoli.

VÍGSLUMÁLDAGI kirkjunnar á Ingjaldshvoli undir Jökli, er Árni biskup Helgason setti.

AM. 260. Fol. bl. 112—13 (Vilchinsbók ccv) með hendi séra Jóns Erlendssonar á Villingarhollti. AM. 252. 4to, skr. c. 1660; AM. dipl. afskrr. 1613 og 1660 og sýnist vera með hendi Þormóðar Torfasonar. Máldagi þessi er hér án alls efa í sinni upprunalegu mynd, að undantekinni stafsetningu.

Jngialldsbuoll.

Kirkia at Jngialldzhvoli er vijgd af herra Arna biskupi hinum sijdara jn festo Reliqviarum Gudi til lofs oc dyrdar oc hans signudu mod[u]r jungfrv sanctæ Mariæ oc heilogum martiribus Cosme oc Damiano oc ollum heilogum monnum.

Var þar Bænhvs ad fornu oc atte þad Bvrfellzdal oc j Rife slijkt sem reiknadist. enn Gunnar bondi Hauksson er kirkiuna liet giaura oc þa atti Jngialldzhvol lagdi þessa skylld i heimalannd sem hier er skrifad.

Þar skal syngia messu hvern dag loghelgann. enn ef vedur banna edr adrar naudsynniar þa skal syngia firir rvmhelgann dag þa[nn] sem bondi vill. Joladags tijder skal syngia ad Saxahvole enn hamessa ad Jngialldzhvoli. þar skal syngia sijdar palmadag enn fara heim midvikudaginn oc syngia þa heima til paska. og fyr[r]e paskadag. þar skal hann fyr[r]e syngia Hvijtasunnudag oc Olafsmessodag. a Jngialldzhvoli. skal fyr[r] syngia allra heilagra messu og Mariumessur allar. þar skal syngia allar tijdir a kirkiumessodag oc so jn festo Cosme oc Damiani. enn allar adrar hatijder skal ad jafnadi synghia so adra hueria viku vmm Langaföstu.

---

[1]) þa 262; [2]) oc, b. v. 262; [3]) Hér aptan við kemr í 268 og 262 viðbótin sú sama og hjá Vilchni; þó er nokkru slept aptan af í 268.

Bondi sa er býr ad Jngialldzhvoli skal greida presti halftt annad hunndrad frijdt æ hveriu ære. enn x aura til frodärkirkiu. skal j þa x aura greidast frijdt eda skreid ad tiundarlagi edur annar haustlagseyrer. Hann skal oc fæda prest þa daga er hann sýngur þar oc mann med honum a vetur edur hest ef prestr hefur ei langsetur. og hann skal halda vpp allre kirkiuskylldu.

þar skal takast heima tiund med lysitollum fra Gufuskalum oc ollum bæium inn til Ennis. Bændur gafv til kirkiunnar af ollum þessum bæium vætt skreidar af hverium landeiganda æfinnlega. enn leigulidar hver firir sig medan hinn sami býgge. so oc aller þeir sem skriptt edur þionustu sækia til Jngialldzhvols skulu greida fiordung fiska þeir sem ei hafa af lanndi. ella sæki allar naudsynniar til Saxahvols. So hid sama skulu leigulidar sækia til Saxahvols ef þeir vilia ei greida slijkt sem þeim var akvedid. skal þennann fiordung halfann hafa prestur. enn halfann bondi þar til er biskup giorer annad rad fyrir.

Hun a innan sig Mariuskript. kiertistikur ij. kluckur ij. oc eina litla. lykakrak. glodarkier. ij. kugilldi.

þar skal biskupps gisting.

---

233. 28. Marts 1318. i Túnsbergi.

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um arftöku ættleiðinga.

þessi rèttarbót hefir á Íslandi venjulega verið kölluð «Herjólfsréttarbót», og stundum «Herjólfsbréf» eða «þræturéttarbót», því að menn hefir greint á um gildi hennar á Íslandi; víst er og svo, að upphaflega hefir hún einungis verið ætluð Norgi, en snemma hafa Íslendingar farið að taka hana upp í lögbókar handrit sín, hér um bil á miðri 14. öld, að því sem nú verðr séð, og síðan fylgir hún þeim hér um bil öllum, og sum þeirra telja hana enda lögtekna á Íslandi (AM 129. 4to skb. c. 1490). Eitt af hinu fyrsta af lagaritgjörðum eptir siðaskiptin á Íslandi er grein um þessa réttarbót gerð 1582, og er eptir Staðarhóls-Pál; neitar hann gildi réttarbótarinnar og segir meðal annars: «Í fyrstu set eg og segi eg, að Herjólfsréttarbót í fyrsta partinum sé óvenjuleg, og verði ei með sannindum prófað, að nokkru sinni hafi eptir henni dæmt verið» (MSteph. 27. 4to). Móti Páli ritar Guðbrandr biskup 1590 og segir hann: «Furðandi er að dannemenn bera slík ósannindi fram fyrir góða menn», og

nefnir ýmsa dóma[1]). Það er og víst að dæmt hefir verið eptir réttarbótinni nokkrum sinnum; í fyrsta skipti er það gert 1479, og síðan öðru hverju svo sem 1481, 1512, 1515, 1554 o. s. frv. Réttarbótin hefir fylgt öllum útgáfum Jónsbókar eins og hún kemr fram sem A.

---

**A.**

Hér er prentað eptir skinnbókinni Gl. kgl. saml. 3269A. 4to skr. c. 1350—60 (bls. 173). En til er réttarbótin í fjölda íslenzkra handrita, svo sem: AM. 342. Fol. skb. 1577; AM. 345. Fol. bls. 149—50 skb. c. 1570; AM. 350. Fol. skb. skr. 1363; AM. 351. Fol. bl. 130b skb. c. 1360; AM. 126. 4to bls. 173—75 skb. c. 1380—1400; AM. 129. 4to bls. 297—99 skb. c. 1490; AM. 132. 4to bls. 139 skb. c. 1430; AM. 135. 4to bls. 145—6 skb. skr. c. 1490; AM. 137. 4to skb. c. 1400, bls. 8—9; AM. 147. 4to bls. 187—88 skb. þetta skr. c. 1600; AM. 151. 4to bls. 276 skb. c. 1570; AM. 154. 4to bls. 152—53 skb. c. 1500; AM. 157B. 4to bls. 56 skb. c. 1460; AM. 158A. 4to bls. 114—15 c. 1420; AM. 161. 4to bls. 249—50 skb. skr. 1561—65; AM. 175C. 4to bls. 31—32 skb. c. 1400; AM. 234. 4to bls. 107—109, 575—76 á pappír frá 17. öld; AM. 40. 8vo bls. 376—77 skb. c. 1560; AM. 45. 8vo bls. 63—65 skb. c. 1570; AM. 456. 12mo bls. 54—55 skb. c. 1480; AM. 458. 12mo bls. 51—52 skb. c. 1570; AM. 55. 8vo bls. 56—57 skb. c. 1580; AM. 58. 8vo bls. 157—59 á pappír c. 1590 (með hendi Jóns lögmanns Jónssonar); AM. 60. 8vo bl. 58b—60a á pappír c. 1690; MSteph. 12. 4to c. 1570—80 á pappír; MSteph. 13. 4to á pappír skr. 1715 eptir skb. frá c. 1500; MSteph. 48. 4to bl. 5a á pappír 1669 (með hendi Odds Jónssonar frá Vatnsfirði); Stookh. C2. 4to skb. c. 1580; Gl. kgl. saml. 3268B. 4to skb. c. 1340; Gl. kgl. s. 3274A. 4to á pappír c. 1620; Ny kgl. s. 1923. 4to bl. 147—48 skb. c. 1590; Ny kgl. s. 1924. 4to bl. 52a skb. c. 1550; Ny kgl. s. 1928. 4to bl. 130a—b skb. c. 1590; Ny kgl. s. 1933. 4to bl. 97b—98 c. 1600: Ny kgl. s. 341. 8vo skb. 1656—58; Ny kgl. s. 1080. Fol. papp. c. 1750; Thott. 2100. 4to skb. c. 1560; Thott. 2101. 4to

---

[1]) Fyrirsögn fyrir ritgjörð Guðbrands biskups er svo:
Meining herra Guðbrands um Herjólfsréttarbót,
sem nú mælir margur mót
af rangri rót,
því skilur ei hót
hans skynsemd fljót,
ályktan ljót
aungvan hefir vissan fót.

skb. c. 1490; Thott. 2106. 4to bls. 256—57; Uldal. 320. 4to papp. 1603; Uldal. 322. 4to skb. c. 1570 («Heriolfsrettarbot og Þræturettarbot»); IBfél. 122. 8vo papp. c. 1660; IBfél. 60. 8vo papp. 1595—1604. Prentuð í Norges gl. Love III, 128—31.

Hakon meðr guðs miskunn noreghs konungr sonr magnusar konungs. sendir ǫllum monnum þeim sem þetta bref sia eðr heyra. Q[ueðiu] G[uðs] sína.

Ver uilium ýðr kunnikt giora. at a xix are rikis uars a týrsdagh hinn næsta fyri miðfostu. komu þeir a stefnu fyri os. i mælstofuna a tunsbergis huse. ulfr þorallða son af halfu guðrunar konu sinnar. ok annara sýstkina hennar. enn af annarre hælfu. gunnar af risum. kærði ulfr at guðrun kona hans ok systkin hennar. na eighi rettu af gunnare um arf fru Ragnhilldar moður meistara heriulfs. þar sem faðir hennar hafði arfleitt þau til arfs sins þa uoru þau ekki arfleidd til arfs fru Ragnhilldar. fǫður moður sinnar. ok moð[u]r meistara heriulfs er siðar andaðizt enn faðir þeirra ok kuezs hafa fyri ser dom herra guthorms laugmanz sem sia matte. Nu af þui at lǫgmennirner undir stoðu ættleiðingar kapitulum ýmisliga ok baðu os skýra ok greina huersu þat skal undir standazt huartt ættleiðingr skal þann einn arf taka. sem hann er ættleiddr til. eðr fleire. þa gerum uer þa skipan ok skýring a meðr uitrarztu manna tillǫghu ok undirstaðning þeim sem Magnus konungr faðir uar hinn kærsti hafðe. þa er hann skipaði aðr um ættleiðingar capitulum. ok i loghbok sina let seta. at ættleiðingr skal taka alla þa arfua sem til kunna falla sva sem skilgetinn eighinnar konu son. þess sem arfleidde iafnann siðann heðann af. ok af þi dæmum uer guðrunu. ok oðrum bornum meistara heriulfs lǫghligha arfleiddum. arf fru Ragnhilldar fǫður moður sinnar. ok til sanz vittnis burðar gefum uer þeim þetta uartt bref. meðr uoru innsigle. er gǫrtt uar a fyR sǫgðum deghe.

---

**B.**

AM. 344. Fol. bl. 61b skb. c. 1350—1400; AM. 48. 8vo bl. 106b. skb. c. 1360, orðrétt eins í báðum; AM. 128. 4to bls. 159 skb. skr. c. 1490; AM. 148. 4to bls. 206 skb. c. 1500; AM. 170A. 4to bls. 34 skb. skr. eptir 1565; AM. 200. 4to bl. 14b á pappír c. 1700; AM. 37. 8vo bls. 265 skb. c. 1500; AM. 39.

8vo bls. 251 skb. c. 1470; Gl. kgl. saml. 1159. Fol. á pappír frá c. 1650; Ny kgl. saml. 1911. 4to bls. 232 á pappír c. 1750; Thott. 2097. 4to skb. c. 1650. Hér er prentað eptir AM. 344. Fol.

Herivlfs bref.

Hakon með guðs miskvnn noregs konungr et cetera.

Nv af þvi at logmenn varir vndirstoðv ættleiðingar capitulum ýmisliga ok baðv oss skýrra greina hversv þat ä vndirstandaz. þa giorvm vær þa skipan með beztv manna raði ok vndirstaðning þeim sem Magnus konungr faðir varr hinn kærazti hafði þa er hann setti ættleiðingar capitulum ok i lögbok let setia. at ættleiðingr skal taka alla arfa þa sem til kvnnv at falla sem skilgetinn eiginnar kono son þess er ættleiddi iafnan siðan heðan af. ok til sannz vitnisburðar her vm gafvm ver þeim vart bref.

---

234. 14. Juni 1318. i Ósló.

HAUKR Erlendsson úrskurðar Atla í Mýdal, að hann «skal æigæ ok rað firir gera ... ij manæðæmatabole» í jörðinni Guðini, sem Arnúlfr á Guðini hélt fyrir honum. Bréfið er gert «i iolæhallene i Oslo iij. natom firir Botolfs vaku a xix are rikis vars hærra Hakonær Norex konongs».

(Dipl. Norv. III Nr. 114 eptir frumbréfinu á Bjólstöðum í Vogum í Noregi).

---

235. 26 Juli 1318. i Tunsbergi.

HÁKON konungr háleggr staðfestir dóm «herra Hauks Erlendzsonar Gulaþingslogmanðz» og margra annara, þar sem þeir dæma jörðina «Biarku meðr allum lunnyndum vndir profuastdæmet at Marie kirkie i Aslo». Bréfið er gert «j Tunsbergi daghen nesta eftir Jacobsuakudagh a nitianða are rikis vars».

(Dipl. Norv. II Nr. 132 eptir frumbréfinu í safni AM. dipl. Norv. Orig. Fasc. 51 Nr. 13).

---

236. **28. Juli 1318. i Tunsbergi.**

Hákon konungr háleggr gefr «Marie kirkiu capello vare j Oslo til euenlegrar eingnar ok frials forrædes. kirkiunne til vphaldes henne formanne ok þæim lærdom monnum sæm veer hafuum henner skipat at veita þionosto til viderlifuis. ok þæira eftirkomandom ...... gard varn ifuir a Strondh j Berguin wtt j fra Jonskirkiu þæn sæm herra Haukr Erlændzson atte ok Audunergardh eiter...» Bréfið er gert «j Tunsbergi þrim nattom eftir Jacobsuoku a nitianda are rikis vaars.»

(Dipl. Norv. II, Nr. 133 eptir vidisse frá 9. Mai 1406 í hinu norska fornbréfasafni Árna Magnússonar).

---

237. **13. December 1318. undir Ögðum.**

Réttarbót Hákonar konungs háleggs um rangindi lénsmanna, er stefna mönnum fyrir lögmanns dóm, en mæta hvorki sjálfir né neinn í umboði þeirra, og leyfa hinsvegar réttstefndum mönnum að sitja heima, enn fremr um hegníng útlægra manna.

AM. 350. Fol. bls. 153—55 skb. skr. 1363; Gl. kgl. saml. Nr. 3274A. 4to bl. C70—C71 pappírshandrit frá c. 1620 (lögbók Gísla lögmanns Hákonarsonar í Bræðratungu); texti réttarbótarinnar er hér góðr, og hvergi annarstaðar finst ártal hennar. Norðmenn hafa ekki þekt þetta handrit og því viltust þeir á þessari réttarbót og héldu hún væri leingri útgáfa af réttarbótinni frá 11. okt. 1303 (NgL. III, 63—67; Dipl. Isl. II, Nr. 180), en það er án alls efa ekki svo. Af því að þessi réttarbót er ekki sérstaklega íslenzk. þó hún sé til í mörgnm íslenzkum handritum, hef eg ekki viljað fara út í frekari handrita samanburð. En í þessum stöðum hef eg séð hana auk þess sem áðr er getið og Norðmenn hafa notað: AM. 147. 4to bls. 206—204 skb. þetta frá c. 1600; AM. 161. 4to bls. 256—58 skb. 1561—65; AM. 200. 4to bl. 18k—19b papp. c. 1700; AM. 40. 8vo bls. 388—91 skb. c. 1560; AM. 45. 8vo bls. 71—75 skb. c. 1570; AM. 60. 8vo bl. 69—71 papp. c. 1690; AM. 456. 12mo bls. 66—70 skb. c. 1480; MSteph. 3. 4to papp. frá 18. öld eptir skb.; MSteph. 13. 4to bl. 232 papp. 1715 eptir chartis með hendi Magnúsar Jónssonar föður Árna; MSteph. 48. 4to bl. 11b papp. 1669 (Oddr Jónsson); Gl. kgl. saml. 1159. Fol. papp. c. 1650; Ny kgl. saml. 1080. Fol. papp. c. 1750; Ny kgl. s. 1924. 4to bl. 54a—b skb. c. 1550; Ny kgl. saml. 1911. 4to bls. 248—52 papp. c. 1750; Thott. 2097. 4to skb. c. 1650; Thott. 2106. 4to bls. 56—61, 266—69 papp. c. 1750; Uldal.

322. 4to skb. c. 1570. Prentuð í NgL. III, 64—65 og á dönsku í Jonsb. 1763 bls. 387—90.

Áðr en eg skilzt við réttarbætr Hákonar háleggs í safni þessu, vil eg geta nokkurra þeirra greina, sem finnast víðsvegar í handritum og stundum eða alltaf kallaðar réttarbætr Hákonar konungs. Þessar greinir eru hinar ódælustu viðreignar og fipa svo og tefja fyrir manni, að því trúir sá einn sem reynir, og má svo að orði kveða, að hver einasta réttarbót sé á víð og dreif í handritum kubbuð sundr meira eða minna í smágreinar á einlægum tætingi, svo að maðr þyrfti næstum að kunna allar réttarbætrnar utanbókar til þess að vera viss um að átta sig á þessum greinum, því þó að maður margberi saman getr manni leingi sézt yfir, og sumt tekst manni ekki að finna hvar á heima; sumt er og vafasamt hvort eru réttarbætr í sjálfu sér; stundum er og orðalagi svo breytt, þó efni sé haldið, að það er næstum óþekkjanlegt. Af slíkum greinum skal eg hér tilfæra nokkrar, sem eg sel ekki dýrara en eg kaupi, og má vera að þær finnist sumar í kunnum réttarbótum og mér hafi sézt yfir:

I. [Réttarbót Hákonar háleggs].

Virðið þat landinu sem nytsamligt [er], en almúganum gagnlegt.

MSteph. 48. 4to bl. 21b skr. 1669. Bætir handritið því við, að eptir þessu hafi verið dæmt 1604.

II. R. B. H. K.

Ef yngri maðr vegr mann en xij vetra, þa skal gialda víg þat níðingsgjöldum, en ekki verður hann útlægr.

Les Mh. 1 um ómagavíg.

Thott. 2106. 4to bls. 13 skr. c. 1750; IBfél. 531. 8vo bls. 170 skr. 1706.

III. R. B. H. K.

Nú verðr maðr að þýfsku kendr og sannr, tvígjaldi þeim er stolinn var af fé hins sakaða, þar til er stuldr er verðr hálfrar merkr og kostnað þann, hann þurfti til eptirfarar. En ef meira er stolið hafi fyrir full gjöld og kostnað og rétt eptir lagadómi.

IBfél. 122. 8vo papp. c. 1660.

IV. Réttarbót Hákonar konungs [háleggs] um hefndarverk í reiði.

Bibl. Upsal. Delagard. Nr. 9. 4to bl. 137 skb. c. 1580; AM. 147. 4to bls. 206 skb., þetta frá c. 1600; AM. 37. 8vo (pappírsblöð fremst); MSteph. 48. 4to bl. 21a—b, á pappír skr. 1669; Ny kgl. saml. 1945. 4to bl. 371 skr. 1666; Thott. 2106. 4to bls. 323

á pappír c. 1750; IBfél. 68. 4to skr. c. 1760; IBfél. 60. 8vo skr. 1595—1604; IBfél. 122. 8vo skr. c. 1660; IBfél. 531. 8vo bls. 171 skr. 1706.

R[éttar] B[ót] H[ákonar] k[onungs][1]).

Nú verðr maðr skemdr fullréttis verkum og hefnist hann þegar í reiðinni, [ok eru til lögleg vitni[2]), [þá vinnr hann á ógildum manni[3]), ok[4]) á konungr eingan rétt á því né hann sjálfr, hvort sem hann færr sár eða bana[5]). Enn ef hann deyr af þá sè undir konungs [miskunn eptir málavöxtum[6]).

V. Réttarbót Hákonar konungs [háleggs] um að einginn gefi öðrum ranga sök.

AM. 138. 4to bl. 142 skr. c. 1570—80; IBfél. 122. 8vo skr. c. 1660; sbr. IBfél. 315B. 4to bls. 44; IBfél. 315A. 4to bls. 14. Framan við þessa klausu bætir 315B § 5 (7) úr réttarbótinni 1305 28/6.

R[éttar] B[ót] H[ákonar] K[onungs][7]).

Eingi skal öðrum ranga sök gefa á stefnum eðr á öðrum blutum, en ef gefr, gjaldi svo mikit sem hinn skyldi, ef hann væri sannr at sök, utan sá, sem sök gaf sanni með eins eiði, at hann [þóttist eptir réttu upp bera sitt mál[8]),svo þó at hans mál[9]) virðist eigi hinum, sem hann talaði við [eðr sökina gaf, til fjölmæla[10]) eðr ófrægðar.

VI. Réttarbót Hákonar konungs [háleggs] um þá er stefndir verða undir dándimanna dóm eða til lögmanns.

Thott. 2106. 4to á pappír frá c. 1750 a) bls. 11—13, b) bls. 251; hér eignuð Hákoni gamla á fyrri staðnum, en Hákoni hálegg á þeim seinna; einginn orðamunur. MSteph. 48. 4to bl. 15—16 skr. 1669; Magnús lögmaðr Jónsson heimfærir rb. til þingf. (AM. 348. Fol. bls. 19). Sbr. rb. Magnúsar konungs 18. Febr. 1348 MgL. III, 172—3 (nóta).

Réttarbót Hákonar kongz.

Hákon með guðs miskun etcetera.

Bjóðum vér fastlega at allir þeir, sem löglega stefndir verða til lögmanns ok undir dandismanna dóm, en vilja ekki

---

1) vmm hefnder j Reide, b. v. 531; Eirekur kongur 2106; Ef maðr hefnist strax 9; 2) [þannig 9; sum hdrr. sleppa; 3) [sl. 9; 4) þá 9; 5) ben 9; 6) [náð 68; myskun 2106; 7) þannig 122; R[éttarbót] 238; 8) [bættist með réttu máli sækja og uppbera 122; 9) tal 122; 10) [horfa til fjölmælis 122.

sjálfir koma til stefnunnar ok ei undir lögsamdan dóm, ok þó hann sé [eigi] sjálfr á stefnudegi, eðr þó hann heyri ekki þennan úrskurð, sem þá verðr upp á hann sagðr ok opinberlega lýstr og lesinn þar sem hann verðr dæmdr. Þar næst skal dómrinn lesast ok lýstr verða opinberliga á hans heimili tveimr skilríkum vitnum hjáverandi. Síðast skal dómrinn lesast ok lýstr verða einhvern sunnudag við hans sóknarkirkju prestinum ok þingunautum þar áheyrandi, sem í nánd eru ok heyra vilja. Síðan bjóðum vér fastlega at sá dómr ok úrskurðr skal fullkomliga haldast í öllum sínum greinum ok articulis, ok sá sem dómrinn var upp á sagðr skal gjalda þá peninga alla ok gótz, laust ok fast, frítt ok ófrítt, sem dæmt var af honum eptir því sem dómrinn var látandi, þó at hann vildi hann ei sjálfr heyra.

VII. Réttarbót Hákonar konungs [háleggs] um eiða.

Þó klausa þessi sé prentuð hér áðr undir öðru formi og sem einn hluti af öðru skjali, þykir réttast að láta það koma hér sérstakt fram samkvæmt þeim handritum, sem kalla það réttarbót. AM. 458. 12mo bls. 79—80, skinnkver c. 1570; AM. 62. 8vo bl. 27b—28a; Thott. 2106. 4to bls. 270—71 skr. c. 1750. Það er alveg óvíst að þetta sé réttarbót, og aðrir segja það alþingissamþykt frá 1265. sbr. Dipl. Isl. II, 15.

R[ettar] B[ot] H[akonar] K[onungs][1]).

Yngri madr en. xiiij. vetra skal eci eid uinna. an frænda Rædi[2]).

Eingen husfrv vtan lof bonda sins.

Eingen utan fastandi. eigi j sviuird[i]legum stodum. eigi hraparlega nie med ordkrokum.

Eigi fra niu uikna faustu. oc fram um paska. eigi a jola faustu fram vm Geysla dag. eigi a jmbrudogum. eigi a gagndogum. en ef sver Rangann eid edr ologligann suare sem firi einfalldan hordom.

---

R[ettar] B[ot] H[akonar] k[onungs].

Hakon með Guðs miskunn[3]). etcetera.

Af þui at uer getum uarla þo at uęr uilldum ýfir ollum malum setit þeim sem oss sealfum uarða. sakir mikillar fiol-

---

[1]) [Réttarbót] Hákonar kongs um eiða 2106; [2]) ráðs 2106; [3]) Noregs kongur b. v. 3274.

skýlldu. ok æhyggiu sem uęr hỏfum fur annaʀi landzins nauðsýn. ok uaʀi. þa uilium uer at allir menn uiti. þersa uára skipan. ok halldi fýrer lǫg. um allt noregs konungs ʀiki. etcetera.

Af þui at iðuliga hefir fur oss kięrt uerit af hendi almugans. um þau rangindi. sem lensmenn uarir[1]) gera. eðr gert hafa til þersa tima. at þeir stefna monnum til lỏgmanz stundum fur litlar sakir eðr ongar. ok koma siðan huarki sealfir ne þeirra umboðsmenn til andsuara. þat annat at þeir lofa þeim monnum heima at sitia. sem lǫgliga uerða stefndir. ok þyngia sua [þeim monnum[2]) i margfalldligum rekstrum. sem giarna uilia lagamenn uera. at þeir gefa liufara upp sin malaefni. eðr giallda eptir þi sem lensmenn leɢia æ þa. helldr enn þeir uili um hit sama mal reknir uera[3]). syniz oss sem þar hafi til gengit gleýmska sialfra sýslumanna vaʀa. sem augliost er[4]) at lensmenn dirfaz slikt at gera. þar sem þeir[5]) spuria skiott ef nockurar sektir falla til með bondum i þeira syslum. [6])alldri ero sua litlar. enn slika[7]) illzku sinna lensmanna lataz þeir æigi uita. þui berr oss um at hugsa. at gleymska syslumanna eðr illzka lensmanna uerði oss æigi[8]) til ofrægðar. enn saklausum monnum til skaða[9]). þeim til fiarupptektar.

Þi bioðum uer herra H°. ualldzmanni[10]) uarum at hann taki oss til handa Mork forna fur hueria stefuu eptir þi sem lǫgbok uattar sua at ef[11]) þeir koma æigi sealfir. eðr þeirra umboðsmenn lǫgligir. til andsuara. ok þeim er stefndr var kost sinn allann. þo at þeir komi sealfir. ok finnz æigi lǫglig sauk þeim a hendi. er þeir stefndu. þa skolo þeir luka þeim kost[12]) sinn allan. nema þeir sueri at þeir þottuz rett mal sækia. Enn fullt brefabrot ef þeir [ʀea menn eðr ʀeka[13]). aflǫgliga um þau malaefni sem vár bref liɢia fur. skolo þeir sem stefndir ero lǫgliga. ok leyfit taka af syslumonnum sealfum eðr þeirra lensmonnum til heimasetu sliku fur suara sem aðr er mælt. bæði oss. ok þeim sem stefndi ef hann kemr eigi sialfr i þa stefnu.

[1]) syslumanna 3274; [2]) [þaa menn 3274; [3]) þui b. v. 3274; [4]) og sia ma b. v. 3274; [5]) þo b. v. 3274; [6]) ad b. v. 3274; [7]) stora ofdyrfd og b. v. 3274; [8]) sl. 3274; [9]) og b. v. 3274; [10]) hirdstiora 3274, [11]) sl. 350; [12]) kostnad 3274; [13]) [hria menn ed[a] hrekia 3274.

[huersu sem ver skipum við þa[1]) er leyfit gáfu moti lôgum ok Rettindum.

Sua hofum ver ok boðit herra H°. þvilikar sektir. at taka. sem aðr er mælt. af þeim monnum sem æigi vilia fara lôgliga stefndir til uar eðr logmanz. aðr enn var bref koma. eptir[2]) þ[at] fursta sem hann kann var at verða at þeir eigi[3]) ero komnir. aðr enn nockut greiðiz at þeirra malum. huat monnum sem þeir ero. at [þeir syniz æigi gagn af hafa[4]). sinni þriotzku ok Ranglæti.

[Þa menn[5]) sem æigi uilia fara eptir uarum boðskap skal herra H°. lata taka. [huar[6]) sem þeir ero ok i myrkuastofu setia. þar til er þeir hafa bøtt eptir furra skilorði. ok á ofan brefabrot.

Eptir þat[7]) skal herra H°. ok profa. ok profa lata. [þeim monnum[8]) sem lôgbok uattar utlæga uera. [Sua sem[9]) ero manndraparar. atuistarmenn. þiofar ok meinsæramenn. ok Ransmenn. ok [allum oðrum[10]) sem at obotamalum ok uerkum uerða kunnir ok sannir. suo ok þeim sem brotit hafa bref uár ok boðskap. ok lata þeim suo refsa siðan. sem lôgbok uattar. ok lôgmanni ok oðrum skynsomum monnum syniz Rað uera. ok lata þa eina fur oss koma. sem hann ser at nockurra naða ero uerðir. ok miskunnar. Enn goðz obotamanna. fari eptir þui sem uer gerum Rað fur sealfir ok þeirra manna landzuist ok friðkaup sem uer seam at naða ero uerðir.

Þockum uer þeim handgengnum monnum uarum. er os hafa uerit lýðnir ok eptirlatir. siðan guð kaus oss til Rikisstiornar eptir broður uarn hinn kięrazsta. ok þeim einkannliga er lagamenn uilia uera með[11]) alla menn. ok gięta sua at hallda þann eið sem uer hôfum suarit ollu landz folkinu. ok sua sealfra sinna. etcetera. [var þetta bref giortt vnder augdum odinnsdæginn næstann eptter Nichulasmesso æ xix. ari vors Rijkis þæ lidit var fræ hijngat burdi vors Herra Jesu Christi M. ccc. ar og xviij etcetera[12]).

---

[1]) [suo vel sem þeir 3274; [2]) sl. 3274; [3]) vantar í 350; [4]) [at þat synist ei suo sem ad þeir hafi gagn af 3274; [5]) [sl. 3274; [6]) [þa huerier 3274; [7]) b. v. 3274; [8]) [þa menn 3274; [9]) [og 3274; [10]) alla adra 3274; [11]) vid 3274; [12]) [einungis til í 3274.

238. eptir Jól 1318. i Oslo.

Haukr Erlendsson og tveir menn aðrir dæma «Jon Gæilaugsson vbotamann. ok allt hans goz laust ok fast vndir konungdomenn» fyrir það að hann vildi ekki greiða Arna horn «giolld æftir faður kono» hans, «sem Jon hafde af tækit ok dœmd hafði verit firir margum wettrum, ok aller saladagar liðnir». Bréfið er gert «j Oslo a nitianda are rikis vars virdulegs herra Hakonar Noregs konungs».

(Dipl. Norv. I, Nr. 153 eptir AM. Dipl. Norv. Orig. Fasc. 59 Nr. 11).

---

239. [1318].

Réttarbót Hákonar konungs [háleggs] um nautnan, lýsing og virðing á hrossum, er koma í haga manns og maðr veit eigi hver á.

---

**A.**

IBfél. 407. 4to, með hendi séra Jóns Konráðssonar á Mælifelli (d. 1850); við afskriptina stendr: «skrifuð eptir membrana úr eigu P[áls] Vídal[íns] að vitni assess[ors] Ís[leifs] Einarss[onar]»; þar með er hrossadómr Skúla og fleiri hrossadómar. Nú finst þessi réttarbót í eingri skinnbók. Sé það rétt, að þessi afskript stafi frá skinnbók, er Páll Vídalín hafi átt, gæti það hafa verið Leirárgarðabók, sem nú er glötuð; AM. 60. 8vo bl. 77—78 á pappír frá c. 1690; AM. 211C. 4to á pappír frá c. 1700; IBfél. 531. 8vo bls. 171—73, bók Hálfdánar Jónssonar á Reykjum, skr. 1706; Thott. Nr. 2106. 4to á pappír skr. c. 1750, og stendr hér tvisvar: a, bls. 25—27, b, bls. 250. Ártal réttarbótarinnar er alveg óvíst, en í Jónsbókarhandriti því, er Magnús konferensráð Stephensen bjó undir prentun, árfærir hann hana eins og hér er gert, en óvíst er hvað hann hefir haft fyrir sér í því; ekki þótti samt vert að víkja frá því, af því að annað er ekki vissara; hann hefir einungis þekt litlu klausuna, sem hér er kölluð B. Sum handrit vilja heimfæra réttarbótina til Landsleigub. í Jónsbók kap. 28, og líklega mun þessi réttarbót eiga við Ísland frá upphafi.

Réttarbót Hákonar konungs Magnúss[onar][1]).

---

1) Hakonar kongs 2106b; R. B. H. K, 60, 2106a; R. B. H. K Vmm Buhross þeirra lysing virding og Brukun 531.

[Hákon með guðs miskun et cetera[1]).

Ef hross kemr í haga manns þat, sem hann veit ei[gi] hverr á, ok ei[gi] vita þat hans grannar né húskarlar, þá er honum rétt at láta ríða því hrossi um búfjárgang í sínu landi, enn ei[ngi] skal því ríða nema hann sjálfr ok þeir menn, sem hann lofar. enn ekki skal hann láta leggja á þat hepting til nautnar ok ekki heldr ríða því spellreiðar neinar. Bóndi skal segja at kirkju eðr samkundu, at þat hross sé þar komit, ok hann veit ekki hverr á, ok þat hross hefr verit þar hálfan mánuð síðan hann sagði til, ok er rétt at hann nefni til [fimm manna[2]) at virða hrossit, [ok fari eptir lögbók[3]). Enn sem þat er metið er honum rétt at nautna ok ábyrgjast[4]). Ei[gi] skal hann nautna leingr enn hálfan mánuð hrossit, nema[5]) virt sé. [Nú kemr[6]) eigandi til [ok] skal hann hross sitt hafa burt, ef hann vill, ok sé virt eptir því, sem þá var virt, er bóndi sagði til. Enn bónda er rétt at hafa í sinni nautn, ef hinn kýs ei[gi] at hafa hrossit. Enn sé hrossit verra enn þá hann við tók, þá skal bóndi tigla[7]) honum fyrir þat.

---

## B.

MSteph. Nr. 48. 4to á pappír bl. 21b skr. 1669 (bók Odds Jónssonar á Reynistað); IBfél. 531. 8vo bls. 238—39 skr. 1706 (bók Hálfdánar á Reykjum); IBfél. 120. 8vo bl. 32a—b á pappír frá 18. öld.

Réttarbót um hrossa meðhöndlan. Hákonar k[onungs][8]).

Ef hross þat kemr í haga manns[9]), er hann veit eigi hverr á ok eigi eiga nágrannar hans eðr[10]) húskarlar, þá er honum rétt at ríða því hrossi um búfjárhaga sína, en leggja ekki hepting á.

---

[1]) [sl. 60, 531, 2106ab; [2]) [sex búa 60, 531, 2106ab; [3]) [sl. 2106a; [4]) ákyrgist 60; [5]) áðr 60; [6]) [ok komi 531, 407; [7]) gjalda 2106b; vesla 60; [8]) Enn eyn riettar boot 120; [9]) edur land b. v. 531; [10]) þeirra b. v. 531.

240—336. 1318.

Máldagar Auðunar biskups rauða Þorbergssonar fyrir Hólabiskupsdæmi.

Þessir máldagar, sem koma hér á eptir og sem venjulega eru kendir við Auðun biskup Þorbergsson, eru hið elzta máldagasafn, sem nú er til fyrir Hólabiskupsdæmi. Þó að þetta sé kölluð máldagabók Auðunar biskups og talið að hún sé gerð 1318, er það þó eingan veginn svo að skilja, að hann hafi sett alla þessa máldaga sjálfr eða að þeir sé með öðrum orðum allir eptir hann eins og þeir liggja hér fyrir, heldr hefir hann safnað í eina bók bæði hinum fornu máldögum, sem til voru fyrir hans daga og svo sínum eigin máldögum, og þá stundum einungis aukið við hina fornu. Þó er eingin vissa fyrir, að allir hinir fornu máldagar biskupsdæmisins hafi verið teknir upp í þetta safn, heldr má ganga að því vísu, að svo sé ekki. En stofn sumra máldaga í safni þessu er æfa forn og enda frá þeim tímum, að fyrst hefir verið tekið að setja máldaga í Hólabiskupsdæmi, svo sem máldagi Grímseyjar, sem auðsjáanlega hefir upptök sín frá Jóni biskupi helga Ögmundarsyni eða hér um bil 1110—20, en ekki eins og Finnr biskup hélt frá Jóni skalla (1358—91). Aðrir eru nokkru yngri af máldögum þessum, og stafa þeir eflaust margir að nokkru frá Jörundi biskupi (1267—1313), því að það virðist auðsætt, að hann, sem bæði var reglumaðr hinn mesti og átti auk þess í staðamálum, þó hann færi þar gætilega, hafi sett marga máldaga um sína daga. Hinsvegar er og mart í máldögum þessum yngra en frá tímum Auðunar biskups, því hinir seinni biskupar hafa haft þann sið, að færa jafnóðum inn í máldagabækrnar og kirkjunum jukust eignir, hvort sem það voru ítök, lönd eða lausafé; er því máldagabókin eins og hún nú er safn af fornum máldögum, máldögum frá tímum Auðunar biskups og viðbótum, sem er skotið inn eptir hans daga, og er alveg eins ástatt með þessa bók og máldagabók Vilchins frá 1397 fyrir Skálholtsbiskupsdæmi, að hér ægir saman fornu og nýu. Flest af hinum nýu innskotum í Auðunarmáldaga virðist vera frá 14. öld, en þó bregðr fyrir yngri viðbótum, svo sem í Staðarbakkamáldaga, þar sem nefndr er Beinir biskup, og er hans hvorki getið fyrr né síðar. Að öðru leyti er optast mjög erfitt að ákveða hve gamlar viðbætrnar eru, og eru því máldagarnir látnir halda sér hér eins og þeir eru, nema þegar vissa var fyrir hvað gamalt innskotið var, eins og t. a. m. við Tjarnarmáldaga frá 1386. En neðanmáls hefir verið leitazt við að gera nokkra grein fyrir hvar samskeyti mundu vera í hverjum máldaga, þar sem kemr saman fornt og nýtt, og má nokkuð sjá það, þó opt verði ekki aðgreint til hlítar, og sumir máldagarnir eru margauknir og hefir verið gert neðan við þá hvað eptir annað. Væri frumrit þessarar máldagabókar nú til, þá mundi vera hægra við þetta að eiga, því að þá segðu handaskipti til, hvar bætt væri við síðan daga Auðunar biskups. En nú er ekki þessu að fagna, því að frumrit allra hinna fornu máldagabóka beggja biskupsstólanna eru

og fyrr fadir edur modir enn oskyrtt deygi. J vatne einu kolldu edur vormu en engum odrum log edur vokua og drepi barni j vatn iij. sinnum og kasti a hofud med lofa sijnum edur kieralldi ef ei nær odru og seygi med Riettri tru og fullri ætlan ad skijra og mæli þessi ord a medan. Jon eg skyri þig j nafni faudur og sonar og anda heylags og gefe nafn barninu. Og ef barn lyfir sijdan þa kome þeir er skyrdu til prestz sem first med þui og ef prestur prouar þad eptir heylagrar kirkiu skipan Riettiliga skyrtt vera þa leydi prestur þad þegar j kirkiu vtan primsigningar og leggi oleum sanctum a briost og Back og leggi krisma j hofud og seygi þar med þad sem þar er til giortt og þad alltt sem vantt er ad giora sijdan barn er vr fontt tekid eptir þui sem giortt er j handbok. Jafnuel ma skijra j sio sem j sæte(!) vatne eda af js bræddum. Nu ef prestur efast huortt barn er skyrti annadhuortt af ordum þess er skijrde edur þeir hermi tuefalltt sem hia ero j þeirre efan primsigni. prestur og giori sijdan alltt sem vanntt er og adur er skipat.

6. Þui skal og optt firir folki lysa ad einginn madur ma konu fa sier skilldari ad frændseme edur sifskopum enn ad fimta manne sie til annars huors þeirra ad telia sem iiij. manne af huarutueggiu alfu edur nanara er firirbodit at fa vtan biskup lofi edur kirkiunnar vmbodzmadur.

7. So ma og einginn fa þeirrar konu er hann helldur vndir skijrn edur þess manz konu edur dottur er hann hiellt vnder skyrn edur biskups hond. Eingin kona ma og hafa þann mann er henne helldur vndir skijrn. eige þeirrar bonda edur son er henne helldur vndir skijrn. So ma og einginn prestson fa þeirrar konu er fadir hans skijrde og eingin dottir prestzins skal þann mann fa er fadir hennar skijrde.

8. Er og allskyns frillulijfe og hordomur firirbodinn af heylagri kirkiu.

9. Huor madur er sier hefur mey edur konu festa at guds logum er skylldugur at giora brullaup sitt til hennar jnnan xij. manada sijdan hann hefur festa hana. Suo þo at lyst se iij. drottinsdaga j kirkiu firir brullaup þeirra firir soknarfolki sijnu at sa er sanna meinbugi veyt a vera at su festing mege ei framgeyng verda eptir logum vite þess giorr meyr huad hann vill þar vm vitna. Er þesse lysing þar til skyput af heilagri kirkiu ad þeirra manna born er henne hallda vppe

skulu arfgeyng eptir fodur og modur so sem eigin qono born þo ad þar profist a logligir meynbugir sijdar meyr. Enn þeirra hiona born er þessari lýsing lata ei vppi hallda og profist þeirra a mille logligir meynbugir sydar meyr verda ei arfgeyng og so sem getin j meynbugum.

10. Prestar skulu hallda og hafa fonta sijna hreyna þietta og vel lokada.

11. Prestur skal jafnan til Reydu vera huorn tijma hann verdur kuaddur logliga at skijra Born edur fara j adra naudsyn til siuks manns. Enn ef hann fornemst logliga kuaddur og deyr barn oskyrtt edur siukur madur oskriptadur þa sie hann suspensus og gotz hans alltt er hann hefir aflad af kirkiu se j Biskups vallde so framtt sem j moti presti er farid skynsamliga huortt sem hann þarf a sio edur landi at fara og sie jafnuel heym reyddur sem heyman so ei þurfi hann sialfur at roa.

12. Lysa skulu prestar firir soknarfolki sijnu. ad huor karlmadur og kona er samuizku alldur hefir til skal hid minsta a huorium xij. manudum ganga til skriptar vid soknarprest sinn og þui [ad] eins vid annann at soknarprestur hans lofi honum og ef vtansoknarmadur vtan pilagrimur edur vegfarandi madur sie. kemur til nockurs prestz orlofslaust þa seigi prestur honum þegar at hann hefir huorki valld til at leysa hann nie Binda og vise honum aptur til soknarprests sijns.

13. Eynginn prestur skal heyra þess manns skriptamal er hann veyt j Banni vera firr enn hann er leystur af þui Banne af þeim sem leysa a hann at logum og þar skal prestur first eptir frietta j skriptamalum og þar næst ad huor madur kunne fræde sijn og biode at þeir neme sem first er ei kunna adur.

14. Þess skulu prestar giorla geyma ad þad ero sumar syndir sem er stuldur edur Ran og alltt þat er nockur hefur annars oheymilltt gotz huoria leyd sem þad kemur til þa ma honum ei su synd bætast vtan Riettum eiganda sie aptur lokid med fullnade ef honum ma na edur hans orfum.

15. Huor prestur skal hafa hreyn messoklædi og alltaris Bunad og alltt annat þat er gudz þionustu hæfir j heilagri kirkiu. enn huor sem odru verdur kunnur gialldi firir handklæde huortt sem vid alltari þarf ad hafa eyrir fyrir alltaris-

blæiu og hofudlijn eyrir firir sac[r]arium ij. aura. firir corporalia half mork.

16. At soknarkirkiu skal grafa lijk huortt er j þeirre kirkiusokn andast þar sem groptur er til vtan hinn framfarni hafe sier j odrum stad leg kosid lockunarlaust og jleydingar og sie þa jardadur og hafe soknarprestur hanz fiordung af ollu offre og vtgiord er þui lyke fylgir. vtan syduane sie annar og sie hann þa geymdur. Enn ef madur kys sier leg j odrum stad enn at soknarkirkiu sinne at nockurs mannz leyding edur lockan og verdur þar grafit sijdan þa er su kirkia j forbodi pafans og ma þar huorki lijk grafa nie messu syngia þar til at soknarkirkian hefur sinn Riett fullann af ollu þui gotzi er þui lijke fÿlgir.

17. Lijk skal nidursetia þorsdæginn firir dimbildaga viku firir messo en a langa friadag ei. paska aptan eptir messo skal lijk nidur setia og ei salumesso yfir syngia. Paskadag skal lijk ei nidursetia. a annann dag paska skal lijk nidur setia ef vill og syngia þa salumesso[1]).

---

## K.

AM. 199. 4to bls. 28 á pappír skr. c. 1650, sbr. B § 2, C § 20. Þessi grein er í ýmsum handritum nefnd réttarbót Hákonar konungs og er hér áðr prentuð í inngangi á bls. 417 eptir þeim handritum, sem kalla hana réttarbót[2]); en þetta getur því að eins verið rétt, að hún sé tekin upp í skipan Eilífs úr réttarbót, sem áðr hefði verið útgefin.

J kyrkiu Logum. Jlifur Erchibiskup ad nydarose og Jon Biskup j Skalholltj.

Einginn skal gefa audrum Ranga sok a stefnum. Enn ef gefur gialldi suo micid sem hinn skylldi ef hann værj sannur ad sok. vtann sa sem sauk gefur sanni med Eins Eidj ad hann þottist Eptir Riettu vpp Bera sitt mal þo so ad hans tala virdist Ey hynum til ofrægdar eda fiolmælis.

---

[1]) Hér kemr á eptir í handritinu: þessar eru þær konur óskylldar etc. sem sérstök klausa (Dipl. Isl. II, 95, ár 1281).

[2]) Þar er prentvilla: AM. 138. 4to, á að vera AM. 238. 4to.

## L.

AM. 181. 4to bl. 77b skr. 1669, á pappír (bók Odds Jónssouar á Reynistað). Sbr. B § 3 og C § 22.

Skipan Eylijfs ErkeBiskups j Nidarose med räde allra Biskupa.

Leindarmäl øll rædd ä prestastefnu, sem Biskup Býdur ad leina leinest. Enn bere þau Einhuðr vt giallde 3 merkur og misse Embætted 6 manude og Eignist fatæker Rettenn, enn Biskup pijne hann meir ef med þarf.

---

## M.

AM. 234. 4to bls. 327 á pappír c. 1600; mun stafa frá Oddi biskupi Einarssyni.

Vr Eilyfs statutum.

Vm þa sem bera menn rangre sok cap. 1. (= B § 2).

Vmm skýrnina cap. 2 et cap. 5. (= B § 5, 10).

Vmm lysingar oc brullaupsgiörd oc frændsemis spioll cap. 3 (= B § 6—8).

Vmm hordoma oc frillulyfe cap. 3 et cap. 13 (= B § 8).

Ad folkid skriptizt oc einginn þionustist j annars soknn cap. 6. vtan siuka cap. 10 (= B § 11, 19).

Ad folk lære frædin cap. 6. (= B § 12).

Ad prestar straffist ef þeir riufa skriptamal (= B § 18).

Huort hann ma ecke messa ef hann veit sig staddann j hofudsynd: cap. 7. (= B § 21).

Ad ecke skule þionusta storbrotamenn fyrr enn þeir hafa eptir logum bætt: cap. 10. (= B § 25).

Vm legstad ad kiosa sier cap. 11 og 13. (= B § 28, 31).

Fyrir þa sem ecke eru kirkiugræfer cap. 12 (= B § 29) oc vmm okurkalla (= B § 32).

Vmm vtestodur oc ad frillur skule ecke j kirkiu leida cap. 13. (= B § 30).

Ad prestar skule ecke taka vmmbod til klogumala oc ecke hafa osæmiligann fiarafla cap. 13. (= B § 37—38).

Vmm presta klædnad cap. 13. (= B § 35).

Ad þeir skule ecke leggia sig vndir leikmannadom cap. 13. (= § 38, 39).

Huerninn prestar skulu fara med abyle sitt oc kirkiunnar eign cap. 14. 15. (= B § 45).

Adrar statutur Eilyfs oc annara.

Ad prestar varist frillulijfe (= Eilífs fyrsta I § 2).

Ad þeir kolludu aptur nockrar ologligar statutur fyrre biskupanna. (= Eilífs fyrsta I § 1).

Ad prestar varist deilur oc legge sig ecke vnder leikmanna valld. (= Eilífs fyrsta I § 1; sbr. skipan Eilífs hina miklu B § 38—39).

---

## N.

Ny kgl. saml. Nr. 1281. Fol. á pappír (bók Sigurðar lögmanns Björnssonar). Sá kafli, sem hér er um að ræða, er ritaðr 1635. Fyrst á bókinni er ordinanzían frá 1607 í íslenzkri þýðing eptir Odd biskup frá 1608[1]) og þar aptan við kemr ritgjörð eptir Odd biskup til skýringar ordinanzíunni. Inní hana eru færðir kaflar úr fornum biskupastatútum og aptan við hana eru sem fylgiskjöl nokkrar biskupaskipanir og þekkist ein af þeim ekki annarstaðar frá (skipan eptir Oddgeir biskup frá c. 1370). Eptir þessum kafla er það tekið, sem hér fer á eptir úr skipan Eilífs. Tvær greinar eru hér í úr öðrum skipunum Eilífs (II § 2 = 1320 I § 3; VI § 3 = 1327 I § 28) og eru þær látnar fylgja hér með; ein grein er hér signuð Eilífi, sem stendr í skipan Árna biskups Þorlákssonar 1269 (A § 4), en hún gæti líka hafa staðið í skipan Eilífs. Ein grein er hér sinnig samhljóða við § 28 í skipan Jóns biskups Haldórssonar frá 20. Júlí 1326. Tvær greinar eru hér (V, § 11; VI § 2) eignaðar Eilífi, en sem eg ekki hefi tekið eptir í öðrum afskriptum af skipunum hans. Alt annað, sem hér stendr, ma rekja til skipanar hans hinnar miklu (B-textans): I § 1 sbr. B 3—4; § 2 = B § 18; § 3—5 = § 25; II § 1 = B § 4; III = B § 2; IV § 1 = B § 30 (síðast); § 2 = B § 33; § 3 = B § 34; § 4 = B § 44; § 5—8 = B § 45; V § 1 = B § 4; § 2 = B § 10; § 3 = B § 12 (upph.); § 4 = B § 17 (upph.); § 5 = B § 18; § 6 = B § 25; § 7 = B § 37; § 8 = B § 38; § 9—10 B § 39; § 13 = B § 57; § 14 = B § 52; § 15 = B § 58 (upph.); VI § 4 = B § 8. Sumt af þessu virðist hafa verið skrifað upp eptir

[1]) Prentuð á Hólum 1635.

fornum handritum, sem vantað hefir í t. a. m. IV, sem endar í miðju kafi og V, sem byrjar í miðju kafi. Að sumu eru þessar afskriptir ekki sem áreiðanlegastar, en það þótti rétt að prenta þær samt, ekki sízt af því, að jafnfróðr og merkr maðr sem Oddr biskup Einarsson hefir álitið þessar greinir hafa haft nokkurt gildi þó að pápiskan væri um garð geingin.

I.

Bl. 55b í ritgjörð Odds biskups Einarssonar um ordinanzíuna.

S[kipan] E[ilifs] B[iskups].

1, Þad skulu prestar varast. hvervetna framm. ad giora þad opinbert sem leynt a ad vera.

2. Enn ef prestur rýfur skrifftamal. og verdur hann sannur ad þvi. þa sie hann tekin af vijgxlunne. og hafi Biskup fe hans.

3. Prestar skulu ei gefa þionustu utan Biskups ordlofs nockurum þeim j stormælum eru. edur opinberum glæpum. fyrr enn þeir bæta effter løgum.

4. Einginn prestur skal þionusta annars soknarmann naudsynialaust. ella giallde biskupe halfa mork.

5. Ef prestur verdur krafdur ad veita siukum manne þionustu j annars sokn. þa skal hann fara til hans og veita honum naudsynialausn[1]).

II.

Bl. 60a í ritgjörð Odds biskups um ordinanzíuna.

S[kipan] E[ilifs] E[rki] B[iskups].

1. Sä prestur sem rijfur þau mäl er Biskup tekur til a prestastefnu. oc lærdir menn verda ä satter. sekur iij. morkum Biskupe.

S[kipan] E[ilifs] E[rki] B[iskups].

2. Ef nockur prestur helldur opinnberliga frillu j sinu huse a sijnum koste manud sijdan hann hefur feinged Biskups aminning. luke Biskupe fiorar merkur ef þad er hofudprestur. enn capellan tvær merkur. Helldur hann hana sijdann tvær vikur. giallde tvø slijkt. Bæter hann [eigi] innan tiu daga sidann. þa sie skildur vid kirkiu oc Beneficium. og leysest af Biskupe. og synge ej messu fyrre.

---

[1]) Þessi grein er einnig í Ny kgl. s. 1847. 4to bl. 13b skr. 1669.

III.

Bl. 60b í áðrnefndri ritgjörð.

S[kipan] E[ilifs] E[rki] B[iskups].

Einginn prestur skal ôdrum Ranga sôk gefa. enn ef gefur. greide Biskupe svo mykid sem hinn skylld. ef hanni væri sannur ad sôk. utan sä er sôk gefur sanne med Eineide. ad hann þottest effter [rettu] male upp bera sijna kiæru. so þo at hans tala virdist ej hinum til ofrægdar edur fiolmælis[1]).

IV.

Bl. 61b—62a aptan við áðrnefnda ritgjörð.

Skipan Ejolfs(!) Erckibiskups af Nidarose j Noregi.

1. Ei skal frillur edur horkonur. edur þær konur allar sem j frændseme edur sifskopum geta sin Born. j kirkiu leida effter Barns fæding. enn hvôr sem leider. giallde Biskupe halfa mork[2]).

2. Einginn prestur edur lærdur madur ma selia af prests sokn sinne jarder nie messofôt. edur annad gots sem ad fornu hefur tilleigid edur ad nyu under komid utann med rade og samþicke Biskups sijns. En hvor ed selur ôdruvis. þa er kaupid onýtt. einkum þar hann nýter sier verdid enn ej kyrkiu. enn Biskupe þriar merkur.

3. Hver sem nidurdrepur kyrkiukýr. edur kyrkiufie edur j burtu flitur. og firrer þann prest sem effter kiemur þa luki so mikid fie afftur. hann edur hans erfingiar. sem hann fargade med ôllum fiar avexte og leigum so miklum sem af skylldu ganga so leinge sem mist er. og Biskupe þriar merkur ef sækia þarf.

4. Sä prestur er kyrkiu tekur ad Guds lôgum. bygge eigner þær sem hun ä ad hafa til preststôkunnar. til skynsamligrar äbudar og landskýlldar.

5. Prestur sa sem fullt abyle hefur og leiger sier adra jôrd. so hann leggur abylid j eide. giallde sem sex skynsamer menn meta.

6. Ej skal prestur äskilia meire landskylld enn bera mä.

---

[1]) þessi grein er einnig í Ny kgl. 1847. 4to bl. 4a skr. 1669;
[2]) Einnig í Ny kgl. s. 1847. 4to bl. 13.

enn ef jörd eydest af þvi sem hann skilur vid bygging jardar er hann byggir til audnar giallde sem sex skynsamer menn meta. ad misfared er med þeim jördum. enn Biskupe sex aura.

7. Ef prestur sa er til kyrkiu kiemur. gefur þa sök hinum er fra for. ad hann hefur ad villd sinne ej bygt til fulls eigner þær er til preststökunnar liggia. þa sanne sa er fra for med eide sinum. ad hann gat ej betur bygdt. og ei bigde hann þvi med affalle. ad hann skyllde frä fara. edur giallde hinum þad er hann miste med jafnre leigu.

8. Svo skal prestur a jordu bua og ad fara(!) sem annar leiglendingur. og svara lögum presti þeim er til kiemur effter hann um allt þad sem leidlendingur ä ad svara landsdrottne þann tijma er hann for af jördu. Standa skulu hurdir þriar. þo ej være þa hann kom til. stofuhurd. burhurd. og elldhusshurd. so og allar þær er fyrre voru. Nu ef prestur tekur einhveria hurd. og færer burt. þa skal hann afftur færa og skal sa prestur er til kirkiu kom leggia ä landnam ef hann hefur leýst j fra. Enn ef nockut fylger hurdu af þroskullde af dyrum edur gättartre. þo ei sie nema ein flijs. þä heiter husbrot. og bæte husbrot mörk[1]). halft Biskupi. enn halft þeim er til jarda kom so og ef hann brýtur[2]).

V.

Bl. 62b—63a aptan við áðrnefnda ritgjörð.

Skipaner Eilifs Erckebiskups af Nidarose j Norege.

1. .... prestastefnu. og lærder menn verda äsatter. giallde Biskupe þriar merkur.

2. Prestar skulu jafnan til reidu vera. hvervetna þar sem hann verdur kvaddur lögliga ad skijra Börn. edur ad fara j naudsyn til siuks manns. Enn ef hann fer ej logliga kvaddur. og deyr Barn oskijrt. edur siukur madur oþionustadur. þa sie settur af prestskap og Beneficio. og Gots hans sem honum hefur aflast af kyrkiunni j Biskups vallde. so framt sem skynsamlega er mote fared preste. hvort sem hann þarf a lande

---

[1]) Þessi grein hingað að er og í Ny kgl. s. 1847. 4to bl 13b skr. 1669; [2]) hér þrýtr greinina í miðju kafi.

edur sio at fara og sie jafnvel heim reiddur sem burt. so og ad hann þurfe ej sialfur ad Roa[1]).

3. Einginn skal heyra skriptamal þess mannz sem hann veit j søkum vera. fyrre enn hann er leystur af þeim søkum. af þeim preste sem hann ä ad logum ad leysa.

4. Prestar aller er kyrkiur hallda og curum animarum hafa teked af Biskupe. hafa fullt valld til hver j sinne sokn ad setia skriffter og leysa soknarmenn sina. af ollum leyneleg-um syndum og misgiordum skriftbornum vid sig.

5. Enn ef prestur rifur skrifftamal. og verdur sannur ad þvi. þa sie hann tekinn af vigslu og hafe Biskup fie hans.

6. Prestur skal ej þionustu gefa fyrir utann Biskups ord-lof þeim sem j storskrifftum edur opinberum glæpum eru stadder fyrr enn þeir bæta effter løgum afbrot sijn. enn ef annars giorer. giallde Biskupe halfa mork.

7. Fyrirbodinn er prestum ollum osæmelegur fiarafle og kaupskapur. so og ad kaupa nockurn hlut til þess ad hann selie þad dyrra ut afftur[2]).

8. Eige skulu prestar taka umbod til nock[u]rar deilu. edur standa ä stefnu fyrir leikmanna dome. utan hann sæke Rett sinn edur kyrkiu sinnar edur þeirra manna sem løgin bioda. so sem fyrir eckiur. edur födarlaus Børn. edur frændur[2]).

9. Klerkum øllum er fastlega fyrirbodid under Bans pijnu. j nockrum þeim domum ad sitia. Bref þau edur doma ad rita. edur nockrum radum edur samþickt vera um lijflat edur lima lat manna[2]).

10. Eige skulu klerkar vitne bera edur eida sveria fyrir løgmanne. og ej skulu þeir leggia sig under þeirra dom um nockra hlute. edur nockurs annars veralldligs manz[2]).

11. Hver su kona sem opinnber hefur ordit ad barngetn-ade med preste. sie huorge til heimilis j hans kyrkiusokn. edur hans þingum nottu leingur forfallalaust. enn ef dvelst. sie lukt fra heilagri kyrkiu og sacramente utann j lijfshaska. so framt sem hun lofar ad bæta.

12. Eige skulu prestar setia leikmann ut af kyrkium

---

[1]) þessi grein er og í Ny kgl. s. 1847. bl. 13; [2]) einnig í Ny kgl. saml. 1847. 4to bl. 13.

nema saker sieu opinnberar edur nogar. og geime þo giorsamlega ad þeir giore þrennar aminningar til leidriettingar af þeirre sôk so vitne sieu vid. og rite sidan skilvislega sôkina. og so bodid kyrkiu jnngaungu med þremur aminningum. ef hann leidriettist ej sijdan. lese hann so sem ritad er j kyrkiu fyrir soknarmonnum sijnum.

13. Ef prestur liggur siukur. þa skal hann giôra ôdrum preste bod og tia honum ef nockrer eru oskilamenn j þingum hans. og skal sa prestur vera skylldugur ad hialpa soknarmonnum hans og honum. þeim sem j skilum eru sem þeir sækia til ad naudsynium sijnum medan prestur er siukur.

14. Eige skulu prestar vopn bera naudsynialaust. enn hver sem ber. giallde Biskupe halfa mork.

15. Ef prestur rægir mann fyrir kongi edur Biskupi. giallde slijkt sem hinn skyllde.

## VI.

Bl. 63b aptan við áðrnefnda ritgjörð.

Statutur Ejolfs(!) Erchibiskups af Nidarosi i Noregi.

1. Vier fyrerbiodum sterkliga bæde korlum og konum. ad giôra leynelegar festingar. edur hionaband edur heit. so ad ei sieu vid hid minnsta tvô vitne og sie þau effter ā skylldt ad lysa fyrer soknar preste.

2. Ei skal hion saman vijgia a ymbrudôgum. og ej ā langafôstu og ej saman vijgiast sama drottinsdag og lŷst er.

3. Einginn karlmadur edur kona skal takast til hiuskapar bands ur odrum Biskupsdæmum j odrum ān vitnisburdarbrefs Biskups sins edur soknarprests. þa er fyrerbodid ôllum prestum nockra samann ad vijgia edur þvilijk brudkaup ad sitia. utan personurnar sie so merkiligar og mikilshattar. ad effter lijkendum synest ecke trulegt vera. ad nockur hindrun meige þar af verda.

4. Hvôr sem hefur mey edur konu festa ad guds lôgum. er skylldur ad giora brudkaup til hennar jnnan þeirra fyrstu xij mānada sem hann hefur fest sier hana. so þo ad lyst sie þria sunnudaga j kirkiu fyrer brudkaup þeirra. fyrir soknarfolke. ad sa er veit sanna meinbugi ā vera. ad su festing meige ej framm ganga ad lôgum. og ad hann vite þess gior hvad hann

vill vitna. er þesse lysing þvi til sett af heilagri kyrkiu. ad þeirra hiona Bðrn sem henne hallda uppe eru arfgeing effter fodur og modur. so sem eiginn konu Bðrn. þo þar profest lðgligir meinbuger seirna meir. Enn þeirra hiona Bðrn sem ej hallda þessare lýsing uppe. þo þeirra a mille profest ej logleger meinbuger sijdan. samt verda þeirra Bðrn [eigi arfgeing].

---

356. [1324 eða fyrr].

Bréf Bergs ábóta Sokkasonar með Nikulássögu erkibiskups.

Bergr varð ábóti á Þverá 1325, en í bréfinu kallar hann sig klerklausan mann, og getr því bréfið ekki verið yngra en 1324 en vel nokkrum árum eldra og ef til vill eldra en 1318. Hér er það prentað eptir AM. 638. 4to, sem er pappírsafskript af Codex Resenianus; borið saman við AM. 640. 4to skb. 1500. Prentað áðr í Heilagra mannasögum útg. af Unger II. 49–51.

Bref herra bergs abota[1]).

Aullum guds vinum oc sinum. þeim sem þenna bækling sia edr heýra. sendir brodir bergr sockason Q[uediu] guds oc sina.

Medr þui at ek klerklauss madr dirfiz at giðra suo mikinn hlut firir bænastad nðckurra manna at snara lifs sðgu [hins sæla[2]) nichulai erkibiskups. helldr fullari enn adr finnizt skrifut j fornum bokum er ek bidiandi[3]) þa menn sem þetta verk ero heyrandi oc vel skiliandi at þeir þyrmi minni fafrædi [þa er[4]) þeir sia atfyrdiligt. bætandi uanskilt enn eigi firirdiarfandi sialft verkit at sa partr sem heill er megi til nytsemdar koma. þat bidr ek annat[5]) at sa er soguna less segi iafnan capitulum fyʀ enn annat byrizt þuiat malshattrin beidir þess j mðrgum stðdvm. þat bidr ek hit þridia j min starfalaun ath hverr sa er skrifar sðguna lati þetta mitt bref iafnan firir standa bokinni enn eigi nidr falla þuiat min bæn er su hin sidazta at huerr madr j herbergi næʀi staddr j upphafi sðgu þessarar lesi minni sæl til

---

[1]) sl. 640; [2]) [sæls 640; [3]) hiartaliga b. v. 640; [4]) [sl. 640; [5]) annar 640.

fridar oc nāda elskuligt vers[1]). Aue maria. Einkanliga bidr ek [þik dugandis madr[2]). sem til er skipadr[3]) ath lesa sôguna ath þæ[4]) alla æminnir firir mina hônd suo at j þessum stad segizt skynsamliga wersit Aue marie. [gracia plena dominus tecum. benedicta tu in mulieribus et benedictus fructus ventris tui iehsus christus. Amen.

versus.

Præsens huic operi sit gracia. pneumatis almi
Ne uiuet et faciat implere. quod utile fiat
Assit principio sancta maria meo
Aue tumbam sancti dilectam dat nichulai
Jn fundens olei sudorem sanctificati
Det michi peccanti ius patris scribere tanti
Libet prosit menti. concordans sepe legenti
Scribere sinoris fructus tibi crescit honoris[5]).

---

357. [1324].

Máldagi Maríukirkju að Stað í Súgandafirði [er Jón biskup Haldórsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 100b—101a skr. 1601. Þessi máldagi er svo fornlegr, að hann gæti verið frá tímum Jóns biskups Haldórssonar og úr hans fyrstu vísitatíuferð.

Stadur j suganndafirde.

Mariukirkia ad stad j suganndafirdi er helgud gudi oc gudz modur marie.

hun a heimaland allt. reka millum dalsär oc raufuar.

fimm kŷr. vj ær oc ij hundrud frijd.

þridiung afreitar j vatnnadal vmm framm stodhrossa beit oc gŷlltu med niju grijsum.

tiju aurar j geirsbrek[k]u. naustgiord vid aros j bæiarland.

þetta a kirkian innann sig. ij. krossa. mariu skript. peturs-

---

[1]) vorar fru b. v. 640; [2]) [þess dugandi menn 640; [3]) skipadir 640; [4]) þu 640; [5]) [sl. 640.

lijkneski. þorlaks lijkneski. jonz lijkneski. kluckur þriar. alltarisklædi. messuduk. kerttastika ein med kopar. hôkur ij.

þanngad liggia tijunndir oc lysitollar af ollum hæium millum skälavijkur oc gnups oc saudaness.

---

358. [1324].

MÁLDAGI Bartholomeuskirkju í Otradal [er Jón biskup Haldórsson setti].

Jón biskup Haldórsson fór í fyrsta sinn yfir Vestfjörðu 1324. Landsb. 268. 4to bl. 95a skr. 1601. Máldaginn er miklu eldri en Vichins og víst miklu eldri en 1362. Seinustu grein máldagans mun vera seinna bætt við. Máldaginn gæti verið úr fyrstu visitatíu Jóns biskups Haldórssonar að öðru leyti.

Otradal.

Kirkia j otradal er helgud allzvalldandi gudi oc heilagri gudz modur marie. og hinum heilaga barttolomeo postola. er þann stad a allann. Tomhasi erchibiskupe. Thorlacho biskup[i]. ceciliu meyu.

hun a allt heimaland. millum haganess og heytils[1]) hamra.

skog j trostannzfirdi thil allra þarfenda. en leyfa engum. stadarmenn skulu hoggua þar sem þeir vilia. suo vijtt sem land a skog.

kýr xij. hross ij. hundrad voru.

kirkia ã jnnann sig. klockur ij. krossar iij. kalek. oc flatskript. kistil oc kistu. alltarisklædi þriu. glodaker oc kantarakapu. refil. munnlogar ij.

thil kirkiu þessarar leggiast tijunndir og lysitollar oc groptur af ollum bæium millum galltar oc lannganess.

Jtem harttolomeus lyknneski er þordur buti gaf.

---

359. [1324].

MÁLDAGI Maríukirkju í Garpsdal [er Jón biskup Haldórsson setti].

[1]) Bogtilz, hdr.

Landsb. 268. 4to bl. 98a—b ekr. 1601. Máldaginn er fornlegr, og virðist vera mikið eldri en Vilchins. Gæti verið frá dögum Jóns biskups Haldórssonar, og úr hans fyrstu visitazíu.

Garpsdalur.

Mariu kirkia j garpsdal ā .xx. hunndrud j heimalandi.

vij kyr. vij ær. hest. ccc ofrijd.

messuklædi oc hokull. ij kalekar. kluckur vij. alltarisklædi. iiij. rodukrossa iij. mariuskript. thorlakz lijkneski. munnlogar ij.

þangad liggia vndir xiij bæir ad tijundum oc half tijund or olafsdal.

þangad skal lukast fiordungur ostz af huerium bonda or þessum þijngum.

jtak j raudzskog. hvnndrad raptvidar a hueriu ari.

rijshogg j borg.

torfskurdur j suarbolzgrafuir.

bunautnn j osfioru.

þar skal vera heimilisprestr og luka honum fiorar merkur j tijdaoffur.

---

360. [um 1325].

Máldagi kirkjunnar í Svignaskarði í Borgarhrepp á Mýrum.

AM. dipl. afskr. Nr. 2253 «Ex transscripto membraneo (anni 1664) qvod communicavit Gudmundus West». Vilchinsbók hefir máldaga svo að segja orðrétt samhljóða við þennan; er hér höfð til samanburðar afskr. AM. 260. Fol. bls. 120—21. Jón Sigurðsson hefir viljað heimfæra þenna máldaga til 1325 og er hér ekki vikið frá því, af því að það getr verið, að hann sé svo gamall; sumt af honum er ef til vill eldra (fyrri hlutinn). Stefán biskup staðfesti þenna máldaga 1512.

Sýgnaskard[1]).

[Þessi er[2]) mældage kyrkiunnar j Skarde. at þar skal syngia fyrir[3]) huern dag laughelgann. pæskadag hinn fýrsta. [ævallt seirna[4]) dýradag. allar tider Mariumesso j faustu. hvita

[1]) Vilch.; [2]) Vilch.; sl. 2253; [3]) sl. Vilch.; [4]) [oc avallt sydann, Vilch.

sunnu. olafzmesso fyrre. allra heilagramesso. er [þetta skylldu saungur[1]). ok luka preste tvær merkur. oc skal þar eiga[2]) takast heima [allar tiunder[3]) heima manna ok liostollar[4]).

Hun æ alla veide[5]) j Gliufuræ fra kiarkalæk til kidmula äss. enn halfa þadann til diupvadz.

[Hun æ[6]) tvær kýr. ok hest. tiolld oc alltarisklædi. þriar kluckur. fiora glerglugga. Mariuskript, kross smelltann. ok steindann kross med understaudum. [olafzskrift. messingarketil elldbera. sacrarium[7]).

Jtem lukte Kolbeinn Gilzson[8]). manadarbeit j gliufurár jörd[9]) um sumarit aullum busmala. oc hrossum. oc elldivid sem þvi bue þarnast. þa[10]) hann sellde jördena. enn kirkian atte at fornu manadarbeit [vpp j jordena[11]). [og halfann vididal etcetara[12]).

---

## 361. 25. Juni 1325. i Eskiholti.

Eiðr Þorkels Þórðarsonar og Marteins Árnasonar um veiði Svignaskarðskirkju í Gljúfrá.

AM. Dipl. afskr. Nr. 2254 «ex transscripto membraneo, anni 1664, qvod communicavit Gudmundus West»; Landsbókasafn Nr. 101. 4to (= C7) bls. 353 (sbr. Jón Þorkelsson: Om digtningen på Isl. i det 15. og 16. årh. Kh. 1888 bls. 221).

Jn nomine domini legg ek þorkell þordarsvn. marteinn arnason havnd a helga bok at þat seigi ek gvdi. at gardr var vm þvera gliufr a sa er ei geingu fiskar vm j teina i þeim gardi er firi nedan var. höfþv skardmenn þeza fiskveidi alla atavlvlavsa at minne vitand vpp at divpa vadi: veit ek þessa

---

[1]) [þes[a] alla skyllt fyrer ad syngia, Vilch.; [2]) sl. Vilch.; [3]) [tiund allra, Vilch.; [4]) lysistollar, Vilch.; [5]) laxveidi, Vilch.; [6]) [sl. Vilch.; [7]) [messingarketil oc elldbera olafs lykneski sacrarium munnlaug paxblad Jtem bestr. portio oreiknud, Vilch.; má þvi vera, að það sem eptir fer, sé frá seinni biskupum t. a. m. Vilchni sjálfum; [8]) Torgilsson, Vilch.; [9]) landi, Vilch.; [10]) fyrr enn, Vilch.; [11]) [b. v. Vilch.; [12]) [Jtem allann halfann Vidadal, Vilch.

veidi stadit hafa meir enn fiora tigi vetra ok alldri heyrda ek tvimęli a at kirkia j skardi ętti alla fyʀnefnda veidi: þar til er nv hefer helgi prestr ækiært i havst: so se mer gvd hollr sem ek satt segi gramr ef ek lýg: ok til sanz vitnisburdar at ek magnvs profastr svartzson tok þenna eid næsta dag efter ions messo vm vorit j eskiholti set ek mitt innsigli firi þetta bref er gert var j fyʀ savgdvm stad a vj. ari rikis magnus noregs svia [ok] gǫta konungs.

---

## 362. Fyrir 9. Marts 1326. [i Skálholti].

Bréf Jóns biskups Haldórssonar í Skálholti til Laurentíus Hólabiskups um Möðruvallamál.

AMagn. 406A. 4to bl. 44b skb. 1540—50; AM. 180B. Fol. bl. 50a skb. c. 1500. Prentað í 53. kapítula Laurentíussögu (Bps I, 858, 903).

... var þat bref stutt oc [faordt[1]) næst [post salutacionem[2]) stod svo.

ad ingimundur af modruvollum kom [so[3]) at oss ovorum [at vier vissum eigi helldur enn himinn mundi bresta. flutte hann[4]) at þier [herra ʙiskup[5]) hefdi eigi hallditt[6]) þat sattmal sem vier [sômdum æ modruvollum j sumar. þvi siam vier eigi oss annat stannda. enn ʀida nordr at sumre. oc leggia enndiligann vrskurd æ sagt mal[7]).

---

## 363. 6. Mai 1326. á Hólum.

Samningr Laurentíus biskups á Hólum og Guðmundar ábóta á Þingeyrum um biskupstíundamál, og gefr biskup klaustrinu Hvamm í Vatnsdal og Húnstaði (sbr. Laurentíus sögu, Bps I, 851—52).

---

[1]) [fa ord halldanndi 181, [2]) [salutacione 180; [3]) [til miog 180; [4]) [flytiandi 180; [5]) B. bp, skb.; [6]) [hieldit ei 180; [7]) [aller saman giordvm j svmar millvm ydar oc klaustrsins oc hrædranna oc þvi syniz oss sem ver munvm verda nordr at koma j sumar oc leggia endiligan urskurd aa sôgd mal.

AM. Dipl. afskr. Nr. 441 «ex originali monasterii thingeyrensis, accuratissime» (AM.) «þetta bref er ritad med smárre godre hende, enn eru rofur og angar ut ur sumum stöfunum, so sem ar j. d. h. k. l. b. þo er þetta allt fallega pingerad og iafnt vid sig» (AM.). Innsigli biskups og ábóta var fyrir frumbréfinu, þegar Árni hafði það í höndum, og lýsir hann þeim. Afskriptir af bréfinu eru í AM. 277. 4to bls. 10—11; AM. 280. 4to bls. 148—50; Landsb. Nr. 108. 4to bls. 257—59; Landsb. 107. 4to bls. 2—4. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 184—85 (eptir lakri afskr.).

[vm sættargiord lafranz biskups oc gudmundar abota oc stýrctar[1]) bref erkibiskups[2]).

J gudzs nafni amen.

Gerum ver brodir laurencius med gudzs miskunn biskup at holom oc ver brodir Gudmundr med samri miskunn aboti at þingöýrum þat ollum monnum kunnigt at þa er lidit uar fra burd uars herra. ꝏ. ccc. xx. oc vj. ar. þrem nattum efter kross Messo a uarit a holom j hialltadal. tokum vit hondum saman a þenna hátt at ek aboti firsagdr lagde oc uppgaf firi klaustrit at þingöýrum firi mik oc mina efterkomendr j. ualld oc skipan mins herra laurencij biskups. vm biskups tiunda mal þat er j millim hafdi farit vm stund hola kirkiu oc þingöýra klaustrs. oc allar adrar mala greinir þær sem sagdra stada hafa millim gengit. fra upphafi oc til þessa dags vndir slika graciam sem hann uilldi klaustrinu her j. mot gera. jattandi j. sogdu handlaghi at hafa þat statt oc stadugt æfinliga sem hann villdi her vm skipa. Enn ek brodir laurencius biskup gaf a þenna sama dagh klaustrinu til stadugligrar og æfinligrar eignar. alla jordina j. huammi j. vazdal. bæde kirkiuluta oc eignarluta med ollum þeim lunnendom sem hun a oc eighande

[1]) stryctar (frbr), Árni leiðrétti; [2]) [«Utan a brefed er ritad med miög gamalli hendi . . . þetta a so ad skiliast, ad þetta bref og Confirmatio Eylifs Erkibiskups, hafa vered lögd saman i eitt bindene. þvi vist er þad, ad sier i lage er Confirmationen innsiglud, enn hefur alldrei fest vered med innsigle vid þetta bref, og alldrei neitt annad bref fest vered vid þetta nærverandi bref. framar er utan [a] þetta bref skrifad med eigen hendi pals gislasonar landzskrifara:

þetta Breff var wpplesid j logriettu Anno 1639. aa Oxaraar þijnge

Paall Gijslason

E. h.» (AM.)

hefer at vordit bæde at[1]) fornu oc nýiu oc adra jord er hunstader heita. skal klaustrit at þingðýrum. þessar jardir hafa frialsar oc akierulausar firi oss oc uarum eftirkomandom. Enn stadrinn at holom vera frials oc akallzlaus vm biskupstiunda mal oc adrar mala greiner þær sem millim hafa farit firsagdra stada. ventum ver at minn herra Eilifr erkibiskup muni þessa uara gerd stodugha oc stadfasta hafa. þuiat firi skemstu er ver uorum j. noregi oc hann uigdi oss bad hann j. ockrum skilnade at ver skilldim gera ual oc sômiliga vidr klaustrit at þingðýrum.

Ok til stadfestu her vm settum vit badir ockur jnsigli firi þetta bref. Er gort uar j. fýr nefndom stad deghi oc are. hiauerandom sira egli [sira skula prestum. oc benedikt kolbeinssyni. oc sin insigli firir setiandom[2]).

---

## 364. 1326. [i Holti].

Máldagi Holtskirkju undir Eyjafjöllum, þegar Oddr prestr Svartsson tók við staðnum.

AM. 263. Fol. bls. 31 skr. 1598; AM. dipl. afskr. 2164 (eptir pappírsblöðum Holtskirkju); er aptan við Holtsmáldaga frá 1270. Þetta ár, 1326, braut Holtskirkju fyrir veðri.

Anno Domini ᴍ⁰. ccc⁰. xx⁰. vj⁰. voru reiknut stadarfe j hollti vid sira odd suarsson. provadizt suo at kirkia ætti xx kyr. attatigi asaudar. oc ij ær. xijc j metfie. busgognum edur audru þui stadnum hagar. halft fiorda hundrad j reflum.

---

[1]) z, frbr.; Árni leiðr; [2]) [»Hid sidarsta af brefenu er so ritad sem epter fylger: sira skula prestnm. ōc sin insigli firir setiandom. ōc benedikt kolbeinssyni, og er þetta a sidurstn linn brefsens. Eg hefi sied Copinr af þessu brefe; hafa þeirra ritarar skrifad nidurlag brefsens, eodem ordine, so sem þad hier stendur, enn ecki athugad merkenn ∴ sem standa nppi yfir þeim tveimur *oc*, hver ed til seigia, ad þetta ä ad transponerast; Er og þetta allt strax i ôndverdu ritad med sômu hendi og sama bleki». (AM.)

365. 20. Juli 1326. í Skálholti.

SKIPAN Jóns Haldórssonar biskups í Skálholti um sakir þær, er menn falla í bann fyrir.

Skipan þessi kemr að miklu leyti heim við skipan Jóns erkibiskups rauða frá 1280 (Dipl. Isl. II, Nr. 79) og bannsakir þær, er Árni biskup Þorláksson mun hafa lesið upp á alþíngi 1281 (Dipl. Isl. II, Nr. 91), en hún er víðtækari.

AM. 671. 4to bl. 20—23 skinnbók og er þetta skrifað c. 1340—50 eða fyrri; gæti enda verið samtíða statútunni. Segist Finnr biskup hafa þessa skinnbók til samanburðar (Hist. Eccl. Isl. II, 84 nóta c); AM. 350. Fol. bl. 127a-130b skb. skr. 1363; AM. 174D. 4to brot af skinnbók frá c. 1350 (byrjar í § 7); skipanin er hér á fjórum blöðum, en neðan af tveim hinum síðustu er skorinn helmingrinn; AM. 175A. 4to bl. 38b skb. c. 1400 (hér er að eins upphafið, § 12 og § 28); AM. 136. 4to bls. 274—80 skb. c. 1480 (Skinnastaðabók); hér eru glötuð tvö blöð úr bókinni og vantar hér í statútuna frá því í § 7—í § 12, í § 18—í § 25, í § 30 og út, og er niðrlaginu slept viljandi; AM. 186. 4to bls. 76—87 skb. c. 1480 (Hvanneyrarbók); byrjar í § 7, og hleypir úr upphafi statútunnar, en setr í staðinn fyrir það skipan um bannsakir frá 1281 (Dipl. Isl. II, Nr. 91). sem í skinnbókinni er áfast skipunum Árna Þorlákssonar, og er þetta áfast hvert öðru; AM 53. 8vo bl. 33—42 á pappír með hendi Eggerts Jónssonar á Ökrum c. 1640—50 og er afskript af AM. 350. Fol. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 65—79. Segist Finnr biskup prenta eptir AM. 351. Fol. og hafa til samanburðar AM. 671. 4to og AM. 39. 8vo, en þetta er rangt að öðru enn því, er snertir 671, því að í AM. 351. hefir þessi skipan aldrei verið og mun hér vera prentvilla fyrir 350, því að eptir henni virðist Finnr biskup einmitt láta prenta. Í AM. 39. 8vo er þessi skipan heldr ekki og virðist aldrei hafa verið, svo að ekki gat sú skinnbók hafa verið höfð til samanburðar (sbr. Hist. Eccl. Isl. II, 62 nóta c). Sumstaðar í pappírshandritum finnast klausur úr þessari skipan, en þær eru ónýtar.

Bannzsaka bref er ion biskup hefir utskyrt[1]).

Broðir jon með guðs miskun biskup j skalaholti [sendir ǫllum monnum j sinu biskupzdǫmi Q[ueðiu] guðs oc sina[2]).

Þat ma ekki[3]) skynsǫmum monnum vndarligt þikkia þo at nǫkkurir menn [sia eigi við[4]) þat at gera. sem þeir vita eigi bannat vera. þar sem þat hendir optliga at sa ottaz eigi lǫstinn at

[1]) 350; vm skipan 136; Bannsakabref jons biskups 175; [2]) [et cetera 175, og vantar alt aptr að § 12; [3]) ǫngum 350; [4]) [uiniz eigi 136.

fremia. þo at hann viti bannaðan vera. er[1]) hann trvir at litil pina skýli a hanu leggiaz þo at hann gere. enn sakir þess at þat er skyllda biskuplegrar [tignar oc ahyggia[2]) at visa þeim rettan guðs veg. oc kenna þeim [at varaz alla villu stiga. þar sem þeir erv til andligra luta ýfir skipaðir at vara ýðr við storglæpi[3]). þa einkanliga sem vera ma at sumum monnum syniz litið vera eða ekki vm vert verkit at vinna. oc megi þat vera [með þi at sumir hyggiz[4]) veita j þi guði þionostu enn ser sômd oc sinum yfirmǫnnum [hlýðni. oc[5]) dyggleik. enn þeir felli a sik með ohlýðni við guð oc heilaga kirkiu af sealfri gerðinni bannz pinu. oc skili sik sua við [allt gott[6]) heilagrar[7]) kristni. þar til er guðs miskun lysir þeirra hiôrto til [iðranar. oc yfirbota[8]). oc gefr at þeir þiggi aflôsn [sinna glæpa[9]). þvi er ok þat ætlan vár at sýna ýðr með þessu varu brefi hverir þeir lutir erv er menn fella bann a sik með sialfu verkinu. þi at engi kann illt at varaz nema viti.

1. [Er sa hinn fyrsti atburðr af þessum[10]). ef nôckurr maðr fellr j fyrirdômda villu moti siðum oc kennidomi heilagrar truar.

2. Annarr er sa ef nôkkurr setr saman eðr dictar nyia villu af sialfz sins briosti. hvart sem þat er opinbert eða leynt erv þeir allir j þessu banni eilifu bundnir sem ôðru vis skilia eðr læra. enn heilug [romveria kristni[11]) predicar[12]) oc varðueitir af helgan holldz oc bloðz drottins vars iehsu christi. eða af heilagri skirn. eða af skylldum skriptagangi. hiona bandi oc ôðrum helgunum heilagrar kristni. oc sua allir þeir sem einn hverr biskup hefir villumenn dômða j sinu biskupzdômi.

3. [Sa er hinn[13]) þriði ef nôkkurr trvir villumanna fortôlum eða tekr þa til sin veriandi þeirra mali eða fýlgiandi. þessir falla j þat sama bann. ok ef nôkkurr af þessum hafnar[14]) at leiðrettaz innan .xij[15]). manaða siðan hann var boðaðr bann-

[1][ ef 350, 136; [2]) [sysln 350, 136; [3]) [þvi krefr oss skyllda vars embættis sem ver erom vuerdugir yfirskipadir at vara ydr vid storglæpi 350, 136; [4]) [at sumir menn þikiaz 136; [5]) [j þui 136, [6]) godz 350; [7]) [alla gudz heilaga 136; [8]) [jdranar yferbotar 136; [9]) [synda sinna 136; [10]) [Hinn fyrsti atburdr af þeim 350; [11]) kirkia 350; [12]) [roma kirkia hirdir 136; [13]) [sa hinn 350, 136; [14]) hafi(!) 136; [15]) .x., 136.

settr. þa fellr a hann æfinlig ofrægð. skal hann siðan j engum lôgskilum hæfr. oc með engu moti vitnisbærr. fra er hann skilðr at þiggia þat sem nôckurr vill honum gef[i]t hafa. j sinu testamento. engi maðr ma hann skipa sinn erfingia. oc engan arf skal hann taka. eigi skal hann oc mega gera sitt testamentum. a engan mann skal hann kæra [nôkkur mál[1]) enn neÿðaz[2]) skal hann til at svara ôðrum mali[3]). ok ef hann hefir domari verit. þa skal hans domr fyrir ekki standa eiga oc engi mal at koma vndir hans dom. Nu[4]) ef hann hefir klerkr verit. þa skal hann liggia vndir slikum[5]) pinum oc vera aðr af settr ôllum vigslu pôllum af sinum biskupi.

4. Enn fiorði er sa atburðr ef nôkkurr segir oc fylgir þi at romaborgar kirkia se eigi hôfut kristninnar. oc henni se eigi [af ôllum[6]) hlÿðanda.

5. Sa er hinn fimti atburðr ef nôkkurr leggr hendr með heipt oc illvilia a klerk eða klaustramenn þa fellr sa af sialfu verkinu j pauans bann. byðr nôkkurr ôðrum at gera. þa erv baðir j banni sa er bauð oc hinn er gerði. sa fellr oc j bann er veita matti klerkinum lið j [sliku tilfelli oc veitti eigi[7]). þat er af þeim mônnum rettskilt sem valld oc yfirskipan hefir til at stiorna ôðrum. matti hann forstoð veita[8]) oc villdi eigi. eitt saman [ofriki ma oc[9]) metaz slik sôk[10]). þo at eigi se hendr a mann lagðar. sua sem þa er ef nôkkurr setr klerk j bônd[11]) eða læsir j myrkva stofu. eða ôðru varðhalldi. þi at engum leikmanni gefz sua mikit valld yfir nôkkurum klerk. oc þvi forðaz sa eigi bannit er slikt gerir. verðr oc fleira vega misþÿrmt klerkum enn skeðia likam þeirra sialfra.

6. Sa er hinn setti atburðr er veralligir valldzmenn[12]). raðamenn. stiornarmenn. hvat stett eða starf sem hverr hefir j borgum eða bęium. gera krafir eða oskÿllduligar pÿndingar a klerka eða kirkiur. eða þeirra eignir fyrirkomandi sua valldi ok framkvęmð forstiora heilagrar kirkiu. þessir ok ef þeir lata eigi af þa er þeir erv lôgliga amintir. erv j banni ok sua hverr er

---

[1]) [mega 350; [2]) naudgaz 350; [3]) retti 350; rettv 136; [4]) en 136; [5]) sômum 136; [6]) [at ôllu 350; [7]) [slikum tilfellum ok villdi veita(!) 136; [8]) ôdrum b v. 135; [9]) stundum b. v. 350; [10]) [ofrikit ma ok metaz til þess stundum 136; [11]) 350, 136; bann 671; [12]) valldarmenn(!) 136.

þeim fylgir til þessa. þi at engar krafir eða [þunga skýlldu[1]) mega leikmenn með rettu leggia a klerka eða kirkiur. mega þeir ok eigi afleýsaz fýrr enn þeir hafa bôtt þat sem þeir brutu. hvart sem þeir hallda stettum sinum eða stôrfum eða eigi. hverr ok sem tekr stett eða starf eptir þann sem með sôgðum hætti hefir j bann fallit. ok vill hann eigi aptr bôta jnnan manaðar. þa fellr hann j[2]) bann. þvi at hann samþýkkir þat sama sem hinn gerði. ok ma eigi afleýsaz helldr enn hinn þar til er [bôtt er[3]).

7. [J siônda stað er sa[4]) atburðr ef menn gera skipan[5]) moti friði [ok frelsi[6]) [heilagrar kirkiu[7]). nema þeir hafi innan tveggia manaða siðan þeim var lýst[8]) tekit þær af sinum bokum ef þær voro ritaðar. eða ef þeir hallda fram [þeim skipunum þoat þær veri afskafnar bokunum eða oritaðar. Slikt hit sama ok þeir sem rita þilikar[9]) skipanir ok eigi siðr valldzmenn raðamenn[10]) rettarar staðanna ef þeir dirfaz at dôma eptir þesshattar skipunum. [sua þeir [ok] sem þa doma rita til staðfestingar[11]). slikt hit sama ok þeir sem varðueita ok lata við hafa venior þær sem helldr mega heita ovenior ok upp hafa tekiz moti frelsi heilagrar kirkiu. þa bindaz þessir[12]) allir j bannz atkveði at guðs lôgum[13]). þat er ok vitanda at frelsi heilagrar kirkiu stendr saman j þeim priuilegijs sem henni hafa veitt verit yfir andligum lutum eða stundligum aðgfum [almenniliga eða einsliga[14]). Nu eru priuilegia veitt heilagri kirkiu af sialfum guði. sva sem þat[15]) er varr herra[16]) iehsus christus sagði petro postola. Hvat sem þu [mátt[17]) binda[18]) a jorðunni[19]) þat mun bundit [j himni[20]) ok huat sem þu [matt leýsa[21]) a jorðu þa skal leyst á himnum. sva ok þat at tiunðir ok frumfornir ok allt þat sem guði [ok hans

---

1) [þegnskyllldur 350; þegnskylldu 136; 2) sama b. v. 350; 3) [bæter 136; 4) [saa er hinn vijdi 350; 5) skipanir 350, 136; 6) [sl. 136; 7) [sl. 350; 8) hér vantar blað í 136 og er eyða þangað til í § 12; 9) [þersu[m] skipanum. sna þeir oc sem doma Rita ok stadfestingar. slikt hit sama ok þeir menn. er Rita ok vardueita slikar 350; 10) radsmenn ok 350; 11) [sl. 350; 12) þeir 350; 13) hér byrjar 186; 14) [andliga edr likamliga 350; 15) var b. v. 186; 16) lausnari 350; 17) munt 350; 18) [hefir bvndit 186; 19) iôrdu 350, 186; 20) [aa himnum 350; 21) [leysir 350; hefir leyst 186.

helgum monnum offraz[1]) heýrir klerkum til. þat priuilegium er enn af Guði veitt heilagri kirkiu at klerkar eiga valld [ok rað[2]) yfir hennar eignum ok auðæfum ok hennar forstiorar eigu lôg at [skipa af[3]) andligum lutum ok hafa þar dom yfir. ok fleira annat þat sem stendr j hinu nýia ok hinu forna lôgmali. af herra pauanum erv ok priuiligia veitt heilagri kirkiu. sva sem þat at sa er j banni af sialfu verkinu sem heiptuga hônd leggr a lærðan mann. Sva þat at tveir vattar vinna þôrf vm testamenta þau ôll sem salugiafir mega metaz[4]) ok môrg ônnur priuilegia hafa pauar[5]) veitt heilagri kirkiu. sva hafa ok keisararnir priuilegia veitt heilagri kirkiu. þi at þat mega þeir vel gera af [veralldligum lutum[6]). sva sem þat er at hverium manni er lofat at leggia til heilagrar kirkiu[7]) fôðurleifð sina suma eða alla hvart sem hann vill at hun eigniz eptir hans dag hinn siðazta eða fýrr. með hverium hætti er hann vill. ok eigi þarf hann nokkurn orlofs eptir spýria vm þa giôf. þviat j[8]) þeirri giôf er maðr gefr [heilagri kirkiu[9]) fyrir sal sinni er þat [hit bezta[10]) endimark at ekki endimark se henni sett. Nu hverr sem motgang veitir þessu frelsi [heilagrar kirkiu[11]) þa forðaz hann eigi bannz afelli.

8. Sa er hinn atti atburðr at þeir sem brenna með illvilia heilaga kirkiu eða heilaga staði eða þau herbergi sem standa innan kirkiugarðs [ok þess viðernis[12]) sem heilôg kirkia a [vernd at veita[13]) vmhveruis[14]) sik. þa erv þeir bannsettir at guðs lôgum. ok siðan er þeir hafa [verið forboðaðir[15]) bannsettir af heilagri kirkiu. vm þessa sôk skulu þeir af engum lôsn fa vtan af sialfum pauanum. nema j lifs haska.

9. [Sa er hinn niundi[16]) ef nôkkur brýtr kirkiu ok[17]) rænir hana siðan[18]) eða gerir j henni[19]) oðaðaverk. sem er at fara oþýrmiliga með guðs likama eða at briota alltari eða kross eða annað slikt. skulu þessir[20]) eigi lôsn fa fýrr. enn

---

[1]) [er gefit ok hans heilogum monnum heyrir 186; [2]) [sl. 350; [3]) [segia yfir 186; [4]) kallaz 350; [5]) pauarnir 350, 136; [6]) [ueralldlighu ualldi 350; [7]) hér byrjar 174; [8]) sl. 174; [9]) [Gudi ok heilagri kirkiu 186; [10]) [hitt sidazta 186; [11]) [almattigrar cristni 350; heilagrar kristni 186; [12]) [edur þvi viderne 186; [13]) [sl. 186; [14]) umbergis 350; [15]) [bodadir verit 350, 186; [16]) [Niundi er sa atburdr 350; [17]) edr 350; [18]) sl. 350; [19]) nôckut b. v. 350; [20]) þeir 350.

þeir hafa bøtt bæði[1]) rangindi ok skaða. ok taka siðan lausn af paua.

10. Hinn tiundi[2]) er sa ef nokkurr falsar bref pauans fyrir sik eða annan mann þa er sa af sialfum lǫgunum bannsettr með ǫllum þeim sem honum veita lið[3]) til þessa vitandi. eða veria hans mál. slikt hit sama sa ok er ser nytir til nokkurrar framkvæmdar falsat paua bref vitz[4]) vitandi. þat sem annarr fekk honum eða[5]) falsaði. enn sa er varðueitir þat[6]) at eins skal innan. xx. daga siðan hann veit falsit fyrirkoma þvi brefi[7]) i þess valld sem vel ma trva til viðtǫku. ef hann vill forðaz [bannzins pinu[8]). þat er ok þessum til eiðhialpar[9]) er ser nytir ovitandi falsat pauans bref. at hann hafi profat þat sem hann kunni bezt. ok fai hann eigi sva seint aptrhvarfit at fyrir þat megi hann sýnaz[10]) sannsakaðr.

11. J [ellifta stað[11]) fella þeir a sik fullkomit bann sem saracenis flýtia til handa vapn eða skipviðu eða iarn eða geraz skipstiornarmenn þeirra eða ueita [þeim til nǫkkurs agangs við kristit folk ok ofriðar helgu iorsala landi[12]).

12. Tolfti atburðr[13]) er sa ef nǫkkurir ræna þa menn sem skipbrot hafa þolat. þa falla j bann af sialfum lǫgunum nema þeir bǿti þat sem [þeir brutu[14]) ok gialldi aptr þat sem[15]) þeir ræntu. þa er þeir erv lǫgliga amintir.

13. J þrettanda stað fellr bann a þa alla sem með ofriki nǫkkuru [eða agangi[16]) þraungva biskupa eða lærða menn til þess at leýsa nǫkkura af bannz[17]) atkvæðum eða gefa lærðum monnum aptr embætti eða leýfa tiðagerð[18]) [þeim[19]) sem aðr er hun af[20]) tekin.

14. Sa er hinn fiortandi atburðr at ef leikmenn j hverri stett sem þeir standa eða hveria tign sem þeir hafa neýða til þess forstiora heilagrar kirkiu capitula eða aðra klerka. at

[1]) sin 150; [2]) atburdr b. v. 350; [3]) fullting 350, 174, 186; [4]) sl. 186; [5]) ok 350; [6]) þui 350; [7]) eda fae b. v. 186; [8]) [pauans bann 350; [9]) ordhialpar 186; [10]) verda 186; [11]) [xjta atburd 186; [12]) [þeim nockurskonar (kyns 174) fullting. til agangs ok ufridar heilogu iorsala landi ok kristnu folki 350, 174; nocvt þess kyns fullting þeim til gagns eda agangs vit kristid folk ok ofridar helgu iorsalalandi 186; [13]) hér byrjar 136 aptr; [14]) Ræntu 350; [15]) [sl. 175; [16]) [sl. 350; [17]) pinu edr 350; [18]) tilgerd(!) 186; [19]) [j þeim stǫdum 136, 174, 186; [20]) aptr(!) 136.

vndir leikmanna valld leggiz kirkiur eða fasta eignir[1]) eða [þeirra rettr[2]) sva at formenn heilagrar kirkiu prestar eða persónur kalliz þat len af leikmonnum hallda sem[3]) af sinum yfirmonnum. þa [se þeir[4]) bundnir j bannz atkvæði nema þeir gefi allt aptr með frelsi j þeirra valld sem eigu. siðan þeir erv lôgliga a mintir. þat er þeir hofðu aðr meðr ofriki vndir sik dregit.

15. Hinn fimtandi atburðr er sa at leikmenn ef þeir krefia skatta eða tolla af klerkum eða kirkium eða þeirra goðzi sem þeir flýtia eða flýtia lata eigi[5]) sem kaupskap[6]) vtan helldr sakir sinna þarfinda. eða nauðga þa til at luka hvart sem þeir gera þat sialfir. eða fa aðra menn til. hverrar tignar stettar starfa[7]) er þeir erv hvat vana sem til er sem helldr [ma kalla vvana[8]). [hvart sem þeir gera þat vndir sinu nafni eða annarra. ef þeir erv sinsligir[9]) menn[10]). þa falla þeir j bannz pinu af sialfu verkinu. enn ef felag eða almenningr nôkkurs kaupstaðar [borgar eða annarsstaðar[11]). er[12]) j þesso brottligr. þa fellr hann þegar j forboð með sama hætti ok skulu eigi fa aflausn bannzins ne linan forboðsins þar til er aptr er fengit þat sem krapt var ok bôtt er tilheyriliga fyrir vanrettið.

16. Sa er atburðr hinn sextandi at rettarar[13]) syslumenn domarar ok aðrir veralldligir herrar[14]) ef þeir hindra eða talma at þeir sem sin malaferli vilia kera fyri domarum[15]) tilskipaðum af pauanum eða þeim sem til þess erv sialfskipaðir vm þau mal sem kirkiunni heyra til at lôgum. eða vana at dæma at þeir megi sinum malum eigi fyri þeim fram koma eða nauðga þa til at lata af malum sinum eða hafa þau frammi fyri veralldligum domandum með þi at annat hvart fanga þeir kirkiunnar domendr eða þa sem pauabrefin[16]) afla[17]) til domara. eða þa sem [malaefni . þręta eða þræta[18]) vilia fyri fyrr-

---

[1]) goz 174; [2])) [rænter 136; [3]) þeir hallda b. v. 136; [4]) [er sem þeir se 186; [5]) sl. 136; [6]) kaupskatt 136; kaupaskatt 186; [7]) starfs 174; [8]) [er kallandi vsidr 350, 174; [9]) einslıgir 350, 136, 186; [10]) [sl. 174; [11]) [bæia eda þorpa 136; [12]) uerdr 350; [13]) retter 136; [14]) hôfdingiar 350, 136; [15]) Rettaranum 350; [16]) biskupsbrefin 136; [17]) efla 350; [18]) [malaferli þreyta eda þræta 350; malaferli bæta vilia 136.

10. Fyrirbodinn er prestum allvr osæmiligur fiarafli at kaupa nockurn hlut til þess. at hann seli þat sama dyrra. enn hann kaupir.

11. Eige skulu lærder menn taka vmbod til nockurar kærslu. eda standa j stefnvm fyrir leikmanna domi. vtan sæki sinn rett eda kirkiu sinnar. eda þeirra annara sem lauginn bioda. fyrir eckiur. eda born fodurlaus eda frændr.

12. Klerkum aullum er fastliga fyrir bodit vndir bandz þinu j nockurum domum at sitia eda doma eda bref at rita. eda j nockurum radum eda reidum eda samþycktum ath vera vm liflat eda lima manna.

13. Eige skulu lærdir menn uitni bera eda nockura eida at sveria fyrir leikmonnum. eda leggia sig vndir þeirra dom vm nockurn hlut. eda nockurs anars ...... leikmanni eda leggia vndir leikmenn eda sin mal. vtan rad biskups sins.

14. Prestr skal iafnan til reidu vera huenar sem hann verdur kuad[d]ur laugliga at skira barn eda fara j naudsyn til siukra manna. en ef hann fornæmizt ok deyr barn oskirt. eda siukur madr oskriftadr þa se hann ipso facto suspensus ab officio et beneficio. ok godz hans þat sem hann hefir aflat af kirkiunni j biskups ualldi. sua framt sem moti er farit presti. huort sem hann þarf a sio. eda landi eda se iafnuel reid[d]r heim sem heiman. sua at hann þurfi eigi sialfur at roa.

---

## II.

AM. 136. bls. 272—74 skinnb. skr. c. 1500 (Skinnastaðabók).

### I.

vm skipanir jo[ns biskups].

1. Jn crastina [die] jacobi sua sem virdvligr herra. herra jon biskup hafdi synodum j skalhollti ⌊baud⌋[1]) hann at katlar þeir at born skirdiz j edr kerulld oc heilog krisma kemur vid skal til einskis annars hafa þadan fra.

---

[1]) Þetta orð vantar í hdr., en hér stendr fur, sem ekki á við.

2. Jtem at fur avstan lonsheidi skipadi hann oc fur uestan gilsfiord skulu prestar allir tekit hafa nyia krisma hit seinsta at thorlaksmesso. en fur austan jokulsæ. æ solheimasandi oc fur uestan huitæ j borgarfirdi oc millvm ad[r] nefndra takmarka hit seinsta at jonsmesso baptiste. en vm allan sunlendinga fiordung at uppstigningardegi.

3. Jtem at allir þeir sem fur eru kirkiusoknarmenn skulu koma til soknar kirkiu sinnar alla daga sem j sextan daga halldi eru.

4. Jtem skipadi [hann] at engi prestur syngi messo. vtan ij menn eda fleiri ed fæsta adrir oc kvnni annar at suara presti.

5. Jtem at allir prestar syngi heima at soknarkirkiu sinni ottvsongua. oc aptansongua hinar stærstu hatidir. utan biskupz skipan se odruvis til.

6. Jtem at prestar allir syngi eda lesi tidir sinar j kirkiu forfallalaust oc hafi æ medan slopp eda korkapu.

7. Jtem at prestar greymi at þeir gefi eigi guds likama eda olean nockurum þeim sem eigi [er] biskupadr. olie alla þa sem guds likama hafa tekit. taki skynsom born x vetra en ei elligar. gangi manna konur j kirkiu ef þær vilia at paskvm oc hafi lettari vordit fur palmsvnnvdag. standi j kirkiu fiora daga af paskvm en fylli sidan vtistodv sina.

II.

vm ar[ticulos].

Þessa articvlos skipadi virdvligr herra. herra jon biskup þridi med þvi nafni jn synodo.

1. Jn primis at hverr prestr lati brvtt sina fokariam infra kuadredam er hann veit þessa skipan.

2. Jtem at ongver kirkiu vidir leggiz j onn[u]r hus vtan biskups orlof.

3. Jtem at yfer einskis andadz manz liki geriz krossar edr pentur sua at trodaz megi j svndur.

4. Jtem at kirkiusoknarmenn geri at kirkiugardi jnan manadar sidan þeir voro æmintir ella setiz þeir vt af kirkiu.

5. Jtem at hverr prestr leggi til þeirar kirkiu sem hann

hefir halldit hinn tivnda partt af ollv þvi gozi sem hann hefir af henni aflat.

6. Jtem at til þeirar kirkiu leggiz tivnd af allri fastaeign sem hon liggr j sokninni ella missi þeir þionvstv.

7. Jtem at allir þeir menn sem eigi eru heimilisfastir. lvki lysistoll til þeirar kirkiu sem þeir eru at paskvm.

8. Jtem at þeir menn sem eigi jata sik fur presti æ langa fostv taki eigi gvdz likama at paskvm.

9. Jtem skipadi hann fur lavnfesting þvilika skript oc fepinv sem fur opinberan hordom.

10. Jtem at engi bondi taki at vtkirkiv meiri tivnd en af þeiri sinni jordv oc lavsagozi oc þeirra manna tivnd sem hann helldr æ sinn kost vm xij manadi.

11. Jtem at prestr eigi kerti þau sem kon[u]r offra j kirkiugongv sinni.

12. Jtem at born skiriz eigi ne konur j kirkiv leidiz vtan at soknarkirkiv.

13. Jtem allir prestar offizeri einn veg oc neyti guds likama af patinv.

14. Jtem at engi prestr oleadi nockurn mann optar en vm sinn æ xij manodvm.

16. Jtem in prefacione beate virginis segiz eigi hvic.

15. Jtem at credo jn vnum segiz cotidie æ natali domini oc ad ulltimam diem octavarum[1]) ephiph[an]ie[2]).

17. Jtem at manna kon[u]r ef þær standa af sængarfor fur paska gangi j kirkiv sine cera oc se j kirkiv vm paska vikv oc taki guds likama at paskadegi. sidan standi þær vtan kirkiv eptir rettri tiltolu.

18. Jtem at engi prestr syngi brvtt paskadag. en fari manvdag j paskvm oc gefi folki reidv þvi sem eigi ma til kirkiv komaz.

19. Jtem at prestar lesi tidir sinar eda syngi forfallalaust oc hafi medan slopp eda korkapv.

20. Jtem at allir prestar syngi heima at kirkiv sinni ottvsongua oc aptansaungva hinar stærstv hatidir vtan biskupa skipan standi odruuis til.

[1]) eccia, hdr! [2]) ephiph. . .ium(!) hdr.

21. Jtem at prestar geymi at þeir gefi ongvm manni guds likama eda olean er eigi er adr biskupadr. olia skal alla þa sem guds likama hafa tekit. Taki skynsom born x vetra elligar eigi.

22. Jtem at prestar syngi eigi brutt til bænhusa alla þa daga sem j sextandaga halldi ero. en syngia skvlv þeir til kirkna.

---

## I.

AM. 51. 8vo bls. 77—80, skinnb. c. 1500, mjög götug og lasin; AM. 186. 4to bls. 104—106 skb. c. 1500.

statuta jons biskups[1]).

Þessa articulos baud virduligr herra jon biskup [jn sinodo[2]).

1. jn primis at huer sem einn prestur skal lata brutt or sinum þingum. sina frillu jnnan fursta halfs manadar er hann kemur heim.

2. Jtem ath aunguer skolo kirkiu uider leggiazt til annars hus nema biskup lofi.

3. Jtem ath ýfer einkis[3]) manz leidi geriz eda pentiz krossar æ jordu edur steinum til at fottrodazt.

4. Jtem ath soknarmenn geri gard um kirkiu innan manadar sidan þeir eru æ minntir. ellegar setiz þeir ut af kirkiu. þar til er þeir gera ath.

5. Jtem at huerr prestur legge til heilagrar kirkiu decimam partem omnium requisitorum(!)

6. Jtem at til þeirrar kirkiu lukizt tiund af allri fasta [eign] sem hun liggr j sokninni.

7. Jtem at þeir menn sem eigi eru heimilisfastir luki lysistoll þar sem þeir taka guds likama at paskum elligar missi þionustu.

---

[1]) 186; [2]) [hinn siou[n]da(!) 51; ef þetta væri rétt, þá hefði Jón biskup krabbi 1461—1465 átt að endrnýja þessa skipan; 186 hefir: jn sinodo. og er hitt, ef til vill, mislestr eða misskript fyrir það [3]) andads b. v. 186.

8. Jtem at allir þeir menn sem eigi koma til kirkiuprestz j langafostu neitaz[1]) at taka guds likama æ paskadag.

9. Jtem skipadi hann fur launfesting þuilika skript ok fepinu sem fyrir opinberan hordom.

10. Jtem at huerr prestur eigi ser allar tidabækur ok Messoklædi ok kalek innan fim ara sidan hann var uigdr.

11. Jtem at allir klerkar leggi af fiolgeirunga jnnan manadar.

12. Jtem at eingin bondi taki minni tiund af utkirkium en af þeirri fastaeign ok lausagoze oc þeirra manna tiund ok lysis toll er hann helldr æ sinum kost þa xij manudi.

13. Jtem at huerr prestur eigi kerti þat er konur offra j kirkiu gongu sinni.

14. Jtem at eigi skolo konur leidazt i kirkiu at bænhusum edur baurn skiraz. edur hion saman uigiazt ok huergi utan at kirkiu[2]).

15. Jtem at allir prestar officeri einn ueg [ok] neyti guds likama af patena.

16. Jtem at prestar allir eigi ser slopp ok korkapu jnnan xij. manada sidan hann uigdiz.

17. Jtem at eingi prestur oliadi optar en sama [mann] en um sinn a xij manudum.

18. Jtem at in p[urif]icacione[3]) beate[4]) marie oc te inueneracione segizt eigi huic.

19. Jtem at credo jn unum dominum[5]) [segiz] cotidie in natali domini vsqve at ulltimam[6]) diem octauarum epiphanie [inclusiue excepto uno festo innocencium.

20. Jtem[7]) jnfra octauam assumpcionis beate uirginis et jnfra octauam ascensionis[8]) et infra octauam corporis christi.

21. Jtem at huerr prestur leggi mork til spitala[9]).

22. Jtem at dominus uobiscum segizt lagt j huerri messo ante secretam.

[23. Jtem bannade hann kiot at eta æ paskatima fyrr enn þeir tace adur gudz likama[10]).

---

[1]) neitiz 186; [2]) soknarkirkiu 186; [3]) prefacione 186; [4]) sancte 186; [5]) sl. 186; [6]) ulltimum 186; [7]) [sl. 186; [8]) þannig; [9]) spitalans 186; [10]) [sl. 51.

24. Jtem bannadi hann at eta kiot manudaga ok þridiudag firir auskudag.

25. Jtem ef manna konur standa af fyrir paskir sængrfor sinni gangi j kirkiu an kerti ok taka guds likama a paskadag ok se j kirkiu um alla paska en standi sidan utan kirkiu eptir rettri tiltolu[1]).

26. Jtem fyrirbaud hann at katlar þeir sem baurn skirazt j eda kerolld er heilaug krisma kemur uid skuli til einskis annars hafazt hedan af.

27. Jtem skipadi hann firir austan lonsheidi ok firir uestan gilsfiord skolo prestar allir tekit hafa krisma hit seinzta ath thorlaksMesso. Enn fur austan jokulsa a solheimasandi ok firir uestan huita j borgarfirdi [at jonsmesso]. Enn um allann sunnlendinga fiord[ung at] uppstigningardegi.

---

## K.

AM. 186. 4to bls. 68—69 skinnb. c. 1500. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 82—83, en eignað þar Jóni biskupi Haldórssyni; segist Finnr biskup prenta eptir pappírsblöðum hjá sér, og hafa þau verið afskript stafandi frá 186.

Statuta gyrdz biskups(!).

1. Jn crastino jacobi [2]) so [sem] virduligur[3]) herra. herra jon biskup hafdi sinodv[4]) j skalhollti. baud hann at katlar þeir sem bornn ero skird j. eda kerðlld oc heilagur krisme kemur vid skal til einskis annars hafa þadan af.

2. Jtem skipade hann at fyrir avstan lonndzheide oc fyrir uestan gilsfiord. skvlv prestar tekid hafa nyia krisma hid seinasta at þorlagsMesso. En fyrir vestan[5]) jokulsæ [æ] solheima sand[i] oc fyrir uestan huitæ j borgarfirde. j millum adr nefndra tacamarka(!) hid seinnasta at jonsMesso baptista. Enn vm allan svnlendingafiordvng. at uppstigningar deige[6]).

3. Jtem allir kirkivsoknar menn þeir sem at færir ero til skvlv koma til soknar kirkiv sinar alla þa daga sem j xvj daga

---

[1]) Hér endar 186; [2]) jacobbo(!) hdr.; [3]) virduligvm(!) hdr.; [4]) sl. Hist. Eccl.(!); [5]) austan, Hist. Eccl.; [6]) deide(!) hdr.

halldi ero ella luki halfa mork fyrir hvern dag sem þeir missa tida viliande.

4. Jtem at bonde fare hverr oc sæke til sinnar kirkiv hinn þridia hvern svnnvdag ef hann er heima. eda einhverr skynsamur madr af þeim by[1]). hans vegna nema forfoll kome til. at sækia tidir til soknar kirkiv sinnar.

5. Jtem vanræke hann .iij. svnnvdaga samfasta. ann forfalla giallde vmbodzmanni biskups iij aura. sitie þeir so vm adrar iij. vikvr med samre vanrægt lôgliga æminter. þa skvlv þeir sialfsettir vt af heilagri kirkiv. og af hennar sacramenta. þar til sem þeir taca skript sina oc sættazt vit gud oc heilaga kirkiv oc luka þar til j segtt halfa mork vmbodzmanni biskups.

6. Jtem at bænhus þau sem biskup lofar at syngia ad hafe þvilikar [rentur æ sier oc[2]) þyrmslur. sem adrar soknar kirkivr. suo oc at huerr sem at þadan tecr anars mans goz med stulld. gripe edur rane. edur nokurs konar ofuallde falle j bann af sialfv verckinv.

7. Jtem at vtlendir menn oc so allir adrir skvlv þar luka tivnd sina retta sem sem þeir ero j vetursetv stad staddir oc þeir ero nottina helgv nema þeir sev at heimbodvm j odrvm stad. þa snuist þo tivnd til v[e]tursetv.

---

514. [1346].

Grímr lögmaðr Þorsteinsson gefr klaustrinu í Viðey reka fyrir Hraunslandi í Grindavík.

AM. Nr. 238. 4to bl. 36b. (Bessastaðabók) skr. c. 1570 eptir transscripto frá 1475; AM. 65. 8vo (tvær afskriptir); AM. Dipl. afskrr. Nr. 1778 og Nr. 1779; IBfél. 126. 4to bls. 10; alt eptir Bessastaðabók. Grímr lögmaðr fer alfari norðr 1346, og frá því ári mun þetta bréf vera (sbr. Esp. Árb. I, 79; Safn til sögu Íslands II, 616), en víst er að það er yngra en 1319 og eldra en 1350.

---

[1]) bæ, Hist. Eccl.; [2]) [sl. Hist. Eccl.

Avllvm þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra sender Grimur þorsteinsson kvediv gvdz ok sina.

Eg giore ẏdvr kvnnigtt at ec hefir gefid til klavstvrs vorar frv sancte marie j videẏ gvde alltzvalldanda til heidvrs ok sæmdar ok sagdri myskvnnar modvr. Enn mier til salvhialpar ok þeim godvm monnum til vidvrhialpar er þar þiona gude dag ok nott vndir heilagre regllv allann þann reka sem halfv hravnslande heyrer til bædi hvala[1]) ok vidar ok avll þav tre sem liggia æ sagdri fiorv ok eg æ millvm lambastapa ok marks vidvr þorkottlvstade vtann vj alna tre ok þadann af smære. þav fẏlgia eigi þessvm reka. enn avstur fra lambastapa skal ec hafa allan reka svo leinge sem ec vill enn sagtt klavstur epter minn dag.

Jtem savdhofnn hvndradi savda j sagdre jordv.

Og til santz vitnisbvrdar set eg firir þetta bref mith innsiglle.

---

515. [1346].

MÁLDAGI Nikuláskirkju á Söndum í Dýrafirði [er Jón biskup Sigurðarson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 94b skr. 1601. Sandar í Dýrafirði urðu staðr 1358 (Gottskálksannáll), og er þessi máldagi eldri og getr hann naumast verið yngri en hér er sett eða frá 1344.

A sonndum.

Nicholaskirkia a sonndum a heimalannd halft oc galltar dal halfann.

niju kẏr oc hest.

kirkia a jnnann sig. kross og skrin mariu. skript oc nicholas skript. klockur iij. boc. kanntara kāpu. hocull oc glodaker. refla þriā.

þar skal vera prestur heimilisfastur oc taka iiij. merkur.

þanngat liggia tiju bæir ad tijundum oc lysitollum.

halfkirkia j huammi oc syngia annan huern dag helgann.

þar tekst heima tijund oc lysitollar.

[1]) hvalar, hdr.

516. [1346].

Máldagi Maríukirkju í Hvammi í Norðrárdal [er Jón biskup Sigurðarson setti].

JSig. 143. 4to bls. 335—36 á pappír skr. c. 1600. þessi máldagi er fornlegr; er með vissu eldri en 1399 og víst eldri en Gyrðs máldagi (sbr. Vilchinsbók), og er víst ekki yngri en frá dögum Jóns biskups Sigurðarsonar, en getr vel verið töluvert eldri.

Huammur j nordurærdal.

Mariu kirkia j hvamme j nordurærdal ā xx kugilldi oc eitt.

hun a land a hole oc froda einge.

kluckur iiij[1]).

þar liggur til kirkiu tiund heimamanna og af xx. bæium odrum oc þar liggia til viij bænhus oc lukast vj aurar af hveriu.

þar skal vera prestr.

---

517. 10. Marts 1346. i Osló.

Verndarbréf, er Magnús konungr Eiríksson gefr Ormi biskupi Áslákssyni og dómkirkjunni á Hólum.

AM. Dipl. Isl. Fasc. Lxvii, 8. transscriptum á skinni frá 30. Júlí 1542; AM. Dipl. afskr. Nr. 584 (eptir transscr.), Bréfið er tekið upp í Biskupasögur séra Jóns Haldórssonar. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 431—33 (ónákvæmt). Í Bisk. Nr. 2. Fol. er afskript af bréfinu.

Magnus med gudz nad Noregs swia oc skane konungr. sender ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra Q[uediu] G[uds] oc sina.

Wier wilium at þer witid ad Gudi allz wolldugum til heidurs ok hans signudu modur mey marie ogh ollum Gudz helgum monnum. þa tokum wier heilaga hola kirkiu ok wirdu-

---

[1]) Hér mun vera hleypt úr kafla um inventarium (sbr. Gyrðsmáld. 1354).

ligann herra oc andaligann faudur ok win worn kæra herra Orm med gudz mýskunn Biskup at holum æ jslanndi. sueina hans þæ sem hann helldur dagliga æ sinn kost ok land bola jarder garda skip kaupeyrer. skoga fiska. fvglweʀ reka ok allann varnad og gozs. þat sem kirkiann oc hann eiga edur eigandi verda j landi oc lausum eyri. hwort sem þat verdur j minna hlut edur meira logliga. j Gudz walld vora wernd ok konungligt traust til allra ʀettra mæla. fullkomliga firir biodandi hverivm manne huerrar stiettar eda tigundar sem huer er kirkiunne edur honum edur hans sueinum firr nefndum edur warnade ok gozs kirkivnnar oc hans. nockrar ʀangligar ægongur at weita. nema hwer sem þat giorer. wile sæta af oss reidi. ʀefsingum oc hordum afarkostum. og æ ofan swara oss xiij. morkum j brefa broth oc þeim fullretti sitt epter logvm er brotid er vidur oc halfvaukenn saker þessa wors varnadar brefs.

Swo vilium vier ok at aller menn wite at vær hofum þæ skipan æ giðrtt at herra ormur firr nefndr skal sialfur hafa oc taka einfalldann sakeyre af sinvm dagligum sueinum. vtan aleigu mæl. vor þegngilldi bref ok fridkaup. Biodvm vier ollum monnum einkanliga sýslvmonnum lögmonnum handgeingnvm monnum vorum oc vmbodzmonnum. at þier stýrkit kirkivna firr nefnda ok herra orm biskup goz hans ok varnad ok sueina hans firr sagda. þui ollu framar til laga oc ʀettinda. bædi vm logligar skvllda heimtingar ok adra hluti vid hwad manna sem þat er ad skipta. ath vær hofum gefit kirkivnne oc honum þeir[a] varnadi og goze þetta vorth bref til styrks ok werndar ok latid þeim þess so niotanndi verda. sem þier vilid hafa þack ok ofusv af oss. Er þat fullkomid bod wort ath þier lukit med greidskap optnefndum herra orme biskupi allar ʀiett giðrwar skvllder til tiv marka edur tiv mörkum stærre og hafit luckt jnnan manadar. fræ þui sem þier verdit krafder. so framt sem þier wilied ei oss suara fiorum Mörkvm j brefa broth. ok þo ʀett giora at sijdar se.

þetta bref var giort j oslo freadagenn næsta firir Gregorij Messo æ seaunda æri ok tuttugzta ʀijkies wors. Herra arne aslaksson canceler vor jnsigladi oss sialfum hiæ werunndvm.

---

518. 28. Marts 1346. á Þverá.

JARÐAKAUPABRÉF Orms Hólabiskups og Þorsteins Kolbeinssonar, að Þorsteinn lætr biskup fá Enni í Refasveit með veiði í Blöndu fyrir Tungunes á Ásum.

AM. orig. dipl. Fasc. I, 12, frumbréfið á skinni; afskr. í Landsb. 115. 4to II, 165—66. Innsigli Arngríms ábóta og Eiríks eru dottin frá. Innsigli Orms biskups og Þorsteins Kolbeinssonar eru fyrir bréfinu enn, en þó bráknð.

bref vm ænni[1]).

Ver ormr med guds miskun biskup aa holum. af annarre halfuu. en ek thorsteinn kolbæins son af annarre Gerum þat ollum godum monnum kunnikt. at þa er lidit var fra hegat burd værs herra ieshu christi M. ccc. xl. ok vj. aar jn festo eustachij at þueraa j skagafirde vættum hiauerandum brodur arngrimi ok sira æirike býttum vit jordum ockar j millum svo at ek thorsteinn kolbæins son gaf vpp j valld výrdolegs herra orms biskups jordina alla j enne med væide j blondu. ok allum þeim gognum sem henne hefuer at fornu fýllgt ok nýio. hoola kirkio til æfinnligrar æignar. her j mot lagdum ver ormr biskup. nefndum thorsteini jord alla j tungunesæ med þeim lunnendum sem ver fengum hana æiga honum ok hans erfinngium til stadughrar æignar. Ok til sanennda her um settum vit ockr jnnsigle firer þetta bref. ok af þui at vit fýrrnefndir arngrimr ok æirikr vorum j hia sogdum jardaskiptum. settum vit her firer ockr jnnsighle. Gort j nefndum stad deghe ok aare.

---

519. 7. Október 1346. á Þingeyrum.

ORMR biskup á Hólum gefr klaustrinu á Þingeyrum land alt á Hjaltabakka og jörðina að Klifum að fráskilldri veiði í Blöndu.

AM. Dipl. afskr. Nr. 444 «ex originali monasterii thingeyrensis, accuratissime» (AM.) «Jnnsigled er burtu» (AM.). Afskr. er í AM.

[1]) Aptan á bréfinu.

280. 4to bls, 155—56; Landsb. 107. 4to. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 200—201.

vm hialltabacka[1]).

Ormr med guds miskun biskup æ hoolum sendir allum monnum þetta bref seaanndum edr høÿranndum quedio guds oc sina. kunnikt gerannde at firir guds skÿlld til uppheldiss stadnum oc klaustreno aa thingøyrum er ver unnderstanndum miok þurftught vera. hofum ver lagt þangat. sogdo klaustre til øfuinligrar øignar land allt aa hialltabacka. iordina at klifum. vtan. vøide ii blondo skalagiord oc elldiuid i iordina. er ver uilium at øinsaman høilogh hoolakirkia hallde oc hafue til øfuinligrar øignar. alla þa er þar fÿlger. en allar adrar landznytiar med nefndom iordum skolu þeir øfuinliga hafua oc hallda.

Jtem her ofuan aa tokum ver brott med þesso væro brefue diaknsuist or iordinne ii huamme er laurencius biskup gaf stadnum. soo at þar skal hedan af alldre firir oss ne væra eptirkomendr diakn skipazst.

forbiodum ver allum oc serhueriom huerrar tighindar edr stettar huerr er þessa væra skipan rifua edr rifta hedan af.

Ok til sannenda her vm settum ver vaart innsighle firir þetta bref gort æ thingøyrum in festo marci pape anno gracie ꝏ. ccc. xl. vj. nostre consecrationis quarto.

---

520. [1346—49].

Skipan Árna erkibiskups Einarssonar í Niðarósi.

Gl. kgl. saml, Nr. 1154. Fol., skinnb.; þetta er skrifað c. 1450. Þessi skipan er áðr prentuð í Norges gl. Love III, 295—301. Þó að þessi skipan komi Íslandi ekki beinlínis við, er þó gott að hafa hana hér til samanburðar svipuðum íslenzkum skipunum.

Arne með guðz miskun erchibiscop i Niðarose sendir ollum gudz vinum i sino biscopsdôme queðiu guðz með hans nað oc blezzan.

Margfallig skylda biscopligs embetis sem sialfuir guð oc

[1]) manu antiqua (AM.).

hans heilogh kirkia hefuir oss ouerdhum i hendir fengit rekkir oss oc aminnir iðuligha at leita með allra ahyggio þeirra vægha sem helzt megho ydhir væra til andliga hugganar oc iðrum salom viss gøymsla guðz buðorða þessa heims oc orug iinleðning euerðeligha glæði utan enda.

1. Er þet upphaf oc grunuoll varra fortolu oc kennedoms i þesso brefue at mer kungerom eftir guðz buðorðum oc heilaghra fedhra predican at þet er þreggia handa folk cristinni sem guð hefuir valt vndir kirkiunnar lyðni oc buðordhe seer at þiona vndir vbrigðelighre won eilifs fagnaðar. Først er møydomir karlmanz eða kuenmanz þeirra sem alla sina dagha gøyma reinligha beði likams oc hierta vtan alla saurghan likamlegra samuistar. Er þessi stettir guði þekkastir swa sem han er i engla liki till allar fæghirðar oc venleika. þar nest er ekkiudomir. sem þeir men er sek halda eftir likamligha saurgan sina. sek till iðran ob ifuirbota. oc firir sina alla likams lostsemi oc enda sua sit lif þessa heims i guðz þionusto. Er i þeima tweggia handa stettom flest þet folk sem sek hefuir bundit vndir með velum eðir klaustrlifnað vndir guðz oc heilagrar kirkio tionusto. þo at guð hafue oc marghom oðrum monnum til þessa sama dygðeligs lifnaðar sina naðir gifuit. þet er oc vndir guðz buðorðhum oc naðhum þriðia handa folk sem lifuir i hiunscapp med kerleika við guð oc sin iamcristin i lydhni vidh heilagha kirkiu oc sinna logligha formanna bæði andeligha oc likamligha oc einkanligha gøyma vbrigdheligha truscapp sins hiunscaps huart viðir annat. þar með iðkande sin lifnað með almuso gerðhum oc oðrum miskunnar verkum. Høyrir þesse stettir till þeim monnum sem ey ero till andeligs embetis skyldbunir sem før seghir. huerium wer sendom oc einkanligha þetta bref radhande aminnande oc biðiande af guðz halfuo at þeir gøymir .x. guðz buðordha oc varizt .vij. hofwðsyndir oc alt þet sem heilogh kirkia oc hennar formen firir bioða oc boðhit hafua. Nu huar er lifuir vtan einhuern af þessum þrenna handa lifnað þa er han vtan guðz naða. Frillulifnadhir oc alla handa likams loste sem við manna getnaða limum gerist vtan hiunscaps. han er bannaðir oc bolfuaðir af sialfum guði oc heilagre kirkiu. En þeir men sem hiunscaps lifnað vilia byria oc till hiunscaps seer kuenfangs leita tale fyrst uið foður oc

moður oc adhra giptingar men þeirra møyar eðir konu oc einkanlegha við sialfua hona sem han vill með guðz loghum eiga. Oc ef þeirra samþykt fellir saman sem þetta ærande varðar þa scall eftir loghum oc landz sidhum godhum með skilrikum vattum trulofuan oc festing a koma þeirra millom. Er æ þui bætir sem þet er bergheligre giort. þui at hinar festingar sem með fwllmenzsco oc pretuise oc swiklighum fortolum lettra manna gerast hefuir heilogh kirkia yðir firir enktit. Er þo þet rað at þau sem sek trulofua saman með frialsom vilia. at þau halde sina iattan. þo at kirkian dømer ekke vm proflaust mall. sidhan festing er a komen þa scal lysa þria sunnodagha þet minzsta eðir adhra heilaga dagha þessare festing at kirkiu þeirri sem þau ero vppføð i soknenne eða þer þau hafua heimili i. eðir þeir men ero i sem kunnykt er vm þeirra ætt oc athæfue. Scal prestir i þeirri lysing gera þeim ollum stefnu viðirkuemeligha longa sem nakot hafua eðir vilia mote kasta þeirra sambande. swa at þet se uppborit firir kirkiu dome før en samgangir oc bryllaup geriz. Oc ef nakur kastar þar i mote frendsemi. sifskap eða aðra meinbughi. þa scall profastir erchibiscops eðir soknarprestir firirbiodha þeim framare at gera. før en þet mall er profuat oc orskurðat með kirkiunna dome. Nu ef engin kastar i mote. eða løynaz þau kost enkis veið sem upp ero boren. þa sculu þau bryllaup sit gera eftir loghum oc landzsidhum rettum oc þo i þeim timum sem loghin ero ey forbodhin oc fare a bryllaups dagh til kirkiu þeirra sem bryllaupp gerizt i sokninne. oc take þar af preste heilagha blezzan oc pusan oc fulkome siðan hiunscapp. sem før seghir eptir loghum. Megho þo eingi pusaðe veizlu gerazst oftare en ein tima. oc þui ma prestir allrek þau saman pusa sem før ero pusað. En uæll ma han heiðirligha messo syngia a bryllaups deghi þeirra. Gerir pusan swa mykit at þo at meinhughi telizt a siðan þau hafua saman huit. swa at þau verði at skiliazt. þa ero barn þeirra arfgeng oc enga pino firir taka sculu þau huarke fostur eða feargiðld ef lyst var sem før seghir. Engi scal oc sa mote kasta þeirra hiunscapp sem visti at lyst var oc bar ekki motekast upp før en hiunscapir þeirra var fulkomen. vtan sa er þet gerir meghi fulføra at han visse þet eigi þa. En ey er lyst oc veiða þau at skiliast. þa sculu þau taka fullar scriptir með fostum oc vtistoðum oc fullum giold-

um. oc born þau sem þeirra millum ero alen ero till enkis arfs eða sômdar komen huarke veralligha eða andeliga. Ekki scal oc prestir þæt bryllaupp sitia eðir nakot embeti i þui bryllaupe at veita sem utan lysing geriz. Nu kan með guðz miskun kona verdha barn hafuande þa scall hon sek gôyma i alle guðrezlo. oc vakte æ þeim muni bætir sem hon vet sin tima till meira lidha fôðzlutima barnsens. gange þa till scripta nakorum .x. doghum edir .xij. eðir þui nere firir þet sem henni þykkir vaan at henni kome barnsykir a hendir oc gere sik sua satta uið guð. leggiande alt sit traust vndir guðz nadhir oc iomfru sancte Marie hielp oc arnaðar orð at hon frialses með godhum hætti or siuum vanda oc vaða. oc at sa getnadhir sem hon er þa hafuande kome með lifue i lioss oc lytalaust oc aliz með heilsu oc hemmingiu till guðztionustu. frendom oc vinum till hugganar.

2. Oc af þui at mer komum allir swa nauðligha i þenna sorghadall at engi kemir utan verk ok syukdom grat oc vesold. swa at margir dôya bædhi lifs oc salar fôr en nai cristinne oc heilagre skirning. vtan hueriar eingin ma frialsas æueligha heluitis pinu sakir vara fôrsta fôreldra Adams oc Euo syndar oc ulyðni. þui er þet rað vart oc boð at þen tima sem konur fôða barn. hafui inne hia seer viðirkuemelikit kerald með vatne. at barnit môghi skirast ef þet kemir sua krangt oc vstyrkt i lioss at men trôysti eigi at till kirkiu moghi fôra. Scal prestir skira en han er a gardhenum fôr en leikmaðir. fôr leikmaðr en kona. kona ef ey er kalmaðir till. faðir ef ey er hinna till. oc fôr modhir en oskirt dôyr. Skal ekki þeirra hiunscapir skiliazst firir þessa guðsyfiar sakir slikra nauðsynyar sem nu ero told. En sa er skirir barnit scall nepna sliku nampne sem fadhir eða modhir seghia till ellighar gifui sialfuir cristeligt nampn. en han nar þeim eigi. oc dôpi þrysuar i vatn. fôrst a grufwo. sidhan sit sinne a huara lidhena. oc hafue barnit sem skemst i vatneno. oc seghi han þessin orð medhan han skirir þet. Son ego te baptizo in nomine patris et filii et spiritus sancti amen. Ellighar swa. Son ek skirir þik i nampne foður oc sonar oc hins heilagha anda amen. Ekki scall till leggia þessara ordha oc ey af þeim fella. J vatne scall skira. oc ma skira i þui vatne sem snior verdhir till eðir

iocul. J engom oðrum lut eðir vætzsku ma barn [skira] vtan i vatne sem nu er sagt. En ef barn styrkis þa skall til kirkiu fôra oc seghia preste at heima var skirt sakir nauðsyniar. oc seghia honum alla atferð skiringar. Ef prestir tortryggir þeirra tillsogu sem barn fôra till kirkio. þa skal þen er skirdhi eða þen sem hia var nakur sanna með einseidhi. oc þet scall nôya. sidhan scal prestir ekki primsigna barnit. utan lata þet þeghar iin i kirkio oc leggi acrismu a barnit vtan aðra skiring. með ollum þeim ifuirsang sem han er van a barn at leggia siðan þet kemir or funtin. Scall oc barn ferma lata þegar fôrst ma biscopi nagifs i þui helgho embeti traust oc styrkir mote andskotanum oc hans prettom. oc þui er þet fulknemd oc staðfesti heilaga skirn. Ma sa engi hielpaz sem þet embeti hefuir eigi fengit sakir þes at han firirsmar þet eðir glômir af hyrðizleyso.

3. Nu ef barn fôðiz sua starkt at ei þarf heima skira. þa scal guðsyfia till fa. ein karlman oc eina konu at minzstu. þet nôgbir. vtan tighinda manna born se oc þeir vilia fleire till fa. Sculu guðsyfiar born till kirkiu fôra. en prestir scal skira sem han veit sit embeti till væra oc kirkiu bôkir visa honum. Ero guðsifiar margfaldar oc fylghir þeim hin mesta þyrmsll oc margfaldeligh vyrðing. en þessar ero guðsyfiar. fôrst millum þes er skirdhir verdbir oc hins er skirir. Onnur er millum hins er skirir oc foður hins skirða. þriðia millum hins er skirir oc moður hins skirða. Fiorða millum barna þes er skirir oc þes er skirðir verðir. Fimta millum þes er skirðir verðir oc þeirra sem honum halda till skiringar. Setta millum þes er skirðir verðir oc logligh husprôy hins sem a honum heldir þo at hon se ey nere. Oc somu leið ef husprøy heldir a barne. þo at husbonde se eigi nere. Siunda millum þes er skirðir verðir oc barna þeirra sem a halda. huart sem þau ero fleire eða ferri. Attande millum þes er a heldir oc fodhur þes sem til skirn verdhir haldin. Niunde millum þes er a heldir oc moður þes sem a verdhir hallit. Werdha þessa samu guðsyfiar með same virdhing oc þyrmslum i ferming sem i skiring. so at engar megho millum guðsyfiar giptingar bindaz. Oc ef nakur dyrfuiz at binda eðir bundit hafua. þa verða þau sem þes hafua dyrfs með kirkiu dome oc harðom afuarkostum at skiliaz. Ero þetta kirkiunnar logh oc heilaghra feðra skipan hueriar allir men eigha swa at gôyma sem .x. guðz buðorð.

4. Þar með sculu þeir gøyma ydhir trulighа með allre øðmykt oc cristelighe siðferð. einkanligha at þeir komir iðuligha till idhra soknarkirkiu. þui at þet er idhor pelagrims ferð. oc hon nøghir iðir en þeir með fridhi oc siðsemd iðka þer sem þeir verðir með veraldlighe fiolskyldo oc likams erwdhe iðir oc yðrum bornum at fødha. oc þer með hædhi veraldlighom oc andelighom iðrum formonnum at þiona. Sculu þeir swa or iðrum heimilum buaz till kirkiu. at þeir sculit afleggia hatir oc ilzsku awnd oc alla vndirhyggiu. en væll moghir þeer tala huar við annan vm siin mala skipti vtan forðz oc ilzsku. oc sculu men engar skuldir krefia eðir sculdar hemtingar eða aðrar soknir byria eðir iðka i kirkiu, eðir kirkiugarðe. Nu komir þeir till heilagrar kirkiu. fallir først a idhur kne fire kirkiudurum oc minnizt viðir dør eðir kirkiu hurð. gangir siðan kring vm kirkiuna en væðiratta er swa till fallen at þet ma væll gøra. gangir sidhan iin i kirkiuna oc kastir a idhir vigdhu vatne. fallir sidhan a knæ firir hinum helga crosse oc bidhir idhir guð till nadha oc minnizt upp a hans pino með huerre han løsti oss tapaða men vndan andskotans valde. Seghir iðra Pater noster oc heilser iomfru sanctam Mariam með Marie vers sem swa hyriar Aue Maria eðir hergir a brioste yðro oc seghir swa en þeer kunner ey meira. Guð alzvallande veri meer nadhigir oc miskunsamir syndugum manne. En þo er huar maðir skyldughir at kunna Credo. Pater noster oc Marie vers oc sek at signa með hins helgha crossmarke oc þessum orðum. Ek signar mik i nampne fodhur oc sonar oc hins helga anda. Nu er prestir ey till kirkio komen. eðir ey þa en till messo buen. þa stendir uæll at meðan þer gangir kring vm kirkiuna. gange huar til graftar sins fadhur. modhur. syskina eðir frenda oc vina oc seghi þer sina Pater noster. oc gange swa iin i kirkiuna. ellighar geri þet eftir messona før en þeir gangir or kirkiu gardhenum. Telium wer ey þui fire iðir at guð høyrir men iamuæll ine i kirkiu vm alla handa retlaat bønahald sem i kirkiugarðenum vtan liosare kerleiks mark er þet at huar minniz sins nainnga. ef allir eðir sumir sia at han vitiar þeirrar graftar. en þa er men vnte þui ekke. Nu byriar prestir heilagha messo. fallir þa allir a knæ. sidhan megho þeer standa till þes er byriar Gloria in excelsis deo. fallir þa oc allir a kne

oc minniz at þenna sang byriaðe englar a þa samu natt oc tima sem guðz son fǿddir var af iomfru Marie reinum likam at lǿysa oss or anskotans valde. allir sculu þeer a kne falla oc beria a briost ydhor swa oft sem þeer hǿyrir i messonne þessor orð læsin eðir sungin. Jhesus Christus. Maria. Siðan megho þeer sitiande messo lydha þar till er þeer hǿyrir guðspiold sem sialfs guðz orð ero i. allir sculu þa upp standa oc taka ofuan siin capruun oc standa swa barhofðe medhan lestin verdhir læsin. siðan sculde men offir sit till altare fǿra oc heiðra swa embeti heilagrar messo oc guðz hold oc bloð sem i messonne helghaz oc i vpphalde teez ollum monnum i asyn brauðz oc viins. En þa er prestir haldir vpp guðz likam oc þar nest hans bloð. þa scall huar cristin maðir tia með fullri ǿðmykt alla sina elsko oc astsemi till sins scapara með barom hofdhum oc knefalle. upphallande sinum handum. oc beria þrysuor a bryoste seer þui at þrefaldeligha syndom wer mote honum. þet er i huxan. ordhum oc verkum. oc kennomst viðir at þet er þen samme voldughe guð sem scop himil oc iorð oc alt þet þer i millum er bædhi ifuir oc vndir oc loyste alla sina vine or andskotans valde oc alt mankyn scall dǿma a sidharsta deghi huern eftir sinom gerningom. Er þet oc alla manna cristinna þioðar obrigdhelig tru at medhan guðz likame helghaz uphelz oc nǿytiz i heilaghe messo með kraft guðligha ordha oc prestins embeti. þa lykkiz upp himpnanir. oc guðz englar fara ofwan at luta oc nigha sinum haleita scapare. swa at þar kemir þa saman himpnesk oc iarðligh skepna með allre ǿðmyukt oc glædhi oc fullum fagnadhe at þiona sinum oc varom sannom guði þo at mer syndughir men sem eigi ero[m] verðughir þet at sia með likamlighum aughum sakir varra margfaldeligha vesaldar oc likamsens brǿyskleika. Einkanligha biodhum wer at men gangi með spekt hofsemi oc guðrǿkiligha at taka guðz likam a pascha dagh oc þrengir engin fram firir annan. sem margbir aumlighir men oc at ollu vitlauser dyrfuaz at sǿkia þa till heilags alteri þui likazt at þeer fare með herskilde aat sinum scapare oc lausnare sem hinir aumu Juda gerdhu þa er þeir fangadhu han till daudha. Standa sculu men i kirkio eðir a kne liggia meðan syngir Pater noster. Þa pax er gifuit af guðz alteri. þa scall huar annan kyssa.

karlmen siin i millum. en kuenmen siin i millum. Scall sa koss vera með fullom kerleika swa af hierta sem af likam. En huer þeirra sem messo kos gifuir. þen sem af guðz alteri oc likam byriar. með swikum oc iluilia. han er drottens swikare oc sins iamcristins forradhare. luttakare alz vfagnaðar með hinum fordômda Judase sem varn herra Jhesum Christum sin guð oc meistara selde i trunaðe till hinna liotasta pinu oc hins haðoghast[a] dauða. Þui nest sculu men taka með knefalle litillatligha guðz blezzan vndir sins prests hende. oc fara swa með frið huar heim till sins heimilis.

5. Werir oc i virdhing við sialfuan guð oc alla himpneska dyrð. goðuiliughir oc stuðnir iðrum soknarprestom. einkanligha medhan þeir ero retferðughir i sinom lifnað oc i rette lydhni við sialfuan guð oc oss. þui at þeir ero skyldughir iðir andligha hialp at veita. er þeir komir i heimen. her eror. oc heðan farer. Hafuum wer fastligha at þeer se idhir ôdmyukir i prestligho embeti. i ollum lutum goðuiliughir sem sinum andlighom barnom.

6. Forbioðum wer fulkompligha at þer takir ey við nakorum preste þeim sem nyskipadhir kallaz. vtan han lyse adhir oc upplæse i heilaghe kirkio sino opno skipanar brefue með varo hangande incigle.

7. Þet sculu allir men gôyma at koma fastande at hôyra helgha messo þeir sem fultida men ero. oc at allir se i kirkio oc kirkiogarde liodhir vtan alz harôysti oc latir iðir i hugh koma huersu mykill salo haske þet mon vera at gôra þer syndir sem men sculu sina syndir bôta.

8. Sôkir oc með iðro erfuodhe þangat sem afgiftir gifuaz. oc gôrir þet með fulle tru oc orugge vaan iðir till vissar salo hialpar.

9. Warizt oc banzatta men swa sem fulasta eitirorma. at þeir samnôtizt þeim ekke eðir nakorn bliðscapp eðir eftirlæte gôrir.

10. Gôymir iðir firir runum. galdrum oc gerningom. lifiom. hindirviti oc ollum atrunadhe þeim sem heilog kirkia kennir iðir eigi oc hennar formen oc tionustu men. Huar sem oðruuiss gerir. þa er han sem villumadhir i guðz bannæ.

11. Þet er huar madhir skyldughir sem a þeim aldre er at

han ma syndir giðra. oc sik veit i nakore [synd einkanligha dôðligha fallit hafua. at han scriptberi sek með allre iðran swa opt sem han veit sik i nakore synd. Einkanligha gange men timeligha till scripta i longa fostu. þui at huar fastu daghr. bônahald. almusugerð oc allra handa miskunna uerk ero ret scriptadhum manne till salohielp oc vissa frialsan fra skyldugri þinu sinna afbrota. En allir þesser lutir koma till engrar hielp þeim sem sinar syndir vill ey með iðran oc ifuirboot af ollu hiarta scripta oc framleidhis varaz sem guð gifuir honum þar til hielp oc nadhir vmfram alla luti.

12. Timeligha sculu þeer kalla till idhar prest þeghar þeer kunnit i syukdom leggiast oc gerir þa idhar scriptagang reiniligha. oc takir sidhan guðz likam oc helgha olian. at þeir moghir traustliga sattir vera með guð oc men. oc með goðre samuitzsku viðir þetta skiliast. þa sculu men oc sit testamentum gerna gôra. Fôrst sialfuum gudhi saal sina. þer nest helghum kirkiugardhe likam liif sin. minnizt sidhan soknarprestz sins. frenda oc vina með nakore huggan sem guðz lane sem guð hefuir hueriom leent eftir slikum efnum sem huar orkar. en enghan fatighan man eggiom ver þer sem gotz er swa litit till at varla ma frialsligha nôghiaz barnom einkanligha skilgetnum till vidhirlifuis.

13. Gôymir idhir firir guðz sculd fra ollum stuld oc okkir oc vidhir ologlighum afla. oc hafuir retferdheligha iðrar tiundir af ollum rettum afla bædhi af sio oc af lande sem þeer eror gudhi skyldughir oc hans tionusto monnum. Sua oc i oðrum skattum rettum oc tollom sem þeer ero skyldughir wt at gôra eðir greiða at loghum oc landz sidhum rettum.

14. Haldir oc cristelighan kerleik með dauða manna likama oc fôlghir þeim með goðuild till heilags legstaðar. ey sidhir fatôkum monnum firir guðz sculd en rikom. þui at allir ero þa fatôkir. oc minnizt þes þo at manna likamir se nu i sinom daudha nakot anstyggir asynum þa hafua þo varer likamir þet ifuir alla kuikande likama at þer scall salen aftir koma i a domadeghi till æueligha lifganar eftir guðz dome oc sidhan sculu þau aldrig skiliazt.

Gifue gud alzualdughir idir þetta bref sw[a] at atgôyma at þeer moghir þer med afla oc odlaz fe oc frid aar oc hemmingiu þessa heims oc euelighan med sialfuom gudhi i himerike vtan enda. Amen.

521. 15. Juli 1347. i Ljôðhusum.

Testamentisbréf Magnúss konungs Eiríkssonar og Blaunku drottningar, þar sem þau gefa ýmsar gjafir til kirkna, kapellna. klaustra, spítala og fátækra manna.

Frumbréfið á skinni í Ríkisskjalasafni Svíþjóðar. Prentað í Handl. rörande Skandinav. Hist XII. 1825, bls. 38—56, Saml. til d. norske Folks Spr. og Hist V 579—87; Dipl. Norv. V, Nr. 193. Hér er að eins tekið það úr bréfinu, sem kemr þessu safni við.

Testamentum domini regis et domine regine Blancha.

Nos Magnus dei gracia rex et Blancha eiusdem gracia regine Suecie. Noruegie et Scanie . . . . legamus . . . .

Jtem ecclesie Stafanggir vnam casulam. dalmaticam subtile et vnam capam.

Jtem ecclesie Hamar tantum.

Jtem ecclesie cathedrali sancti Magni in Orchadia tantum.

Jtem ecclesie Scalahult jn Jslandia tantum.

Jtem ecclesie Holæ tantum.

Jtem ecclesie cathedrali jn Grœnlande centum marchas denariorum. jn vestibus pro ornatu ecclesie preciosis.

. . . . . . . . . . . . . . . .

Datum Ludhosie anno domini m°. ccc°. xl°. septimo. dominica ante beate Margarete virginis et martyris.

---

522. 15., 18., eða 20. Februar 1348. i Oslo.

Réttarbót Magnúss konungs Eiríkssonar, þar sem hann bannar útlendum kaupmönnum verzlun í norðrhluta Noregs og í skattlöndum ríkisins.

AM. 330. Fol. á pappír. frá c. 1600 (= A); AM. 331. Fol. á pappír frá c. 1600 (= B); Stockh. Sk. 31, R. 4 Nr. 14. Fol. (= C). B og C eru norskdanskar þýðingar og A einnig bjagað. Norges gl. Love III, 170.

Magnus med gudtz miskund Noregs suia och skona konunger sennder aullum monnom theim som thetta breff sia eder høyr[a] quediu guds och sina.

Ver haffuom[1]) vnnderstanndit att vthlenndske koupmennd siglla thiill skatlande varo och annar stadar thar som ey heffuer fyr vanna aa verit och vart lannd heffuir thar skada aff oc suo noker kiøpmennd i landeno och thui forbiodum ver och fullkommeleiga [at nokor koupmader segla[2]) med sino koupðyre nordann om Bergenn eder nokor stadar thiill vaare skatlannda [och thar med kallom ver affther och onytte gerom[3]) eda seylar med koupðyre edar godtz senndar se that alt optekit oss thiill hannde.

Thette bref var giort i Oslou [siau nattom fôr Laupars[4]) messo[5]) aa .ix. aare och .xx. riikis vars och inndsiglad oss sialffum hiauerendom.

---

523. 15. Mai 1349. i Tungu i Blöndudal.

VITNISBURÐR Bessa Brandssonar og Ásmundar Grímssonar um að Tunga í Blöndudal eigi torfskurð í Ytri-Löngumýri.

AM. Dipl. afskrr. Nr. 3922 «Ex originali. Brefed hefur vered alls med tveimur jnnsiglum, er skrifad á kalfskinn. Jnnsiglenn er[u] bæde vidföst, enn so molud og brotenn [ad] eoke verdur ä lesed»; með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra gerum vid bessi brannsson oc asmundr grimsson kunect at vid heyrdum okkur ellri menn þat segia en aunga j moti thala at tunga j blaundudal ætti torfskurd j iordina a lang[a]myri enni ytri æ asum ar eptir ar suo miken sem bondi villdi lata skæra er j tungu byggi oc iordunni væl nægþi. vissu uid ok at þeir haufdu sæm j tungu biug[g]u suo felldan torfskurd j langamyrar jord tutaugu vetr ok leingr ar eptir ær ataululaust. atti ek furr nefndr asmundr langamyri ellefu vetur ok tallda ek aldri æ aþr æ-

---

[1]) haffua, hdr.; [2]) [alle wdlenndiske kiøpmend att segle B, C; [3]) [och her mitt igienn kalde wij och wduelig giorer alle the breffue som ther om wdgiffuitt er, end huo som her effther thette giør B, C; [4]) Laurantz(!) hdr.; [5]) [theun .ij. dag for Petri ad Catedram B; [then 7 dag for Petri ad Catedram C.

nefndan torfskurd þuiat ek reiknadi hann vera fulla æign vr tungu. ok til sanynda her um sættum vier fyrrnefndir menn okkur insigli firi þetta bref gort i tungu i blaundudal in festo halluardi martiris. a þritukta ari rikis okkars virduligs herra herra magnusar med Guds nad noreghs ok suia rikis konungs.

---

## 524. 18. August 1349. i Avignon.

Klemens páfi VI. sendir Árna erkibiskupi í Niðarósi og lýðbiskupum hans endrrit af boðskap sínum *Unigenitus* frá 18. Janúar 1343 um júbilár í Rómaborg 1350 og býðr honum að kunngera þetta.

Dipl. Norv. I, 318 eptir skjalabók Klemens páfa VI. á páfagarði í Róma (Clem. VI. ann. vii ex instrum. miscellan. 1349). Gyrðr Skálholtsbiskup og Ormr Hólabiskup munu hafa feingið afskript af bréfinu eins og aðrir lýðbiskupar.

Clemens episcopus, seruus servorum dei.

Venerabilibus fratribus [Arnoni] archiepiscopo Nidrosiensi eiusque suffraganeis, salutem et apostolicam benedictionem.

Dudum de fratrum nostrorum consilio et plenitudine apostolice potestatis indulgentiam, quam felicis recordationis Bonifacius papa viij predecessor noster omnibus vere penitentibus et confessis, qui beatorum Petri et Pauli apostolorum basilicas de urbe in anno a nativitate domini millesimo trecentesimo, et extunc quolibet anno centesimo secuturo, certo modo visitaverint concessit, ad annum quinquagesimum duximus reducendam, statuendo quod quicumque voluerint indulgentiam huiusmodi assequi, basilicas predictas ac Lateranensem ecclesiam in anno a nativitate eiusdem millesimo trecentesimo quinquagesimo proxime secuturo, et extunc de quinquaginta in quinquaginta annos certo modo visitare deberent, prout continetur plenius in confectis super hoc nostris literis, quarum tenor talis est. [Hér kemr boðskaprinn *Unigenitus* frá 18. Jan. 1343, sem ekki snertir Ísland sérstaklega]. Quocirca fraternitati vestre per apostolica scripta mandamus quatinus singuli vestrum in singulis vestris civitatibus et diocesibus predictas litteras nostras subditis vobis clero et po-

pulo publicetis et intelligibiliter exponatis, ut annuente domino ad promerendum huiusmodi indulgentiam se disponant. Ceterum quia presentes littere nequirent forsitan propter viarum discrimina vel alia impedimenta legitima singulis vestrum commode presentari, volumus, quod per te frater archiepiscope, dictarum litterarum transumptum manu publica scriptum tuoque munitum sigillo vobis, fratres suffraganei, transmittatur, cui velut originalibus litteris adhiberi volumus plenam fidem.

Datum Avinione. xv. kal. septembris, pontificatus nostri anno octavo.

---

## 525. 23. August 1349. á Helgafelli.

Eiðfestr vitnisburðr tveggja manna um það, að staðrinn að Helgafelli eigi alla veiði í Straumfjarðará milli fjalls og fjöru.

AM. 264. 4to bls. 7—8 papp. skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 6—7 papp. skr. c. 1660 (Jón Steindórsson); AM. dipl. afskrr. Nr. 1540 og Nr. 1624.

Wmm veide j straumfiardaræ[1]).

Ollum þeim godum monnum sem þetta breff sia eda beyra sender Pietur [prestur Marteinsson[2]) Quediu Gudz oc sijna kunnigtt giaurande ad sub anno gratiæ [cıↄ ccc xl nono[3]) jn octava assumtionis sancte mariæ ad Helgafelle tok eg[4]) þessa eida af Arna Runolfssyne[5]) oc Petre Gudlaugssyne af stadarins vegna ad Helgafelle. ad stadurinn ætte alla veide j straumfiardaræ j millum fialls oc fiauru. Saugdu þeir oc suo. ad þessa veide hefde aunguer adrer menn sier[6]) eignad umm þeirra daga suo at þeir visse. oc var þa annar siautugur ad alldri. enn annar fimtugur. Oc thil sanninda hier umm setta eg mitt jnnsigle firer þetta bref. [oc sijra skapte sitt jnnsigle fyrer þetta bref[7]). er giaurtt var j saugdum stad deige oc are. ad þess-

---

[1]) Eignarbrief firer veide j Strômfiardara 252; [2]) [Steingrijmzson 252; [3]) MXL nono(!) 252; [4]) sl. 252; [5]) Bryniolfssine 252; [6]) adur b. v. 252; [7]) [sl. 252.

um monnum hiaverondum. herra þorsteine abota oc brædrum hans. Augmunde Gudmundarsýne. Katle Sverrissyne. Gudmunde biarnarsyne. Halldoru Haflidadottur oc audrum godum monnum.

---

526. [um 1350].

Samningr þeirra Snorra Andréssonar og Hauks Gunnarssonar um reka Keflavíkr undir Jökli.

AM. 252. 4to bls. 14—17 papp. skr. c. 1660; AM. dipl. afskrr. Nr. 1539. Þetta bréf er með vissu eldra en 10. Marts 1356 því að þá selr Haukr Ingjaldshól.

Wm kieflauijkur reka.

Jn Nomine Domini Amen.

War þessi tiltala Snorra Andriezsonar vid Hauk bonda Gunnarsson a Jngialldzhole. Geysládag[1]) so sem hann var j vmbode stadarinz a Helgafelle.

Jn primis Beit j Burfellzdal hinum effra. og vm halffa skialldbreid. gieck og Haukur bonde medur ad skarde heffde filgtt ad fornu allur Burfellzdalur hinn effre. og so allur skialldbreidur. enn þo heffde verid skilin beit j dalinn. og so aff greindre skialldbreid. enn stadnum var sellt skard. Enn Snorre beidde ad Hôkur bonde feingi votta ad nôckurn tijma heffde fra vered skiled sýdan hann gieck med ad skard heffde att ad fornu. Beidde Snorre ad Haukur bonde tiede hônum maldaga edur ønnur skilrijki eff hann villde nôckurn Reka eigna sier. þar sem hrônskardz land geingur ad. enn Haukur bonde kuadst þar huorcke haffa til maldaga edur vitne vm þessa eign. vtann menn hafa lagt samann langann tijma reka med lôndum. og þad være forn heffd og lôug. Enn snorre firerbôd so framt sem hann ætte med adurnefndz stadarins vegna ad hôkur bonde haffe nockud aff Rekanum firer Hrônskarde firr enn hann feinge nôckud skilrijke til huornenn vndann hefde geinged Rekinn.

J þridiu grein liet Snorre lesa maldaga vm landamercke j mille þrandarstada og Jngialldzholz[2]). þad sem med var bunded brieff Jonz biskups Halldorssonar. vottandi ad hann villde þann maldaga halldast lata vm firsôgd landamercke. jatade hôkur

[1]) = 13. Janúar; [2]) Sbr. Dipl. Isl. II, Nr. 75 (ár 1280).

bonde. ad hann villde þann maldaga hallda i ollum greinum enn kuadst so ecke skilia hann. sem snorre villde hann skilia. og fleire adrer menn. og einkannlega huðrsu vitt klýff hiete. sijdann handlögdust þeir hökur bonde og snorre þar uid ad vera sem steffnder bader a Jngialldzhole epter paska vm vored. þa er þeir sira Flose og þordur sonur hans være þar. og vnder þann dom sem þeir neffndu þar iffer. ad puncta maldagann og ganga a landamerckinn. ad snioalösre jordu. skilldu þeir þar þa vera. med oll sijn proff og skilrijke. þo[1]) sem huðr feinge til. so sagde og hökur bonde. ad hann hefde lated veita lurkans læk vr fornum farueg af torffuelle sijnum þeim sama sem greiner landamercke. enn snorre quedst lijtast. ad hökur bonde ætte ad fa vitne til huar hann hefde ad fornu falled. med þuij hann sagde nu lækinn ey falla sem ad fornu saker veitu hans voru þesser menn vid þeirra tal og handlag. Flosi Jonsson. Gudmundur Arnason. og þorgýlz Oddason prestmenn. leikmenn Biðrn Jonsson. snorre þorleýffson. Eýnar broder hans. Hallur vr lone. Giller. Sölue. Sumarliðe. Hakon.

---

527. [um 1350].

SKRÁ um landamerki Yztu-Garða í Staðarsveit á Snæfellsnesi.

AM. 264. 4to bls. 16 skr. 1606; AM. 252. 4to bls. 14 papp. skr. c. 1660; AM. dipl. afskr. Nr. 1614.

Jtre Garda landamerke[2]).

Þesse eru landamerkie medur ystum Gaurdum ad rædur Hagagardur j Hauldavatn vr stadarhorne oc alltt firi nedan kielldu oc veitulæk oc ut firi nedan Torflæk. en vautn rada alltt hid efra. ut i Lysu. En hun rædur alltt til siofar. Jtak j midgardaland. stackskurdur enn eingiar tueim"meiginn þordarlækiar thil hagagardz. oc einge ut fra vødum oc upp med Hraunaa thil Rima[3]) þess er geingur fýrer ofann [þorugard[4]).

[1]) = þau; [2]) 252; [3]) Rana 252; [4]) þuergard 252.

528. 1. Januar 1350. í Kirkjubæ.

Hallgeir Andrésson ábóti í Þykkvabæ í Veri lýsir eignum, ítökum og landamerkjum Þykkvabæjarklaustrs. **Falsbréf.**

**A.**

Bréfið er prentað hér eptir afskript Jóns Sigurðssonar, sem gerð er eptir afskript af kopíu frá 1735, sem séra Jón Austmann í Vestmanneyjum hafði sent hinu kgl. norræna Fornfræðafélagi 1853; kvaðst prestr hafa feingið skjalið frá 1735 eptir tengdaforeldra sina á Þykkvabæjarklaustri, og hafi það þá verið hálffúið og væri það enn 1853. Aptan við stendr þetta: »þetta er rett útkoperað eptir þeim gömlu orðum sem fyrir oss komu, sem votta undirskrifaðir við Berufjörð þann 2.(!) Febrúar 1735

Jon Gissursson pr. m. e. h. Gunnlogr Oddsson
Illugi Bergsson Olafur Eiriksson
Eyjolfur Arnason m. e. h.

Þetta document upplesið við réttinn á Leiðvelli 1740 d. 10. Juni testera
Eirikur Gíslason Olafur Loptsson.

Rétt eptir vidimeraðri copie skrifað testerar með eiginhendi og hjáþryktu signeti

Bjarni Nicolasson
(L. S.)»

Aptan á kopiu Bjarna Nikulassonar stóð: »Copia af þeim gamla maldaga 1735«. — Af því að erfiðleikar eru á því að koma Hallgeiri inn í ábótaröðina i Þykkvabæ og Birnu inn i abbadísaröðina í Kirkjubæ hefir Jón Sigurðsson ætlað, að þetta bréf væri »samsetningr einn«, og verðr hér að rannsaka þetta mál ítarlega. Er þá fyrst að athuga hvort það fái staðizt, að Hallgeir hafi verið ábóti í Þykkvabæ 1. Janúar 1350 og Birna abbadís í Kirkjubæ. Þorlákr Loptsson, Helgasonar var ábóti í Þykkvabæ frá því 1314. Annálum ber ekki saman um dánarár hans. Skálholtsannáll segir hann hafa andazt 1350, Flateyjarannáll 1351 og Gottskálksannáll 1354 og segja þeir hver um sig Eyjólf Pálsson vígðan til ábóta 1351 (Skálh.), 1352 (Flat.) og 1354 (Gottsk.). Þó það væri rétt; er stendr í Skálholtsannál, að Þorlákr hefði dáið 1350, þá gæti Hallgeir þó ekki verið orðinn ábóti 1. Janúar, því að þótt hinn hefði dáið nýársmorgun, var ekki tími til að setja nýan ábóta á þeim sama degi og svo fyrir hann að ferðast frá Þykkvabæjarklaustri austr að Kirkjubæ. Auk þess er Gottskálksannáll hér, eins og svo margopt, réttari og skilmerkilegri, en aðrir annálar og segir hann skýlaust að Þorlákr ábóti hafi dáið »næsta dag pro festum Vincencii» [al. fyrir festum Vincencij; Vincencius 22. Jan. = 20. eða 21. Janúar] 1354, og getr þess að Eyjólfr Pálsson ráðsmaðr í Skálholti hafi verið vígðr til ábóta mjög skjótlega »svo sem hann stóð«. Fær það því með eingu móti staðizt að Hall-

geir Andrésson hafi verið ábóti í Þykkvabæ 1350. Jórunn Hauksdóttir, Erlendssonar og Steinunar Óladóttur var vígð til abbadísar í Kirkjubæ 1343 og kölluð Agnes. Um dánarár hennar vita menn ekki, því að það er villa í Hólaaunál að hún hafi dáið 1361; á þar að standa: »obitus frú Steinunar Óladóttur, móður frú Agnesar abbadísar í Kirkjubæ» (Gottskálksannáll). Er því ekki herlega ómögulegt að Birna hafi kunnað að geta verið þar abbadís 1350[1]). Dagsetning bréfsins »á nýársdag» er svo grunsamleg, að hún ein væri nóg til þess að tortryggja bréfið, þó að alt annað stæði í skorðum. Eptir fornu íslenzku tímatali hefst áríð ekki með Janúar, heldr með Jólum, svo að aðfangadagr er síðasti dagr ársins, en Jóladagr hinn fyrsti. Hefði því bréfið verið gert 25. Dec. 1350, þá mundi án efa hafa verið komizt svo að orði: in nativitate domini eða á nokkurn þvílíkan bátt. Ef bréfið hefði verið gert »á nýársdag» eptir því, sem nú er baldið, mundi án efa bafa staðið: fimtudaginn næsta fyrir (ante) epiphaniam domini eða in octava nativitatis domini og ef míðað hefði verið við mánaðardag hefði átt að standa »Cal. Januarii», eða ef til vill: »fyrsta dag (primo die) Januarii» og er þó slíkt fágætt, og rita menn því nær aldrei mánaðardag í íslenzkum bréfum á líkan bátt og nú er gert fyrri en eptir miðja 16. öld. Dagsetning þessi, sem er vottr um fákunnáttu þess, er samsett hefir bréfið, bendir á að það sé gert eptir að nýi stýll var algjörlega kominn á og byrjan hins forna árs gleymd. Orðfæri bréfsins alt og form er í sjálfu sér svo, að það getr ekki staðizt, að það sé frá 1350, einkum er uppbaf bréfsins vottr um ókunnugleika falsarans á formi fornbréfa. Það hefði og verið nóg að kalla »þá heilögu Birnu» blátt áfram frú Birnu abbadís, því það er hinn venjulegi títill abbadísa, en af lifandi mönnum var einginn kallaðr heilagr, nema páfinn einn. Að segja til landamerkja eptir örskotum er heldr ekki venja og er því jafnóbeppilegt sem annað. Ef upphaf bréfsins hefði átt að vera í nokkru lagi hefði það þurft að vera einhvern veginn svo:

Vér bróðir Hallgeir með guðs miskunn ábóti i Þykkvabæ heilsum öllum þeim, er þetta bref sia eðr heyra með guðs kveðju ok vorri. kunuigt gerandi. at sub anno gracie ꝯ°. ccc°. l° in octaua nativitatis domini svo sem ver vorum staddir at heimboði fru Biruu með samri miskunn abbadis i Kirkjubæ morgum dugandismonnum nærverandnm. lystum ver þessum jtokum og landamerkjum klaustrsins í Þykkvabæ. J fyrstu a kirkian allt heimaland o. s. frv.

Að efni til getr sumt í bréfiuu staðizt, eins og sést á samanburði við máldaga Jóns biskups Indriðasonar frá 1340 (Dipl. Isl. II, 479) t. a. m. um Búlandsfjöru. Það, sem hér stendr um reka við Ingólfsböfða á víst að réttu lagi við Hjörleifshöfða. Hér er sagt að Hallgeir gefi Kirkjubæjarklaustri Brandaland; en 1490 eru þessir skógar enn eign Þykkvabæjarklaustrs.

[1]) Þess má geta að til eru Birnnhólar sem örnefni á Síðunni (sbr. Stjórnartíðindi 1890 B bls. 36).

Um eignir og ítök er að eingu farandi eptir þessu bréfi, þó það sé gert með einhverjum stuðningi af máldögum klaustrsins, ef til vill eptir minni.

Hver bréf þetta hefir samsett er ekki með öllu víst, en fyrst kemr það fram á fyrra hluta 18. aldar eptir daga Árna Magnússonar, og virðast helzt líkur til að Bjarni sýslumaðr Nikulásson sé eitthvað við það riðinn. Í Landskjalasafni Íslands er afskript af því á dönsku, sem Bjarni hefir lagt fram í málaferlum sínum (= **B**), og er sú ekki hót tryggilegri en hin íslenzka, sem einnig stafar að nokkru leyti frá Bjarna að því, er leingst má rekja. Er það fremr kynligt að transskript þess eptir máldagabók klaustrsins er látið vera gert austr í Múlasýslu, auðsjáanlega til þess að falsið kæmist síðr upp. Það virðist þó nokkuð ljóst, að ólíklegt er að máldagabók klaustrsins hefði verið komin þangað. Bréf þetta hefir verið nokkuð kunnugt eystra á síðara hluta 18. og fyrra hluta 19 aldar. Er auðséð að Mála-Davíð (d. 5. Jan. 1839) þekkir það, og getr eptir því um Hallgeir ábóta i kvæði sínu um Kirkjubæjarklaustrskirkju, auk þess sem hann nefnir aðra menn, er einungis koma fyrir í Krukkspá[1]). Enn hitt tel eg merkilegra, að Sæmundr prestr Magnússon Hólm getr þessa eða annars líks bréfs í lýsing sinni á Skaptafellsýslu (IBfél. 333. 4to) skr. 1776 i Khöfn, og verðr hér nú að fara frekar út í nokkur atriði bréfsins, en áðr hefir verið gert. Hér er nefnd í bréfinu «höfnin Sæluvík». Hún er að vísu ekki nefnd í máldögum klaustrsins, en hún mun þó vera ein og hin sama og «Sæluhöfn» í Álptaveri, sem getið er um við Kötlugos 1721 (Markús Loptsson: Rit um jarðelda á Íslandi Rvik 1880 bls. 30). Hér er og nefndr «Höfðafjörðr» og er það í samkvæmni við Landnámu I, 6: «var þar (ɔ: við Hjörleifshöfða) þá fjörðr, ok horfði botninn inn at höfðanum». En eptir sögnum virðist þessi fjörðr hafa farið af í hinu svo nefnda Sturluhlaupi úr Kötlu 1311 (Sbr. Rit Markúss bls. 28—29). En það sem er einkennilegast og í sjálfu sér eptirtektaverðast í þessu bréfi, er að hér er nefndr «Kúðafjörðr» og «eyjar í Kúðafirði». Landnáma IV, 11 getr þess að Vilbaldr Dofnaksson fór af Írlandi til Íslands og hafði skip það er hann kallaði Kúða, og kom i Kúðafljótsós, en ekki getr hún um fjörð neinn, en þó hafa langa leingi verið sagnir um að fjörðr hafi þar verið alt upp á móts við Hestalandshóla, þangað til að Katla hafi borið sand í hann í Sturluhlaupi 1311. Sæmundr prestr Hólm var fæddr í Hólmaseli í Meðallandi 1749 og uppólst þar og á Staðarholti í Meðallandi og var því gagnkunnugr landslagi öllu þar og sögnum, er um héraðið hafa geingið, því að hann var bæði stálminnugr og mjög eptirtektasamr og hafði auk þess miklar mætur á æskustöðvum sínum og gerði sér alt far um að vita um þær sem mest og réttast; er og sögn hans öll þeim mun merkilegri sem hann lýsir héraðinu áðr en Skaptáreldr 1783 umturnaði því og var það þá enn að miklu leyti sins og það hafði verið í fornöld. Segist hann fyrst hafa «uppteiknað» þetta

[1]) Í samkvæmni við þetta á það að vera, sem stendr í riti mínu Om digtn. på Isl. i d. 15. og 16. årh. Kh. 1888, bls. 482.

«pláss» (ɔ: Vestr-Skaptafellsýslu, Rangárþing og Árnesþing) 1770 eptir boði Finns biskups og undir hans umsjón og segir að «sú teikning» hafi verið «vel upptekin og virt af Dr. Finni». en margopt segizt hann hafa farið um þessa staði eptír það og átta sinnum endrbætt uppdrátt sinn og lýsing. Um Kúðafljót fer hann þessum orðum: «Kúðafljót er yfir mílu breitt með blautum botn, tvær til hálfa þriðjn alin djúpt landa á milli, og alt eitt bera vatn; rennr hægt fram; er víst sjö til átta mílur langt frá sjó til fjalla, og nær víðlíka breitt ɔ: 1¼ mílu, en síðan rennr það optast í þrengslum og gljúfri. Stórt vogunarefni er fyrir framandi og ókunnuga út í það að leggja. Ei verðr bátum hér við komið, því það fellr opt til, að sem hryggir eða eyrar eru hér og hvar í vegi, sem þó eru svoddan ysja, að eins eru djúpar og þar vatnið er tvær álnir, en svamlar þó fram úr. Það til fellr þrálega sérdeilis að vestanverðu, að bæði hestar og jafnvel menn fara hér á kaf, en rífa sig þó upp um síðir og ösla svo fram úr; mega menn hér þó yfir reisa, og er þetta þjóðbraut þar, en aldrei heyrist þar nokkur drukni eðr druknað hafi; má [það] sýnast mjög undarlegt. Þetta fljót er svo breitt, sem fyr er sagt, að valla kann yfir það sjást eða eygjast, utan í rétt hreinu veðri og stendr því austan megin ein stika af [tré] þriggja eða fjögra faðma löng til að sjá upp á, svo maðr ei villist, en að vestan einn hóll, kallast Grjóteyri, hvern menn stefna á, þegar vestr yfir skal fara. Áðr en Sturluhlaup kom fram úr Kötlugjá, var þetta fallegr fjörðr með skóg á báðar síður að norðan og hæðum langt fram eptir, en síðan slétt graslönd að sjó. Eyjar voru og innan um fjörðinn með gras, skóg og eggvarp, því í einum gömlum máldaga stendr, að Þykkvabæjarklaustr ætti eggvarp í Kúðafirði, en draghrís í Búðardal; hann er mestu hvar stendr[1]) Hraunsá, nú eitt pláss fult af mela og sandbujótum og lítilfjörlegu lyngi. Þessi bók mun nú ekki meir vera til (sem var þó mikið rör), því þá var hún farin að trosna til blaða [þegar eg sá hana], en ekkert er þar [af] uppskrifað; eg trúi það væri membrana, er góð voru í skóbætur; af hverjum eyjum allar eru nú burt utan ein, sem er hár sandhóll, og heitir Melkinn. Þá var þar kaupstaðr, sem heitír Kúðhólmi í útsuðr af Ásum í Skaptártungu, og í sandhrauni þar fyrir sunnan er enn að sjá búðanna grundvöll og undirstöðusteina og heitir það Búðarhraun; skiphald af járni hefir og til skamms tíma sést í Kúðhólma og annað við Kerlingardalsá. Áminst fljót sprettr fyrst upp í Bláfjalli; í það renna Leirá item Baugadeild, tvær stórelfur slæmar og opt ófærar; á milli þeirra er einn hólmr, sem var lamba afréttr; drap þar hlaupið úr Kötlugjá 150 lömb, sem öll flutu með því í sjó. Ítem rennr í Kúðafljót vatnsfall[ið] Landá. Sagt er að tveir menn eitt sinn hafi róið til fiska suðr í firðinum, hvar útræði skuli hafa verið, og þá yfir fallið stórveðr, en komizt þó af með naumindum, og móðir þeirra hér fyrir lagt á fjörðinn, hvort fjörðr eða

[1]) þ. e. á uppdrætti séra Sæmundar.

fljót yrði, skyldi einginn í deyja. Þetta er lygilegt, en ei verðr öllu neitað, sem heyrist um soddan í gömlum sögum, þó nú sé það ómögulegt».

Þó að sumt standi hér ekki alveg heima hjá séra Sæmundi er þó Kúðafljóti og hólmunum og þar í kring lýst svo, að varla mun miklu skeika, og er sögn þessi öll merkileg, og því er þetta bréf tekið hér, að sögusögn þessi um fljótið mun vera forn, og er bréfið því ekki alls ómerkilegt fyrir lýsing og sögu héraðsins.

Það eru rök til þess, að Meðallandið hefir nú um langan tíma legið mjög undir eyðing af vatnagangi. Í Leiðvalladómi þeirra Þorleifs og Þorsteins Magnússonar sýslumanna í Skaptárþingi frá 15. Maí 1643 er þess getið að Lyngakvísl, sem félli úr Landá nokkru fyrir ofan Leiðvöll og þar sem áðr hafi verið hlaðinn í garðr þá fyrir nokkrum árum, hafi fallið suðr í skurð þann er geingr suðr eptir Odda og Grímsstaðalandi, og hafi stórskemt þær jarðir. Er þar dæmt öllum héraðsmönnum skylt að stífla kvíslina fyrir ofan Leiðvöll og þeim að leggja til manu, er ekki geti farið sjálfir. Var dómrinn samþyktr i lögréttu við Öxará um sumarið (IBfél 125. 4to). Nú á dögum hleypr Kúðafljót opt á Meðallandið á vetrum.

Eptirskrifuð orð eru útskrifuð og fundin úr gamalli þykkvabæjarklausturs máldagabók.

Hallgeir Andresson ábóti á þykkvabæjarklaustri anno Mcccl auglýsti öllum höfðingjum saman komnum á nýjársdag við þat stóra gestaboð, sem gjört var af þeirri heilögu Birnu abbadís á Kirkjubæjarklaustri.

Þetta segir hann a kirkian a munkaklaustrinu þykkvabæ, nefnilega klaustursins heimaland allt að Kúðafirði. alla höfnina Sæluvík. þriú örskot frá siálfri ser til austrs. hálft fiorda til landnorðrs. fiögur til norðrs, fimm til útnorðrs.

til vestrs allt at Höfðafirði.

til suðnrs landsuðrs ok útsuðrs allt land í sió.

hún á smá ok efri dali í Höfðabrekku landi. ok alla skóga at Skálarhraunum.

gefr ábótinn þeirri heilögu kirkiu á Kirkiubæ. Brandaland allt frá Skaptá at Brandalands kvísl.

Kirkian á ok allar eyiar í Kúðafirði.

halfan reka við Ingólfshöfða. alla tuttugu álna hvali ok stærri á Búlandsfiðru.

---

## B.

Landskjalasafn Íslands III. 145 fsk. d., og er hér fylgt afskript Cand. theol. Hannesar Þorsteinssonar. Þessi danska þýðing bréfsins er einkennileg að því, að hér er Jón Bergsson sem einn af

afskriptavottunum, en í A er hann nefndr Illugi Bergsson. Einnig ber hér að öðru leyti alt að samma brunni sem fyrr er getið, því að hér enda vottorðin um bréfið með Bjarna sýslumanni Nikulássyni og rekr því helzt að því, að hann megi hafa vitað eitthvað um samsetning þessa Birnubréfs.

Efterskrevne ord ere fundtne og udcoperede af een gamel Tijckvebæis Closters Jorde Bog.

Hallgeir Anderssen Abot paa Tijckvebæis Closter Anno 1350 gior kundbahrt for alle forsamlede fornemme Mænd paa Nyt Aars dag i det store Giestebud sem giort war af den h:[1]) Birnu(!) Abbadijs paa Kijrkebæ Closter.

Dette (siger hand) tilhörer kirken paa Munke Closteret Tijckvebæ nefnl. Clostersens hiemmeland alt til Kaudafiord, al hafnen Sæluvijk 3 bueskud fra sig selv imoed Østen, 3 og halv Nordost, 4 til Norden, 5 til Nordvest; til Vesten alt til Höfdefiord; imoed synden, Sydost, Sydvest alt land til strandbredden.

Den tilhörer Smådale og Efredale i Höfdabreckuland og alle skove til Skålahraune.

Giver Aboten den hellige kirkie paa Kyrkebæ Brandeland alt fra Skaftaa til Brandelands kvisl.

Kirken tilhöre og alle Øer paa Kaudefiord, og halvparten af det som driver af söen ved Ingolfshöfde, alle tiuge alen lange hvale og mindre paa bulands strandbred.

Dette er Reet udcoperet efter de gamle ord som os forekomme, det vidne underskrevne ved Berrefiord d. 12(!) Febr. 1735.

Jon Gissursson Gunnlauger Oddsson.
m. e. h. Olafer Eireksson.
Jon Bergsson.
Eiolfer Arnason.
m. e. h.

Rett efter denn attesterede Copie translatered, testerer Biarne Nicolasson.

---

## 529. 2. Juni 1350. i Björgvin.

Magnús konungr Eiríksson stefnir utan átta bændum fyrir norðan land sakir mótþróa við Orm Ásláksson biskup á Hólum.

Frumbréfið er á skinni í Biskupaskjalasafni Íslands Holens. Fasc. I, 1; innsiglalaust; (afskr. Pálma Pálssonar); er þetta elzt konungsbréf til Íslands, sem nú er til í frumriti. AM. Dipl. Isl. Fasc. LXVII, 8, transscriptum á skinni frá 30. Júlí 1542. Bisk.

[1]) þannig skammstafað.

Nr. 2. Fol.; AM. Dipl. afskrr. Nr. 5864 og er sú afskript gerð eptir transskriptbréfinu; AM. Dipl. afskrr. Nr. 585 eptir transskriptinu, sem Árni fékk frá Ragnheiði Jónsdóttur. Bréfið er prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 433—35. þetta bréf byggist að nokkru á samningunum milli erkibiskups og konungs frá 30. Aug. 1337 (Dipl. Isl. II, 458).

Datum 1350. Magnus konongr a xxxª oc eino are[1]).

Magnus med guds naad Noregs suÿa oc skane konongr. Sendir allum monnum j hola biskupsdøme a jslande þeim sem þetta bref sea æder høÿra. Q[uediu]. G[udz]. oc sina.

ÿmisir goder menn hafua teet oss oc varo rade nu nerstom er ver sealfuer varom j biorghwin ÿdra miok hardligha framfærd oc mest haskaligha till ÿdra saalo ef sua sanprofuazst sem oss er kunnigt gort at þer hafuer med sambæillde oc ofmÿkli dirfd j olÿdni fallet mote guds Ret oc heilagre kirkiu j þui at þer hafuer a almennilægho þinghi samtak gort mote ÿdrum andlæghom fædr oc formanne heilager kirkiu sem [er] var kære vin virduleger herra ormer med guds nad biskup j holom sua at þer vilir Rada hans færdom oc folke þen tima sem hann skall ÿder heilagrar kirkiu oc kristinsdomsens embætte veita.

Nu saker þes at oss hôfuer med engo mote þuilika olÿdni þola oc allra sist at Rett kristni oc heilagrar kirkiu frealsi minki æder kræinkizst a varom timum. þui biodom ver ÿder allum samman ok serligha huæirium j sin stad. at þer værir j allre þeiri lagha lÿdni vider herra orm firr næmfndan oc adra lærda menn oc hans vmbodesmen her j biskupsdømeno sem hola kirkia oc hennar formen oc lærder men hafua her till haft fyr mæir a daghum vara forælldra konongha j Noreghi med allum þeim fridi oc frealse sem kirkian a holom oc hennar formen hafua haft her till. fÿr en þer bÿriade þessa olÿdni ok biodom ver fullkomlægha benedict kolbeinssÿni oc kolbeini sÿni hans. geira at søÿlu. nikolas a flatatungo. arna. a. sÿlfreksstadum. maghnusi .a. swalbarda. sigurdi maghe hans. petre logmanne oc kalfue brødr hans. at þer komer till vaar æder vars drotzsæta j Noreghi j fÿrsta skipi sem gengr af islande fra þeim dæighi sem þer hafuer seet ædr høyrt þetta vart bref oc suarer Retto oc takir rett æptir landz loghum. vm þau ÿdur maalefni sem fara millum herra orms biskups oc

[1]) Aptan á bréfinu.

ydar. vitande till sandz at ei þer hindrir hola kirkiu frealsi æder herra orms biskups Rentor æðr ingiolld tiundir æder adra luti sem kirkiuna j holom vardar hædan j fra till þes daghs er þet er ordæilt millum ýdar her j Noreghi firir kirkiunnar formanne j Nidarose oc firir varom drotzsæta oc Rikissens Rade. ef mer sialfuer erom æi jnnan landz. at þeir allir sem j þui samhælldi ero. oc sua þer firr næmfndir menn ef þer firir nemizst at koma till Noreghs oc swara retto vm þessor maalefni at huar einn af ýder. skall suara fullri landrada sok vider oss oc kirkiuna j Noreghi.

Þetta bref var gort j biorghwin halfwm manade firir Botolfs voku a. þretugta oc einu are Rikis vars. herra arne aslaksson kanceler vaar jnsiglade. oss sealfum hiauerandom.

---

530. 28. August 1350. á Grenjaðarstöðum.

Þorleifr Bergþórsson, Böðvar Þorsteinsson og fjórir menn aðrir vídímera rekaskrá Möðruvallaklaustrs frá 1296 (Dipl. Isl. II, Nr. 161).

Landsbókasafn Nr. 115. 4to II. 239 (bréfasafn séra Jóns í Hítardal).

Þesse rekaskrä var upp lesin a Greniadarstodum in festo Augustini episcopi og saman boren vid þa ellstu Holaskrä oss hiäverundum og aheirundum. settum vær þorleifur Bergþorsson. Bœdvar þorsteinsson. Jngemundur Jonsson. [prestar]. Kolbeinn Benediktsson. þordur Flosason. Stigur Jonsson leikmenn vor jnnsigle fyrer þessa skrä Anno Domini M. ccc. l. är.

---

531. 1350.

Bréfságrip um Héðaralón og Einholt á Snæfellsnesi.

AM. 252. 4to bls. 50, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 10, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. Dipl. afskrr. Nr. 1542 og Nr. 1631.

Hiedara lon[1]).

Þordur Flosason sellde Asgrijme abota Hiedaralon firer Eýnhollt anno 1350.

[1]) 430.

532. [1350].

Skrá um nokkur fylki og lönd, er heyra til féhirzlu Noregs konungs.

Jón Sigurðsson hefir ætlað, að þetta væri skrá um þau lönd, er Magnús konungr Eiríksson ætlaði sjálfum sér, þegar hann fékk Eiríki syni sínum Svíþjóð og Hákoni Noreg 1350 (sbr. Lögmannsannál og Flateyjarannál). AM. 157B. 4to bls. 64 skinnbók frá c. 1460; AM. 281. 4to bls. 188 á pappír skr c. 1680.

Aull finnmork. halogaland. navmvdaler. nordmære. ravmsdalr. svnnmære. nordfiorduar. svndfiorduar. sogn. uors. haurdaland. hardangur. agder. utan þat liggr til tvnbergis. fiehirdzlu. þar med grændland. island. færeyiar.

Þessi lavnd oc fylke. heyra til noregs kongs fiehirdslu. med aullum skauttum oc skylldum[1]).

---

533. [1350].

Réttarbót Magnúss konungs Eiríkssonar um lausamenn.

Thott. 2106. 4to á pappír c. 1750 a) bls. 97—99, b) bls. 333—34, skr. c. 1650. AM. 60. 8vo bl. 32—33 á pappír frá c. 1690 «vtgefin . . . 1530», sem kynni að vera ritvilla fyrir 1350. Að öðru leyti getum vér ekki að svo stöddu gefið frekari upplýsingar um þessa réttarbót.

Réttarbót Magnúsar kóngs[2])

[Magnús með guðs miskun etcetera[3]).

Nú eru þat lausamenn, sem tíund gera til þriggja hundraða

---

[1]) 157 hefir «hier hefur upp sa[ktal]», því að á eptir kemr saktal úr Jónsbók. I AM. 281. 4to bls. 189, sem er á pappír, en kynni að stafa frá Hauksbók í fyrstu, stendr þetta fylkjatal í Noregi (sbr. Dipl. Isl. III, 13):

Filke i Norege.

1. Haleigia filke. 2. Naumdæla fylke. 3. J Þrandheime eyra filke. 4. Sparbyggia filke. 5. Stiordæla filke. 6. Skauna filke. 7. Verdæla filke. 8. Strinda filke. 9. Gauldæla filke. 10. Orkdæla filke. 11. Nordmæra filke. 12. Sunnmæra filke. 13. Firda filke. 14. Fiala filke. 15. Signa filke. 16. Hörda filke. 17. Rygia filke. 18. Egda filke. 19. Austur Egder. 20. Vestfold. 21. Vingulmerk. 22. Ranrijke. 23. Raumarijke. 24. Heidmerk. 25. Hadaland. 26. Ringarijke. 27. Gudbrandsdaler.

[2]) Eiríkssonar Svíajarls b. v., b; [3]) [sl. b.

ok úr því skulu eiga v^c ok þaðan af meira búlausir ok ógiptir, þeir skulu gjalda kongi skatt .xx. álnir á hverjum misserum fyrir þat þeir meiga at ósekju fara með kaup sín ok varning sunnan lands ok norðan, austan eðr vestan. Þær xx álnir heita lausamannatollr; ei er lausamaðr ella.

Nú eru þeir menn, er minna fé eiga ok þó lausir séu skulu búðarmenn heita eðr sjómenn, þeir skulu kónginum þá hlýðni sýna, at selja honum eðr hans umboðsmanni þar hvat sem þat er þeir hafa til sölu af þarfindum ef hann þat girnist fyrir jafn[t] verð ok aðrir bjóða, ella skulu þeir bændum þjóna ef með þurfa. En ef þeir vilja þat ekki heldr liggja með ómensku missi húðina ok útlægir úr sveitinni, nema sá vilji meiri miskun á gera, er vort vald hefir ok vér setjum til, þar at auk hver þá hýsir eðr heimilar annan veg í mót voru bréfi svari oss fullri sekt ok bréfabroti.

## Lagfæringar og viðaukar.

Bls. 1—5 Nr. 3. Séra Eggert Briem ætlar að með »þverárfundi«, þeim sem hér er nefndr, kunni að vera átt við landamerkjafund, er haldinn hafi verið að þverá og þykir mér það allsennilega til getið. þess skal geta, að þar sem ð kemr fyrir hér í prentuðu skránni, þá ætti þar að standa d. — 23. skipan Árna er prentuð í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 49—54 eptir AM. 351. Fol. og 175. 4to en ekki AM. 671. 4to. — $26^{7}$. sækingar les særingar. — $42_{7}$. skiptaboðinu l. skriptaboðinu. — $47^{11}$. yfirvald l. málsaðila. — $51^{4}$. Form. xiv. l. Form. xv. það getr verið efamál, hvort sumt af þessum forsögnum (Nr. 10) eigi við þessar skipanir Árna biskups; mætti ef til vill heimfæra nokkrar þeirra til skipanarinnar 1275. — $54_{5}$. neðanm. [12]), l. [13]). — 55. $vi._{4}$, l. skipan Alexanders III. 1125, l. skipan Alexanders III. 1180. — $62^{11}$-$^{12}$. siñ buñyñga huorñ, er líklega rétt lesið svo: sinn búning á hvoru. — $66^{8}$. »(= Garðabók)« á að falla burt. — $68_{2}$. nm. [6]) og, l. [5]) og. — $71^{1}$. miilvm, l. millvm; $_{10}$. n. fiordungur, l. fjórðungur; $_{9}$ n. flordungur, l. fiordungur. — 77 nóta [6]) 268, l. 238. — $80_{10}$. esivhergs, l. esivbergs. — $83_{10}$. hvaleka, l. hvalreka. — $84_{2}$. smlellta, l. smellta; — $84^{20}$. 1238—1302, l. 1258—1302. — $87^{12}$. »j holmi«, virðist vera ofaukið og er slept úr hinum síðari máldögum Oddastaðar. — 88—90. þess skal getið, að það er mishermt, að síðari kafli rekaskrárinnar sé í eldri hluta handritsins AM. 276. 4to; hann er einungis í yngra hlutanum frá 1446, en eingu að síðr er hann langtum eldri en það ár. Síðar hefir skráin og verið tekin upp í máldagabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar. Á Öxarárþingi 1782 kom fyrir ágreiningsmál milli Ljósavatnskirkju og Hálskirkju í Fnjóskadal um reka í Náttfaravíkum og höfðu menn þá skrá þessa með höndum, en þótti vanta skilríki fyrir ýmsum örnefnum og svo fyrir því, hverir þeir þorljótr og Gunnsteinn væri (Lögþb. 1782 bls. 35—37), og árið eptir var sæzt á málið þegjandi (Lögþb. 1783 bls. 62). Séra Eggert Briem hefir nú bent mér á að rekja má gerr, en eg gerði, ætt Gunnsteins Hallssonar föður Vigfúss, og að faðir hans var Hallr Gunnsteinsson á Einarsstöðum, þórissonar, en Gunnsteinn þórisson átti Hallberu dóttur þorgils Oddasonar; er Gunnsteins getið í Hvammsbrennu vestra 1160 (Sturl. I, 41); þorgils sonr Gunnsteins varð ílendr vestra og svo ætlar Eggert prestr að Hallr hafi orðið, því að börn hans sé vestra; ætlar hann því heldr að Gunnsteinn sá og Jóreiðr sú, sem

skráin nefnir, sé af þeirri grein þessarar ættar, er orðið hefir kyrr í Reykjadal. — Bls. 90[12]: gerð; l. gerð, 90₂: skeliahamars osa l. til skeliahamarsosa; 94[3]: 687 l. 689; 95₄. erkiþiskupi l. erkibiskupi; 96[3] meir l. mier; 104, nóta. [7]) [cum . . . l. [8]) [cum . . .; 116[5-6] alltarstein l. alltarisstein; 116₆. Það er einkennilegt, að hér er nefnd Akrey, sem klaustrið keypti ekki fyrri en 1360 (Dipl. Isl. III, Nr. 110), og verðr það að vera yngra innskot, því máldaginn ber það með sér, að hann er eldri en frá þeim tímum og telr meðal annars ekki Höskuldsey, sem klaustrið fékk 1280; 118[6-7]. sundeyiar l. sandeyiar; 119[12]. gauta dals l. gautudals; 123₁₁. 54 l. 56; 124₁. flordung l. fiordung; 126₁₄. Q[ediu] l. Q[uediu]; 134—137. Formálar þessir eru ennfremr í skinnbókinni AM. 175A. 4to bls. 70—72, en eru þar litlu réttari en í AM. 350. Fol.; þetta er helzti orðamunr: I₁. Cum incontinencie crimen quod carnis; ₃ (bls. 135) submittendo slept; et: te; ₄₋₅ admitti. II, ₄ in hac parte felt úr; IV, ₁ de felt úr; ₃ dic[t]a ritað hér dica (= dominica?). V (bls. 136)₃. contaminacione spiritualis cognacionis; ₅. hac parte (eins og leiðrétt er); seinni partr þessarar forsagnar er með annari hendi; ₁₂. tuum felt úr; domine tue; ₁₃. inimicus (eins og leiðrétt er); eptir in eo er þessu bætt inn: »efíñ n. e« og að niðrlagi: p. t. et cetera. VI, ₃. qui pius passus; in c[ruce] p. fyrir: in hac parte. VII, ₂. manifestus es; IX, ₆. sancta (S[1]) slept. X. formálann vantar í handritið. 141₉. cononicorum l. canonicorum; 143₁. dyoeesin l. dyocesin; 145₁₆. leceat l. liceat; 149₉. aðri l. aðr; 158[4]. mann l. manna ailuollum l. ailauollum; 163₈. skal fyst l. skal honum fyst; 168[11]. melrakkahelgi l. melrakkabelgi; 170[15]. kiarnarhafrar l. kiarnhafrar; 171₆. Detthards l. Detthardings; 192[8-9]. nocholai l. nicholai. — 217—219 (Nr. 94). Klausa þessi úr ritum Gotfreðs er merkileg, því að nú þekkist ekkert í ritum hans prentuðum, er svari til hennar (rit Gotfreðs eru í Jacobi Sirmondi Soc. Jesu Presbyteri Opera varia Venetiis 1727, III, 404—657). Nr. 85 er prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 498 neðanmáls og er þar eignað Eilífi erkibiskupi; bls. 234[13]. Vn l. Vm; 235₁₄ og 236[3-4]: eg hefi lagt funes balenarum út með hvalseymi, en réttara held eg þó nú sé að þýða það svarðreipi; 237[1], aposticam l. apostolicam; 237[10] Sohorciasupi l. Schorciasupi; á bls. 239 hefir blaðsíðutalið misprentazt 339; — 242[16] skyrktu l. styrktu; 250₁. stapa á að falla úr; 251₁₄. staðamá l. staðamál; nóta [4]) l. [3]); 264[2]. godz l. gudz; 266 nóta 2. þar hefir misprentazt vt fyrir vc. Af Árna biskups sögu er svo að sjá sem það hafi þótt nokkuð ótrúlegt um tíund herra Þórðar og Jóns lögmanns: »lézt þá hvárr þeirra tíunda fimm hundruð hundraða«; mætti ætla svo á, að hvor þeirra hafi átt í núgildandi fé hér um bil 75,000 kr. — Bls. 270 Nr. 146. Þess skal geta, að þetta skjal er mjög líkt því, sem stendr í dómi Ara lögmanns Jónssonar frá 30. Júní 1531 um vinnufólk og lausamenn; er því annaðhvort, að Ari og dómsmenn hans hafa haft fyrir sér fornan dóm, eða þá að þetta er ágrip úr Aradómi, og gæti ef til vill legið eins nærri að ætla það, en þá var dómr Ara ekki rannsakaðr til hlítar, er þetta skjal var prentað, og

því fór eg þar eptir ætlan Jóns Sigurðssonar. Þó skal þess geta að Ari fer stundum eptir fornum skjölum, nefnir t. a. m. gamla Sáttmála í einum dómi sínum, og er slíkt fátítt. — 280 neðanmáls l. $_{2}$. salua l. salue; nóta $_{21}$ natuitatis l. natiuitatis; 285 § $2^{1}$ orðið maðr falli úr á síðara staðnum; $304^{6}$ lahorihus l. laboribus; — 304—314. Þess skal getið, að séra Eggert Briem hefir haldið því fram, að Sighvatr Hálfdánarson muni aldrei hafa búið á Grund í Eyjafirði, þótt svo hafi áðr talið verið (Tímarit Bókmfél. IV, 121—122). Hann hefir því tjáð mér að sér þyki það ólíklegt, að það muni vera Sighvatr Hálfdánarson, sem nefndr sé í rekaskránni, heldr sé það ókunnr maðr nokkur í Þingeyjarsýslu. Eg skal ekki þrátta um þetta, en láta hvern hafa á því þá skoðun, sem honum þóknast; $304_{10}$. 1286 l. 1386; 306 nóta 3. afskreidzla l. afreidzla; 307 nóta 16 kalf(ktapa) l. kalf(stapa); $309_{10}$. ada l. eda; 311 nóta 14, það er líkast, að klausan um Hólareka, sem neðanmáls er tilfærð, sé ekki annað en afbökun og að Gulltings (Gullteigs?) sé mislestr fyrir Salltnes; $320_{3}$ AM. 76. 4to l. AM. 276. 4to; $324_{11}$. gud l. guds; $326_{5}$. hafa haft l. hafa halft; $328^{11}$. mandatum l. magnatum; 339 nóta 1: Michaels l. Michaelsmesso; $342^{12}$ smágreium l. smágreinum; 343 nóta 3: 3260 l. 3269; $354^{16}$. skiptamál l. skríptamál; $355^{6}$. gjalftollr l. gjaftollr; $359_{14}$ í Gilsbakkamáldaga: og ej fiskveide, á að skilja og lesa: og ij (= í) fiskveide, og 11 línum neðar á að standa Hexstöðum (= Heggsstöðum) f. Hrexstöðum; $367^{17}$. insigligi l. insigli; $374_{14}$. [half c a af .s. á að vera: hálft annat .c.; $375^{5}$. firodungi l. fiordungi; 377 Nr. 209. Eg hefi stungið upp á því að Helga, sem nefnd er í Nesmáldaga, kynni að vera systir Árna biskups Helgasonar og hafa verið kona Finns sonar Bjarna(r) Hamra-Finnssonar, en séra Eggert Briem hefir bent mér á, að sá er gallinn þar á, að þau væri þá að öðrum og þriðja hjónin:

Hamra-Finnr
|
Bjarni (Björn) — Guðrún
| |
Finnr — Helgi Loptsson
|
Helga.

382 § 1. l. $_{5}$. skal hon, stendr svo í handritinu og er það að vísu annaðhvort ritvilla eða þá = skal hann, eins og í sumum norrænum mályzkum; 391 § 7 $_{2}$. sýlumanni l. sýslumanni; $392_{13}$. flestir l. festir; 393 § $16^{3}$. óðt l. óðr; $406_{1}$. Árni l. Árna; 407 Nr. $229_{1}$. Steingrímsfirði l. Bjarnarfirði. Þess skal geta um Nr. 230, að Steingrímr biskup hefir á einum stað heimfært þenna Tungumáldaga til 1305, en eingin rök vitum vér fyrir því, hversvegna hann gerir það; 408 nóta 1, postulu l. postula; hun 262 l. hun á 262; nóta $^{3}$) gautada l. gautadal; nóta $^{6}$) 368 l. 268; 409. nóta $^{5}$) 252 l. 262; $417^{13}$. AM. 138 l. 238; $417_{5}$. Mgl. l. Ngl.; 422. nóta $_{4}$) ákyrgist l. áhyrgist; $434^{17}$. af Liotasandi l. á Fliótsandi; $435^{11}$. Gradull l. Gradall; $437_{15}$ santis l. sanctis; $443_{6}$. fiardar Bolz l. fiardar Botz; $444_{6}$. messufat l. messufata; nóta $^{3}$) l. $^{2}$);

$446^{6}$. SundBrecka l. Sund. Brecka; $446^{12}$. grundamenn l. grundarmenn; $447_{17}$. Eýiarstvf l. Eyrarstvf; $449_{9}$. professionale l. processionall; $471^{4}$. þrennur l. þremur; $472_{14}$. Bollastadi l. Bottastadi (= Botnastaði); 473 nóta 1 hætt l. bætt; $475^{5}$. úr Hjaltabakkamáldaga er þetta fallið í prentaninni eptir orðin fra Blonduosi: oc ã motz vid Giliármenn. alla þa halfa veydi j blonduosi; $484_{7}$. Brandgils l. Brandagils; $485^{7}$. er ecki skyllda, stendr svo í hdr., en á víst að vera: en ecki skyllda; $485_{11}$. XCVIII l. XCVII; $491^{6}$. hafi l. hafa; $498^{6}$. ferelldri l. forelldri; 512. Nr. 355A. Þetta latneska brot er og áðr prentað í Norges gl. Love IV, 604 í nótu og les Dr. G. Storm í upphafi síðustu greinar in ipsum sanguinem, og má vera að það sé fult svo rétt; 4. og 5. neðanmálsgrein hafa skipt um sæti í prentaninni; 563 nóta 43 hand- ofaukið; 540 § $3^{3}$. setia sitia; 544 § $27^{3}$. hueysla l. hneysla: $561^{4}$. allaris- l. alltaris; 562 § $23^{1}$. messfotum l. messufotum; 563 § $3^{3}$. Biikupe l. Biskupe; $564^{15}$. skyrti l. skyrt; 572 § $4^{1}$. curum l. curam; § $8_{4}$. fôdarlaus l. fôdurlaus; $576^{4}$. ætti oc milli: Skälavijkur oc gnups, ekki að falla úr? — 677. ártalið í efra kjalhorni blaðsins á að vera 1325. Bls. 578 Nr. 360. Niðrlag Svignaskarðsmáldaga mun vera frá dögum Árna biskups Helgasonar, því að Kolbeinn Þorgilsson er nefndr í bréfi einu gerðu í Borgarfirði 18. Mai, 1417 og bjó hann á Borg á Mýrum. Það er því rangt að kalla hann Gilsson; í 5. l. að ofan á þessari bls. á að standa diupavadz fyrir diupvads; 581 nóta: ³) l. ¹); 590. nóta ²) [høfir l. [hefir; $594_{3}$. vera alla l. ver alla; $607_{2}$. sacrinam l. sarcinam; $610^{14}$ impose l. imposite; 617. í Árnesmáldaganum l. 16. o. kertistikur. ij. onnur læst. kross. l. kertistikur. ij. oc onnur læst. kalek. kross.; l. 24. o. fliutar, hefir upphaflege verið misskrifað fluttar, en svo verið skrifað ofan í það og átt að gera úr því fliota; l. 2. n. vidrif l. vidirif; $621_{5}$. Gunnlaugr l. Guðlaugr. Í Nr. 381, þar sem eg hefi gert tilraun til þess að ættfæra Einar auðmann og syni hans, þá hefi eg að vísu farið rétt í því, að hér væri fyrir ætt Jóns Brandssonar á Stað, en hefi þó ekki séð þetta nógu réttlega. Þar á móti hefir lærðr maðr, Eggert prestr Briem, sýnt mér fram á það, að Einar auðmaðr bjó í Vík út frá Stað í Reyninesi 1239 (Sturl. I, 383) og 1246 og átti Ingibjörgu Bergþórsdóttur frændkonu Þórðar kakala, og hét Brandr sonr þeirra (I, 72); hefir Ingibjörg verið dóttir Bergþórs Jónssonar, Brandssonar. Ættin sést bezt af þessari töflu:

Jón Brandsson
|
Bergþór Jónsson
|
Einar auðmaðr ∽ Ingibjörg Bergþórsdóttir
|
Brandr Einarsson. Bergþór Einarsson. Þorgrímr Einarsson.

$623^{6}$. dǫgundardals l. dǫgurdardals; $626_{13}$. porsonur l. personur; $630^{4}$. Vilhjalmi af Færeyjum, stendr í skinnbókinni, en það er villa og ætti að vera Vilhjálmi af Orkneyjum, því að Signarr er biskup á Færeyjum 1327; 631 § 4 síðustu línu: ⁸) l. ⁷); 635. nótan: pítallagðr mun vera réttara

en pírallagðr; 642 Nr. 389; dagsetning þessa bréfs mun vera réttari 9. Maí en 7. Maí; — 651 Nr. 399. Það eru rök til þess, að menn hafa á Íslandi á 16. öld borið þessa réttarbót fyrir sig, svo sem gert er í bænarskrá þeirri, er Jón lögmaðr Jónsson bar fyrir Kristján konung fjórða af hendi landsmanna 1592; — 664[11-12]. til forsia ætti að vera oc forsia; 665[12]. xiij manada ætti að vera xij manada; nóta [6]) 362 l. 262. Þess er að geta um skóga þá sem hér eru eignaðir Hrunakirkju, að sumir þeirra hafa heyrt til hinum svo nefndu Austrskógum í Árnessýslu, sem flestir voru í Þjórsárdal, en Þjórsárdalr fór af að mestu litlu fyrir miðja 14. öld, nema Sandártunga, sem var enn bygð 1615. Brynjólfr Jónsson frá Minnanúpi hefir í Árbók hins ísl. fornleifafélags 1884—85 bls. 38—60 ritað greinilega skýrslu um Þjórsárdal. En til eru skrár yfir þessa skóga og örnefni í Þjórsárdal, sem skýra bæði Hrunamáldaga og hafa fjölda af örnefnum, sem eru ekki kunn annarstaðar frá; er eldri skráin gerð fyrir 1587, því að hún hefir staðið í bréfabók Gísla biskups Jónssonar, og er án efa gerð um hans daga (1555—1587), og er hún nú til í afskript staðfestri í Skálholti 1629 af Oddi biskupi og sjö mönnum öðrum (AM. 261. 4to bls. 140—42); hún er rituð með hendi séra Vigfúsar Illugasonar þá dómkirkjuprests í Skálholti, og er hún á þessa leið:

Skogaheiti og þeirra takmørk fyrer nordan Skridufell: Skrifud epter Brefa Bok herra Gijsla saluga B[iskups] Jonssonar.

Þetta eru skoganôfn og skogamôrk fÿrir nordan Skridufell. so sem hier epterfÿlger.

Fÿrst Dimon.

Stein[s]holts skogur ad tuemur klettum jardfaustum.

Þa Hamartorfa fyrer nordan kaullud er Oddgeÿrsholaskogur vnder nordare auxlinne â Dimon.

Þa Hâfhollts skogur.

Þa eru Aslakstungur sem stadurinn â. Sagt er ad Holastadur eigi þar elldevidar tak i.

Þa Hlÿdartorfa.

Þa Bæiartorfa.

Fagre skogur og Brúna skogur vestann frâ og nordan fra: a stadurinn allt saman.

Berghâlstader og âtte þrandarhollt halfann.

Lieþrælar i Reykiahollte og â stadurinn.

Þa er Gieldingahollts skogur fremst i fossârdal fyrer vestan ana. þar fyrir nordan og vestan âna â stadurinn lika allt saman.

Jtem fyrer nordan þar jnn i fossârdal â stadurinn og lijka allt saman. vtan Brassholltstorfu og Neistastada torfu.

Jtem austur frâ er Lepparstadar skogur.

Enn austur frä nordur med Holltamanna ä er kalladur Hiallaskogur og ä stadurinn.

fyrer austann Holtamanna ä fremst næst vijkinne er Langhollts skogur i floa. med rôdrunni[1]).

þa Gjäskogur.

Jtem Steinastada skogur. millum Holtamanna är og Raudarär[1]). hann allann ä Holastadur.

Enn fyrer nordan Raudä[1]) er Kalldnesingur og ad gautum þeim sem liggia vpp ä Sandafell.

enn Austur frä þeim gautunum j krijngum Sandafell. nordur ad Skumstungu eru Bläskogar. med þeim flautunum sem ad äfastar eru fÿrer framan.

Jtem Asskogar aller fyrer sunnan med änne eru allt stadar skogar.

Jtem fÿtia skogar fremre. allt stadar skogar.

Enn nÿrdri fÿtia skogar ä stadurinn hälfa. enn Kielldur halfa.

þa er þar fyrer nordan Krekluskogar. heÿra stadnum til. enn sumer seigia almenning.

Jtem fyrer framan Sandafell eru Altavôllur og Hellisskogur. allt Hrunaskogar.

þar fyrer framan Hrossatungur hinar nordare. sem liggia vnder Olafsvelle.

Enn fremre Hrossatungur a stadurinn. Sumer seigia Klofe eige adrar.

Jtem alla runna ä S[k]eliafelle. kryngum þad og vppä ä stadurinn.

Jtem vestan til fyrst i Burfelle er Hurdarbaks hrijs. ä stadurinn.

þä Egilstada skogur fyrer ofan gautuna.

þa Grafarskogur. ä stadurinn og Hraungierdingar.

þä Giegnisholatorfa hin nedre er kôllud.

Oddastadarskogur ä Burfellshälse.

þä er þrändvellingur.

þä Sandvijkurskogur ad Storkonugrof. þesser aller fyrer ofan gautuna.

Enn allt austurfrä Storkonugrof og ad Biarnarlæk med torfunne. fyrer austan hann er allt stadarskogur. nema Haursholltstorfa kaullud er hia þiofagile.

[1]) þannig.

Enn fyrer vestan Storkonugrof. fyrer nordan gautuna er Hroasholltingur.

þä Tunguskogur.

þä Mostunahöfde.

þä Miosendis skogur ä Giänum.

þä Stoxeyringur.

þä Kalldnesingur vestast.

þä Hornid. Fossrofur og Tungurnar bädar. ä Stadurinn.

þä er Oddaskogur. fra Sandatungu og ad Vatsgröf og ad gautunum.

Jtem Saulmundarhollt ad Nupä. enn fyrer nordan gautuna þordarhollt. Nupur ä hälft enn Steinshollt hälft.

Fyrer vestan þordarhollt er minne Mostunahöfde og Hælsrofur. Sandlækiartorfa og Hofs skogur.

Neðan við stendr þetta og eru nöfnin öll eiginhandarrit:

Riett copierad eptir þuj sem sera Snæbiörn Stephansson sende i Skalhollt Anno 1629. Og til sanninda hier vmm vnderskrifum vier vor nöfn med eigenhende j Skälhollte 14 dag Februarij Anno 1629.

| | |
|---|---|
| Oddur Einarsson med ejgen hende | Arne Oddzson med Eigin hendi. |
| S. Vigfus Jllugason med eigenhende | Jon Gyssursson med Eiginhendi. Ketill Jörundsson med. E. H. |
| Eirikur þorsteinsson med Eiginn hende | Pall Gunnlaugsson Med E. hendi. Gudmundur Jonsson med E. hendi. |

Aptan við þessa afskript kemr í bókinni endrrit af þessu skjali og eptir þessari afskript gert á Leirá 3. Nóvember 1642 og vottað af Árna Oddssyni, þórði Henrikssyni, Nikulási Illugasyni og þórarni Illugasyni.

Hina skrána hefir Oddr biskup Einarsson látið rita 1615 eptir fyrirsögn Brynjólfs Eyjólfssonar bónda í Sandártungu og Páls sonar hans, bónda á Sandlækjarhjáleigu í Gnúpverjahreppi, og er skrá sú færð inn í kver, sem átt hefir Oddr biskup og nú er í AM. 59. 8vo (bls. 85—90). það er frumrit skrárinnar, en hún er svo:

Vmm austurskogana j ärnessyslu firir vtan þiotzä[1]) og þeirra örnefne nordur fra Sandartungu.

Fyrst. hia Sandär Tungu. þar j heima lande er köllud Tunga og Hornn. þad huertueggia eru stadar skogar.

Jtem hejter þar Oddaskogur. hann er strax vid tvnid ä Sandartungu. og vilia prestar j Odda eigna hann Odda kirkiu.

Jtem fyrer nordann fossä. eru hurdarbaks hrijs.

---

[1]) þannig.

Jtem Skieliafell. og ā stadurinn j Skalhollte þad huertueggia.

Þa kallast Eÿgilstada skogur j Burfelle.

Og þa er enn eirn stadar skogur.

Þar næst er giegnishola torfa.

Jtem Stockseyringur fyrer framann gôturnar a halsinum.

Þar næst kallast Giaskogur. hann er lijka firir framan gøturnar.

Jtem Sandvijkingur framan j halsinum. frā timburlæck og ad storkonugrof (enn nu er sagtt þeir vilie hallda Sandvijkur skog leingra).

Jtem nordur med fiallinu fra storkonu grof. og med Biarnalæk. ad stora steininum sem stendur nordur j fiallinu. þad hefur verid halldinn stadar skogur.

Þa er Horshollttz skogur.

Þa eru tuennar Hrossatungur. fremre og nyrdre. sem lijka hafa verid halldnar stadarskogur.

Þessar hrossatungur eru fÿrer austan og framann reidgôturnar. Enn fyrer vestann reidgøturnar er Hellers skogur alltt ad Hola skoge.

Jtem tuenner alftaveller. og eru þeir fremre eignader Hruna enn hiner stadnum j Skalholltte.

Jtem vid āna fÿrer austann alftavelle kallast ārtorfur (og eru lijka eignadar stadnum).

Jtem austann vertt j Sandafelle ero blāskogar. þā ā stadurinn. Enn sumer vilia nu lata þā blāskoga vera Almenninga.

Jtem firir nordann Skumstungur eru tuenner fÿtia skogar. fremre og nordare og eiga Kielldur halfa þa nordare. enn stadur j skalholltte ā þa halfa Og alla hina fremre fÿtia skoga.

Enn nordast eru kallader kræckluskogar. þad vilia menn nu hallda almenninga.

Jtem Kalldnesingur. er framan j Sand[a]felle firir vestann reidgoturnar nordur fra holaskoge.

Þetta sem fÿr skrifad er vmm firr sagda austur skoga. var skrifad j skalholltte 7 dag martij Anno 1615 eptter tilsogn þeirra fedga Bryniolfs Eyolfssonar Buanda j Sandartungu og Pals Bryniolfssonar Buanda j Sandlækiar hialejgu.

Sagdist Bryniolfur nu hafa xij vetur um sextugtt. og lof-

ade mier med handsolum synum vitnisburde hier vppä. nær sem eg villde läta taka hann og vppskrifa eptter hønum eptter þui sem halldid hafe verid j hans minne. og so sem fader hans og adrer gamler menn. hafi sier til sagtt. ad adur hafe halldid verid. og þar lofade hann syn sanninde ä ad leggia eptter sijnum vitnisburde. ad hann visse ecki annad sannara þar vmm. Enn huad huer eige med riettu seigist hann ecki vita oc ecke meiga framar bera enn so sem halldid hafe verid sijdann fyrst hann visse til.

Þar vppa hafde hann handsol vid mig. og var þar vid staddur pall Bryniolfsson sonur hans. og Audunn jonsson. a sama äre og deige sem fyrr seiger.

Jtem sagdist greindur Bryniolfur Eyolfsson hafa bvid v är ä Haga j eystra hrepp. jtem v är allz ä skridufelle. fyrst 3 är. og j annan tijma 2 är. Jtem ä Sandartungum allz xviij är.

Jtem sagdist Pall Bryniolfsson hafa eitt sinn heyrtt syra Stephan Gijslason heima j Odda lesa um þessa austurskoga. bædi um þeirra ørnefne og huad stadnum j Skalholltte og ødrum være eignad. og þad hafde hann presturinn lesid vr einne bok. og þui villde eg fä þad ad vita. eda vtskrift þar af. mier og ødrum til leidrettingar.[1])

Jtem villde eg af tækist eda aflegdist su mickla ovenia vmm sokn oc yrkiu þeirra vr Rangärvalla syslu firir austan þiossä. þar þeir fara ärlega bæde haust og vor j þessa skoga. so sem i adra almenninga. huad mote lykindum er ad þeir mune eiga aller þar tiltølu til med riettu.

Jtem er sagtt ad Gijsle Hakonarson eigne klofa þær fremre Hrossatungurnar. Enn eg veit ecke huad hann hefur fyrer sier þar vmm.

Jtem er sagtt ad steinsholltt eige. halft þordarholltt. og Dimon. fram fra Hamratorfu. Enn halftt þordarholltt ä þiossärhollt.

$668_{15}$. þarlakz l. þorlakz; $674^{3}$. þess má geta um aurn, sem kemr fyrir í Frostastaðabréfinu (415), að á innsigli hans stendr S. ARNI G[UÐMU]NDI, en öll hin innsiglin eru molnuð eða ólæs; $678^{17}$. gess [4]) l. gess [3]); hálfkirkja stóð í Borg undir Fjöllum þangað til nál.

---

[1]) Þetta er án efa skrá sú, sem prentuð er hér næst á undan eptir bréfabók Gísla biskups.

1701, að hún var lögð niðr; — 678—79 Nr. 421: skinnblað það er Arni Magnússon hefir farið eptir er nú meðal frumbréfa í safni hans Fasc. LXIV, 32, og sýnir samanburðr við það að afskript Arna er áreiðanleg í alla staði. Miðbæliskirkja var lögð niðr 1765. — 683$_4$. Séra Jón Jónsson í Miðmörk getr þess í sóknarlýsing sinni 1840 að »nú á dögum viti menn ei hvar Bláfell er«. — 684 Nr. 426 (sbr. Nr. 423 og 425): Séra Jón íMiðmörk getr þess ennfremr í sóknalýsíng sinni, að þessar jarðir hafi farið af í Dals og Merkrþingum: »1. Nauthús hjáleiga frá Stórumörk, 2. Gröf hjáleiga frá sama bæ; 3. Miðmerkr hjáleiga skamt frá bænum; hefir sú hjáleiga lagzt í eyði 1692; hinir tveir fyrrtéðu munu hafa eyðilagzt um sömu mundir eða fyrr; 4. Litli-Murnavöllr eyðilagzt á 17. öld; 5. Dímonarhólmi eyðilagzt á 16. öld; 6. Stóri-Murnavöllr eyðilagðist á 19. öld að húsum, tún og slægjur lagðar til Eyvindarholts, sem hvorutveggja var yrkt, tvö fjárhús eru þar; 7. Lambhúshóll hjáleiga frá Dal, hefir eyðilagzt fyrir Markarfljóti á 16. öld eðr 17du; 8. Ólafshús hjáleiga frá Dal, hefir lagzt í eyði seint á 18du öld; 9. Vestrsel hjáleiga frá Seljalandi, hefir staðið sunnarlega í sandhólmanum, eyðilagðist 1675 fyrir Markarfljóti; 10. Kýrnytarstaðir hjáleiga frá Seljalandi skamt frá hinni, eyðilagðist 1670; 11. Rótabakkar hjáleiga frá Seljalandi skamt fyrir utan selið, eyðilagðist 1688 fyrir Markarfljóti; 12. Hátún hjáleiga frá Seljalandi, eyðilagðist af sömu orsökum á 17. öld; 13. Hvasstún hjáleiga frá Seljalandi skamt fyrir ofan bæinn, eyðilagðist 1635; 14. Setberg hjáleiga frá Seljalandi skamt fyrir ofan bæinn, afbrotin 1635 af Markarfljóti; 15. Forna-Fit, stórbýlisjörð; þar stendr eptir bæjarhóllinn og stórar rústir; eyðilagðist um sömu mundir og Seljalands hjáleigurnar og túnin þar; 16. Hali, stórbýlisjörð, nálægt Hafrshól, eyðilagðist af Markarfljóti um sömu mundir eða 1612«. — 686$^{16}$. tysitollum l. lysitollum; 687$_{12}$. Borgarholt kallast í máldaganum frá 1371 og Wichinsmáldaga Borgarkot; — 695 Nr. 440. Þess skal getið, að þessi Klofamáldagi er í formála fyrir I. bindi af Biskupasögum heimfærðr til »um 1382«, en það sýnist hafa við hálflítið að styðjast, því að Oddgeir biskup Þorsteinsson andaðist í Noregi 15. August 1381 og Michael biskup hinn danski kom ekki út fyrr en 1384, svo að biskupslaust var sunnan á Íslandi árin 1382 og 1383. Ef nokkurt lag ætti að vera á því að heimfæra máldagann til þessara tíma þá ætti það að vera til 1378, því að Michaelsmáldagi er með vissu gerðr 1387, en í honum er reiknuð portio um »ix ár er Þorsteinn tók af Kötlu«. Katla hefir verið ekkja Klofa-Þorbjarnar, en Þorbjörn dó 1373 og hefir þá verið gamall maðr, og gat því vel hafa búið í Klofa 1332, en alls ekki 1382, því að þá var hann dauðr fyrir níu árum. En af þessum máldaga er það auðséð að Þorbjörn er á lífi, þegar hann er gerðr. Það mun því misprentað í formálanum 1382 fyrir 1332. — 701$^{7}$. fimtande rikis l. fimtande are rikis. — 702 Nr. 450. A er einnig prent. aptan við Kristinrétt Árna biskups ed. Thorkelin. Hafn. 1777 bls. 237—40. — 710$_{16}$. erkibiskups l. erkibiskup. —

715[5]. Hákoni l. Haraldi. — 730 nóta [4]) l. [3]). — Bls. 737—40 (Nr. 479), 780—82 (Nr. 503), 784—85 (Nr. 506—507), 851—56 (Nr. 528). Af því af að í þessum máldögum úr Vestrskaptafellssýslu kemr fyrir mart af bæjanöfnum, sem nú eru horfin og vandi er að skýra, hvar átt hafi heima, svo og sökum hins að í Birnubréfinu er farið með mál, sem meta þurfti nákvæmlega, ritaði eg síðla vetrar 1890 Magnúsi dannebrogsmanni á Skaptárdal Magnússyni og bað hann um upplýsingar þær, er hann mætti gefa, og vissi eg hann þá muna leingst fram þeirra manna, er vitrir voru og réttorðir og gagnkunnugir héruðum þessum. Fékk eg skýrslu frá Magnúsi um vorið með bréfi dagsettu á Skaptárdal 14. Mai 1890, og segist Magnús þá vera »kominn hátt á níunda tug yfir áttrætt«, það er að skilja hátt á níunda ár hins níunda tugar (fæddr 1801). En nokkrum dögum eptir að bréfið og skýrslan voru rituð og send af stað til mín tók Magnús sótt og andaðist, svo að eg frétti lát hans með sama pósti og eg fékk bréfið frá honum. Skýrsla Magnúsar er fróðleg og er hún á þessa leið:

Helga Ólafsdóttir. ekkja eptir klaustrhaldara Magnús Andrésson, sem nokkurn tíma hélt Þykkvabæjarklaustr eptir mann sinn, nefnir í landaþrætumáli »margar eyjar á Kúðafirði«, enda er þetta næsta líklegt, að svo hafi verið, og hólmar þeir, sem enn eru, og ýmist kallast »Leiðarvallahólmar« eða »Sandahólmar« hafa þá líklega verið meira eða minna af þessum eyjum. Melkinn heitir enn á merkjalínu milli Skálmarbæjar og Jórvíkr. Þessir hólmar hafa verið að útliti alt öðruvísi en nú, bæði hærri og máské minni, og því eru eyjarnar taldar farnar af 1776. Merki sjást, eða hafa fyrir skömmu sést þar, að skógi vaxið hefir verið í Álptaveri, og skógr er enn talsverðr fyrir utan Kúðafljót í Skálmarbæjarhraunum. Grashólmi einn er enn í útsnðr af Ásum, sem Kúðhólmi heitir, og örskamt frá Leiðvelli í litlu dalverpi sjást enn margar tóptir og sumar þeirra sokknar í jörð; þessar tóptir kallast enn »Búða tóptir«. Búðahraun heitir enn hraunið skamt frá tóptunum. Búðardalr vita menn að vísu ekki fyrir víst hvar verið hefir, en mjög mikið mælir með því, að álíta, að hann hafi verið það, sem tóptirnar standa í, en nokkuð af honum sé nú komið í Kúðafljót, sem nú rennur miklu austar, en áðr. Klettkorn, sem er að smáeyðast, er útnorðan (eða vestan) til við tóptirnar, og heitir það »Kúðanef«; er það gömul sögn, að þar hafi skipinu »Kúða« verið lagt við, en farið síðan á smærri skipum uppeptir í Kúðhólma. Hólmarnir í Kúðafljóti eru enn margir, sumir stórir en sumir smáir en nokkrir eyddir á fáum árum af fljótinu. Þess er áðr getið, að varla sé á því efi, að skógivaxið land hafi verið vestan vert við Kúðafljót, en á hinn bóginn er líka mjög líklegt, að eins hafi verið austanmegin Kúðafljóts eða fjarðar, því meðal annars hefir núlifandi maðr í Meðallandi, bóndi miðaldra, fundið uppblásna skógarrót mikla á Höfðamelum, sem eru útnorðr af Langholti og aðra í Hvannkeldu, milli bæjanna Hnausa og Feðga. Ós í Meðallandi vita menn gjörla hvar verið hefir; hann var langt fyrir austan Kúðafljót, þar sem það rennr nú og

hefir runnið; hann var fyrir austan Sanda- og Koteyjar-lönd, þar sem nú er leira, hér um bil 800 faðmar á breidd, og finnast bæjarrústirnar í leirunni; á Ósi var byggð 1785, tveimr árum eptir Skaptáreld; síðar var bærinn fluttr þangað, sem hann er nú og heitir síðan Skurðbær, af því bærinn var settr á bakka við rennsli nokkurt, sem Skurðr heitir, sá er Lyngamenn gröfu og síðar skal getið. Hvar Ósabakki hefir verið, get eg ekki sagt, en til hefir hann verið, því segir vísan: »Árni minn á Ósabakka ekki er frómur«.[1]) Um Kirkjuból, Steðjubakka og Skaptárnes get eg eingar upplýsingar gefið. Ekki hygg eg að Nes hjá Búlandi hafi áðr heitið Skaptárnes, og Skaptárdalr getr það því síðr verið, því hann hefir ávalt, að minni hyggju, haldið sama nafni, en mér hefir dottið í hug, að Nes hjá Ásum, sem fór af í Skaptáreldinum 1783, hafi heitið Skaptárnes, því Skaptá hefir áðr runnið skamt eða rétt fyrir austan Nesland, og Landáin, sem hefir verið kvísl úr Skaptá, hefir runnið fyrir austan Nesbæinn. Um Hafnarnes í Álptaveri get eg ekkert sagt. Ósabakki er fráleitt sama sem Ósabær, sem hefir verið í Alptaveri (þar heita enn þá Ósbæjarhálsar fyrir sunnan Landbrotsá)?

Vísa sú, sem greinir frá fjórbýli í Svínadal er þannig:

Svínadalnum sagt er frá
seggir búa fjórir á,
Bauluvelli bragnar slá,
brúðir eptir raka ljá.

Til landnorðrs eða austrs frá Ósrústinni eru tóptir: 1. Möngutættr, 2. Þorsteinsgarðr, 3. tóptarrústir, sem eg ekki veit nafn á, og 4. Melr; þar er mælt, að kirkjan hafi áðr verið; en frá Mel var hún flutt að Skarði; enn mótar fyrir götum (þó lítið) hjá Skurðbæ, sem legið hafa að Melkirkju og til sjávar. Rétt fyrir síðustu aldamót fanst í rofi við Skurðbæ skaflaskeifa mikil, sexboruð; hefir hún máské verið undan hesti, er riðið var til Melkirkju eða þá til sjávar. Það er gömul sögn í Meðallandi, að þegar kirkjan var flutt frá Mel að Skarði, hafi hestr farizt af brú í Skarðsá; hestrinn bar prédikunarstólinn; var stóllinn að vísu hirtr, en spáð um leið, að ekki mundi Meðallendingum frá þeim tíma verða haldsamt á prestum sínum.

Oddar: Gamlar sagnir segja að í Oddahverfi hafi verið 12 bæir; 8 af þessum býlum höfðu staðið þar sem nú heitir Helguþúst; á þessum stað var einnig bænhús.

Skarðsá: Skarðsá hafði komið úr Arnargljúfri, langt suðr frá Botnum og runnið austr hjá Skarði og fallið fram í Lyngakvísl.

Höfðakvísl: Hún rann utan úr Breiðalækjargljúfri; þar barðist Kári við Kringlumýri; Kringla var veiðivatu; rann svo kvíslin austr hjá Langholti og Lyngum og heitir Lyngakvísl fyrir austan Langholt og fellr í Strandarholtsós.

---

[1]) Ósabakki er farinn af fyrir 1550, því að ekki er hann talinn með Þykkvabæjarklaustrsjörðum í klaustrajarðabókinni fornu (J. Þ.)

Hólmasel: Bær er Hólmar hét hafði staðið í útnorðr frá Efri-Steinsmýri, fyrir ofan Steinsmýrarfljót; Hólmar áttu landskika sunnan til við fljótið; hafði bóndinn á Hólmum þar í seli, meir til að ásælast Skarðsland heldr en að hann ætti þar nóg land fyrir búsmala sinn; en þegar Skarð var eyðilagt af sandi, keyptu Skarðsmenn þetta selstæði fyrir ítak í Skarðsmýri, og nefndu Hólmasel; mun það brátt hafa orðið prestssetr, því Espólín getr um séra Haldór Högnason frá Hólmaseli, er dó af falli af hestbaki [1760]. Björn Jónsson var prestr í Hólmaseli 1783; hann var stórríkr og drambsamr, en stundum ör á góðgjörðir við heimafólk og aðkomandi. Kona Björns prests hét Elín; hún var mjög naum til útláta, og má sem eitt dæmi um sínku hennar telja, að þegar menn voru önnum kafnir að bjarga fé prests undan jarðeldinum og prestrinn bauð henni, að veita vel fólkinu, hafi hún rent mjólkinni, gefið síðan fólkinu undanrennuna, en helt rjómanum ofan á skyrkerin og sagt, að hún mundi aptr vitja skyrkerja sinna. Tún var stórt í Hólmaseli, girt görðum, og fagrt land umhverfis; bærinn ásjálegr með 8 til 10 þilhúsum; þaðan var fé flutt $^{20}/_{6}$ 1783 á 30 hestum klyfjuðum, og 12 kýr reknar; daginn eptir sást að eins á húsabustir upp úr eldinum.

Selkrókr[1]) hefir bær heitið í Meðallandi; var hann í útsuðr af Syðri-Fljótum, sem nú standa í Selkrókslandi.

Kumli hét í Fljótalandi; um sama leyti sem Skarð tók af, eyddust einnig 2 bæir þar nálægt, er hétu: Sandholt og Flóðholt. Klaufirnar voru 3: Einarsklauf, Brynjólfsklauf og Oddsklauf. Skaptáreyrar hétu svo: Nautaeyri, Hrossaeyri og Lambaeyri. Akrhólmi hét hólmi sá, sem Botnabóndinn rak fé sitt í, er eldglóðina bar að 1783, og brann það þar alt. Mikil jökulhlaup höfðu komið í Meðallandið fyrir Skaptáreld; jafnvel fyrir árið 1600 kom hlaup mikið í Lyngakvísl ofan úr Landá, sem flóði yfir Lyngaland, en til að hleypa vatninu af landinu sínu, grófu Lyngamenn skurðinn, sem er fyrir norðan Skurðbæ. Jökulhlaup úr skurðinum skemdi gott eingi, er Grímstöðum tilheyrði; varð það að stórri leiru, og af þeirri leiru er sagt, að sandr sá kæmi, er eyddi Melkirkju. Lyngamenn voru sektaðir fyrir að grafa skurðinn. M[agnús] Magnússon.

Bls. $740_{12}$. Langanes [8]) l. Langanes [7]); $741^{15}$. keleik l. kaleik. — 742—43 Nr. 483. Sólheimamáldagi finst og í broti því af máldagabók Odds biskups, sem ritað er 1592 og nú er í British Museum í Lundúnum. Orðamunr er þessi, sem mark er að: 9. línu máldagans (bls. 743): halfrar fimtandu alnar. ny baksturjarn; l. 19. við orðið Brandzlæk er sett athugasemd á spássíu: »eda hraunslæk«, en það er rangt, því að Brandslækr er enn talinn sóknaskil í lýsing séra Jóns Sigurðssonar á Reynisþingum. Í staðinn fyrir þessi orð: »Sa maldage — ix. Martij« (sjá bls. 743 neðanmáls) stendr hér: »transscriptum Solheimum D. e. 9 Martij 1590«. — bls. 749 nóta [1]) syodalia l. synodalia. Bls. 772—777 Nr. 497—500 (Öræfa-

---

[1]) mun vera það, sem í máldögunum er nefnt Sel (J. Þ.)

máldagarnir). Í Norðanfara XVII, 1878 Nr. 21—22 (bls. 43—44) stendr fróðleg skýrsla um býli að fornu í Öræfum (Héraði), og er sú skýrsla samin 1712 á Hofi í Öræfum af Ísleifi sýslumanni Einarssyni (d. 1720), en skýrslu þessa sendi Magnús Bjarnason á Hnappavöllum Sigurði prófasti Gunnarssyni, og kom hann henni í Norðanfara. Bls. 781 í Kirkjubæjarklaustrsmáldaganum hefir fallið úr orð og heil lína í 5 neðstu línunum á þessari blaðsíðu um itölur klaustrsins. Þar á að standa svo:

þessar itolur æ stadurinn i kirkiubæ.
frā þverā skulu lukast niju aurar voru huertt vor.
frā keldugnupi half mork voru.
af horkzlandi half mork voru.
af breidabolsstad. xij. aura.
af dalbæ hālf mork voru oc. ij. vetrunnga fodur.
af vppsolum half mork vorv.

Eyðurnar um afgjaldið af Heiði, Tungu og Fljótum má fylla með nokkurnveginn fullri vissu á þessa leið (sbr. F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 79):

ä [heidi c].
j tungu [cc].
at fliot[um c oc v] aurar.

Bls. $788_{10}$. uarna l. uarn og í l. 5 (n.) ábóti l. ábóta; nóta [4]) l. [3]). — 798 § $2_2$. hiskup l. biskup. — 800 § $43_3$. opinherlega l. opinberliga. — 805 § 98 og 830 § 2. vestan Jökulsá á Sólheimasandi stendr í handritunum, en það er þó rángt og ætti að vera fyrir austan eins og stendr í hinum skinnbókunum. — Bls. 818[6] etcetere l. et cetera. — 819 § 33[2]. af biskupi fullt valld l. af biskupi hafa fullt valld. — 820 § 39[1-2] sie kirkiu, l. sie i kirkiu. — 845[11] regine l. regina. — 859 Nr. 533. Sum handrit og þar á meðal einmitt AM. 60. 8vo — eg trúði mér þá ekki sjálfum og því lét eg vera eyðu fyrir því — láta þessa réttarbót vera útgefna í Kaupmannahöfn 1530, en eigna hana þó um leið fullum fetum Magnúsi konungi.

# Registr.

1) Jón Pétrsson ætlar (Sýsl. I, 16), að hér sé átt við Grýtubakka, en það virðist vera ólíklegt. Kirkjan á Þaunglabakka átti alt heimaland og tvo hluti í rekum, áðr Eyjólfr Helgason gæfi kirkjunni reka, en það hefir verið þriðjungr fyrir heimalandi, sem hann gaf.

[1]) Því að Beiner biskup kann að vera mislesið fyrir Ormr biskup; sjá Beinir.

1) I »Foss Rooum« var enn skógr á 18. öld (sbr »Bjargleysisbrag« Þorsteins Magnússonar á Hæli, enn á lífi 1732).

# Athugasemd við registrið.

Biskupsbrekkur; réttara: Biskupsbrekka.

cera og cere hefði átt að standa í einni klausu.

frú. Þar á að bæta við: frú Þrúðr 453.

Gísli Hákonarson lögmaðr. Það stendr, að hann sé dáinn 1648, en á að vera 1630, 48 ára gamall.

hos est corpus meum, les: hoc est o. s. frv.

sólarsteinn. Þar hefði mátt bæta við: Sbr. á latínu solarium (= sólúr), sem mun án efa vera hið sama.

au fyrir framan ng og nk er optast hér í registrinu; þó er ekki full samkvæmni í því, og má sumstaðar finna að ritað er ö; en með hvorum hættinum sem ritað er, þá er allra slíkra orða að leita á þeim stað, er þau skyldu staðið hafa rituð með ö.